ad riettu. Goodverkeñ eru jafnañ Skyllda/ eñ hin Vondu eru Afgiörd a moote Skylduñe. Hin bestu Goodverk forþiena eckert/ þvi ꝥ er eins og ad betala Skulld sijna/ eñ hid minsta Afbrot viñur til Reide/ þvi þa vantar svo miked til Skullda Lukningar: Þess gietur Jacob Postule 2. Cap. Sa sm̄ helldur allt Lögmaled/ eñ verdur Brotlegur i einu Boda orde/ hañ er sekur vid öll. Ad söñu stendur hier i Epterlijkinguñe/ Ad Hwssfadereñ hafe giört Samning vid Verkameñena/ um̄ eirn Pening/ Eñ ecke er ꝥ so ad skilia/ Br. M. / so sm̄ þegar Madur semur vid Mañ/ helldur talar Drotteñ ꝥa ad Mañlegū Plagsid. Peningur þesse er JEsus Christur/ hiñ sañe Israels Sicill/ mz hvörium Foornernar leystar voru fraa Lijflatenu a gamla Testamentesins Dögū/ Eñ syndugar Saal er fyrer JEsum Christū fraa eilijfū Dauda/ Eñ Samningureñ skiede i Ondverdu vid vora fyrstu Forelldra epter Falled/ þegar Gud af einskiærre Naad & Myskun siñe hiet þvi/ ad Kviñuñar Sæde skyllde i sundurmeria Höggormsins Hofud/ Gen. 3. Hañ verdur Itrekadur so opt sm̄ vier heyrū af Guds Orde/ ad vier sieū af Naad hoolpner vordner/ & ecke af Verkunū/ Eph. 2. Ad Gud hafe epter Myskunseme giört oss hialplega/ eñ ecke af Verkunū/ sem vier giördū/ Tit. 3. þegar oss sagt verdur/ ad hvör sem a JEsu Nafn trwer/ skule ecke fyrerfarast/ helldur hafa eilijft Lijf/ Joh. 3. Og þesse Samningur hefur eirn og hiñ same vered fra hinu fyrsta Fyrerheite/ & mun verda allt til Veralldariñar Enda vid alla þa/ er forlaata sig uppa Sonarens Forþienustu mz hreirnre Trw/ þvi JEsu ꝥzū bera aller Spameñ Vitne/ ad i hñs Nafne fæe ꝥr aller Syndaña Fyrergiefning/ s̄ a hñ trwa/ Act. 10. Og er hier af audsært/ ad ꝥa er eingeñ almeñelegur Samningur/ helldur lijkt þvi/ þegar eirn goodur og Raadvandur Madur heiter nockrū einhvöriu goodu/ æn allrar Verdskulldunar/ þa reiknar hñ sig skylldugañ ꝥ ad hallda/ uppa ꝥ ad hñs Ord bregdest ecke. Og ef ad finast kañ einhvör so Lyndur a medal vor/ sm̄ vonder erū/ Hvad miklu framar mun Gud/ sm̄ er alleina Goodur/ vera bundeñ vid sijn Loford/ Luc. 11. þar hañs Ord forgaanga alldrei/ þott Himen og Jord forgaange / Luc. 21. hvar fyrer eingeñ kañ wt af ꝥssu Lausnarans Orda Tilteke/ ad reikna til nockurrar Verdskulldunar

hia

hia Gude/ helldur blijfur hid sama/ sm̄ Pall seiger / Rom. 3. ad allur Heimurenn verde Løgmalleñ fyrer hönū. Og svo sm̄ þ/ ad þr sem komu um siøttu/ nijundu og ellæftu Stund/ feingu af Naad þ þr feingu/ so er og Samningureñ vid þa fyrstu af einskiærre Naad giørdur/ þvi sialf-raadur var Herrañ ad laata siñ Vijngard audañ liggia/ nema hñs Giæska hefde knwd hñ til ad leita epter þm̄/ er hñ mætte hialpa. Jeg veit ad nockrer hafa steitt sig a þm̄ Ordū/ er skrifar Jacob Postule/ 2. Cap. og þañeñ hliooda: Sier þu ecke ad Trwen hefur samverkad hañs Verk. um/ & Trweñ er af Verkunū til Lykta leidd/ & Skrifteñ er uppfylld/ er seiger: Abraham trwde Gude/ og þ vard hönū til Riettlætis reiknad/ Sioæed þier þar fyrer ad Madureñ Riettlætist af Verkunū/ og ecke af Trwñe alleina. Þetta hefur nockrū þott Gagnstædt/ þvi er bæde St. Pall/ og øll H. Ritning mz einu Hlioode vottar/ sm̄ er þrar Mein-ingar/ ad Madureñ verde af Trwñe Hoolpeñ / og ecke af Verkunum/ Rom. 4. Eñ þsſ er giætande hvør ad sie Meining Jacobs i þssū Pistle: Hañ atte Ordastad vid þa er hielldu sig vel Christna/ ef þr trijdu a Gud/ og jatudu hñ eirn ad vera eins og Diøflarner / eñ auglijstu ecke Trw sijna mz Christelegum Verkū/ Þad byrta þesse Ord/ er standa skømt̄ ɛadz i sama Capitula: Ef Brooder edur Syster eru nakeñ/ og skorter Dag-lega Næring / eñ einhvør ydar seiger / Fared i Fride/ vermed ydur og mettest/ eñ giefid þm̄ þo eige þ Lijkamanū er þarflegt/ Hvad gagnar þz Svo er og Trweñ/ ef hun hefur eige Verkeñ/ hun er daud fyrer sialfa sig. Hier giører Jacob bert fyrer Møñū hvad hñ meinar: So sm̄ þ er ecke Myskun ad seigia: Verm þig og mettast/ Svo er þ og ecke helldur Trw/ ad seigia: Eg trwe a Gud & hñs Son/ eñ afneita Gude mz Verkunum aptur amoot / Svo sm̄ þad er eckert Myskunarverk ad giefa allar sijnar Eigur Fatækum/ eñ hafa þo ecke Kiærleikañ/ 1. Cor. 13. Svo forþiena og eige helldur Verkeñ neitt i sialfu sier. Vilie eg seigia / ad Verkeñ viñe til nockurs hia Gude / þa vil eg og seigia / ad Efnid i einum Smijdisgrip forþienar Laun / af þvi hñ er vel giørdur / eñ svo sem hñ kuñe ecke ad giøra sig fyrer utañ Hagleik Mañsins/ svo hafa & Verkeñ allt sitt Agiæte af Trwñe/ sem er

Guds

Guds Verk i Mañenū/ Joh. 6. Seiged mier þa/ hvar er þra Verde skulldan? Trwen samverkar Verkunū seiger Jacob/ Eg jaata þ/ þvi an heñar væru þau Synd/Rom. 14. Nun verkar þ mz þm̄ / ad þau Syndlaus reiknast/forþiena þo eckert. Trwen fullkomnast af Verkunū/ Men sia ad eirn er sterkur af þvi ad hn̄ kañ ad lypta Miklu/ añars visse eingen þ hn̄ sterkur være. Lioosed þeckest ad vera Lioos af Byrtuñe. Abraham audsynde sig ad vera trwadan/ af þvi hn̄ gierde hvad Gud baud hm̄/ þañen fullkomnast Trwen af Verkunū en ecke ødruvyse/nema einhvør villde seigia/ ad Verken være Partur af Trwareñar Veru / og være þ eins og ad seigia / ad þ være Mañenū verulegt ad ganga og standa. Hiten fylger Elldenū / Harkañ Jornenu / Byrtañ Sooluñe/þo er hvørke Hiten Elldur nie Harkañ Jarn nie Byrtañ Sool/ eige helldur eru Verken Trw/ þo þau fylge Trwñe/og ecke riettlæta þau þo þau framkome af þm̄ sem Riettlaatur reiknast f Trwna. Abraham trwde Gude/og þ var hm̄ til Riettlætis reiknad seiger Jacob. En eckert gott Verk giefur Skriften um̄/ Gen. 15. þegar Gud matte hn̄s Trw so mikels/ helldur alleina um̄ þ / ad hn̄ hafe Gude trwad til þess/ ad hn̄s Sæde skyllde verda svo sem Stiørnur Himens/ en Jacob tekur þ saman vid hn̄s Trwarverk / þegar hn̄ villde offra Syne synū/ Gen. 22. til ad styrkia þar mz syna Meiningu / sem er sw/ad Trwen sie dauld an Verkaña/ af Verkunū riettlætest Madr/og ecke af Trwñe alleino: Vm̄ Auglysingu Trwareñar talar Jacob hier / og eige um̄ sialfa Trwna / um̄ Trwarjatninguna fyrer Møñū / og ecke um̄ Trwareñar Krapt fyrer Gude/ þ kieña mier hn̄s eigen Ord i sama Capitula: Syn mier þyna Trw af Verkunū. Og ad þier vited/ Brædur myner/ ad þta er meir en Hiegome eirn/ þa merker þta Ord ad Riettlæta / i H. Ritningu optast ecke añad en ad auglysa sig edur adra Riettlaata ad vera. Þu hefur riettlætt þyna Systur mz þynū Svyvirdingū seiger Drotten um̄ Jerusalem/ Ezech. 16. Hvørnen kuñe hun ad riettlæta / sm̄ sialf var øllum Skømū vafen? En þ kuñe hun ad giøra/ ad syna ad hun være sier riettlaatare. Ad þu riettlætest i þynū Ordū/þegar þu dæmest/seiger David um̄ Gud/ Ps. 51. Hvør vill Gud riettlæta? sm̄ sialfur er alleina Riettlaatur?

lætur? Eñ ad dyrka hans Riettlæte fyrer Meñū/ Ꝥ kuña Meñ ad giø-
ra. Tollheimtumeñerner riettlættu Gud/ er Þr skijrder voru med Skijrn
Johañis/ Luc. 7. Hvørneñ gætu Þr Gud riettlatt? Synduger Meñ
& framar ødrū Løstū & Lijtū hladner/ eñ ad þeckia og opeñbera Riettlæte
Guds / Ꝥ var þra Skyllda. Jacob seiger: Madureñ riettlætest af
Verkunū: Eñ hvørneñ kañ Madur ad riettlætost af þvi sm̃ er eins og
nidurlags Fat/ Es. 64. af þvi sm̃ er Synd/ Rom. 14. af þvi sm̃ er
Skylduverk Onytra Þioona/ Luc. 17. Eñ þess eru Verkeñ uppkomeñ
ad auglijsa/ ad Gud bijr i Mañenū fyrer Truna/ ad Tru Mañsins er
kroptug fyrer Kiærleikañ / ad Ꝥ sie lifande og ecke daud Tru/ hver ed
stiornest af H. Anda til goodra Verka / epter Bode vors Endurlausn-
ara/ Matth. 5. Svo lijse ydar Lioos fyrer Mønū/ ad Þr dyrke ydar Fød:
sm̃ a Himnū er. Nu er þessu svo vared / Br. M. ad eingeñ hefur til
neiñar Skulldar ad telia hia Gude / & þad er Ꝥ sm̃ Endurlausnareñ hier
seiger i Epterlijkinguñe under Personu Hwsfødursins: VJnur / Eige
Giøre Eg þier ORiett/etc: Fyrst eingeñ hefur af Gude neitt for-
skulldad/ er Ꝥ þa ecke noogu stoor Naad/ ad hañ hefur alla leigt i siñ Vijn
gard/ Ꝥ er / alla kallad til Ydranar & Syndaña Fyrergiefningar/ eñ þott
ad adrer bere þar Hita & Þwnga Dagsins / & sieu strax ad Morgne kall-
ader/ munu Þr meiga lijta røngu Auga til þess/ þott hañ sm̃ um̃ øngvañ
Hlut er nockrū skylldugur/ þott hañ/ seige eg/ mijskune einhveriū a Dau
dastunduñe? Mun Samuel meiga sia Ofsioonū yfer Paulo? Jerem-
ias yfer Tollheimtumañenū Mattheo? Matth. 9. Josias yfer Man-
asse? Baptista yfer Tito & Timotheo / edur þesser aller yfer Ræning-
ianū a Krossenū? Luc. 22. Fiærre sie þvi/ Gude er i sialfs Vallde /
ad læta hvørn eirn hafa svo miked fyrer Himnarijke sm̃ hm̃ þocknast/ þvi
aller medtaka af Naad og ecke af Verdskulldan. Og þo eirn sveittest
Bloodenu i Guds Vijngarde fra þvi Fyrsta hañ hefur Vit a / & til þess
hañ gæfe Ondena upp / þa hefur hañ ecke med Verkunū meira forþienad
af Himnarijke/ helldur eñ hiñ sm̃ i Andlaatenu var kalladur/ þvi a wilie
hiñs Eilijfa/ sm̃ er Guds Rijke/ og þess er Enda fekur/ sm̃ eru dauidleg-
ra Maña Verk er eingeñ Jefnudur / svo eitt meige med ødru kaupast ad

riettu n Sølum. Svo vill nu Drotteñ hafa synt / ad hiner Fyrstu
verde hiner Sidustu / þegar Meñ vilia ganga i Riett vid Gud / ꝛ mog-
la vid Husbóndañ / ꝛ Sijdarster hiner Fyrstu þegar hñ vill nædugur
vera / þm̄ sē hñ er nædugur / Rom. 9. og er þo ecke hier fyrer nockurt
Mañgreinar Alit hia Gade / Þvi Marger Eru Kallader Eñ Fæer Ut-
valder. Balaam / Saul / Achab / Judas / ꝛ adrer miklu fleire / þr voru
Kallader / eñ þeir breittu epter Fødur synū / ꝛ stoodu ecke i Sañleikanum.
Joh. 8. Gud hefur ecke sagt þeir sm̄ kallader eru / helldur þeim sm̄ er
Trwr allt til Enda / vil eg giefa Koronu Lijfsins. Apoc. 2. Utval-
ningen er ad sønnu alltid viss hia Gude / þvi hñ hefur Utvaled þa sm̄ hñ
veit i Kølluneñe støduger standa munu / eñ øngvañ hefur hñ kallad med
þeim Skilmaala ad hñ skillde eige kuña fra ad falla / eñ vier erū ecke visser
um̄ vora Utvalningu mz ødru moote eñ þvi / ad svo leinge sm̄ Trweñ er
i oss kroptug fyrer Kiærleikañ / Gal. 5. Svo leinge erū vier Guds Bø-
rn / ꝛ þvi rædur Petur riett / 2. Cap. 1. Talande um̄ Trwna ꝛ heñar
Avexte / fremied i Trw ydar Dygdena / i Dygdeñe Vitskuna / i Vitsko-
uñe Sparsemena / i Sparsemeñe Þoleñmædena / i Þoleñmædeñe Gud-
rækneña / i Gudrækneñe Broodurlegañ Kiærleika / i Kiærleikanū Elsk-
una / þvi nær þta er hia ydur / ꝛ yfergnæfer / þa giører þ ydur ecke idiu-
lausa / edur forgiefens erfidande / til Þeckingar Drottens vors JEsu
Christi / þvi hvøriū sm̄ þta eige fylger / hñ er blindur / ꝛ leitar ad Veig-
enū mz Hendeñe / gleimande þvi ad hñ er af gømlū Syndū hreinsadur /
Þar fyrer kosted Kapps um̄ Brædur / ad giøra ydar Kallan ꝛ ydar Ut-
valningu vissa / þvi nær þier þta giøred / munud þier alldrei falla. Med
soddañ Moote eñ øngvu ødru / verdū vier visser um̄ Utvalningu vora /
þar fyrer hefur ꝛ Gud vijsad oss i siñ Vijngard til ad erfida / eñ ecke i
Heimeñ til ad rañsaka sitt Leyndar Raad: Eñ so Meñ best vite hvørneñ
þ samañ hanger / þa seiger Paall þ mz fam Ordū / Rom. 8. a þeñañ
Hatt: Hvøria hañ adur þeckte / þa hefur hñ fyrerhugad / hvøria hñ fy-
rerhugad hefur / þa hefur hñ kallad / eñ hvøria hñ kallad hefur / þa hef-
ur hñ Riettlætt / eñ hvøria hñ Riettlætt hefur / þa hefur hñ Dyrdlega
giørt. Hvørrar Dyrdar og eilyfrar Farsælldar oss uñe ad noota um̄
eilyfar

Eilijfar Allder / Gud rijkur af Nad / þyrer siñ Eingieteñ Son JESUM Christum/ og sende þar til siñ Heilaga Anda/
AMEN.

## Aññañ Suññudag i Nijuvikna Føstu.

Gudspialled/ Luc. 8. Cap.

Uꝫ þañ Tijma. Og þa ed margt Folk var samañkomed / og þad dreyþ til hñs wr Stødunñ/ sagde hñ i Eptterlijkin gu: Sa giecf wt sm̃ sæde/ ad sa Sæde sijnu. Og þa hñ sæde/ þiell sumt utañ hia Veigenũ/ vard Footũ troded/ og Fuglar Loptsins ætu þad. Og sumt þiell a Hellu/ og nær ed þ spratt upp/ visnade þad / aþ þvi ad þ haþde eige Vøkvañ. Og sumt þiell a medal Þyrna/og Þyrnerner sprutku upp med ꝫ kiæþdu þ nidur. Og sumt þiell i gooda Jørd / ꝫ þ vox upp ꝫ bar hundradþolldañ Avoxt. Þa ed hñ sagde þta/ kallade hñ: Hvør Eyru hefur ad heyra/ heyre hñ. Eñ hñs Læresveinar spurdu hñ ad / hvør ed være þesse Eptterlijking. Eñ hñ sagde: Ydur er unt ad vita Leynda Dooma Guds Rijkis/ eñ þm̃ odrũ i Eptterlijkingũ/ so ad siaande þa siae þr eige/ ꝫ oheyrande þa skilie þr þ eige. Eñ þesse er Eptterlijkingeñ. Sæded er Guds Ord. Eñ hiner vid Veigeñ/ eru þr sm̃ heyra þ/ eñ eptter þ kiemur Dioþulleñ og tekur burtu Orded wr þra Hiørtũ / so ad þeir skule ecke trwa og verda hialpleger. Eñ þr a Hellune eru þeir / sem medtaka Orded med Føgnude / þa þr heyra þ / og þesser hafa ecke Root/ hvørier um̃ Stundarsaker trwa / og a Freistingar Tijmanum falla þr þra. Eñ þ sm̃ þiell a millũ Þyrnaña/ eru þr/ sm̃ þ heyra / og velkiast i Sorgũ / Audæþũ og Gyrndũ þessara Lijþdaga / kieþiast og færa øngvañ Avøxt. Eñ þ sm̃ i gooda Jørd þiell/ eru þeir sm̃ heyra Orded/ og behallda þvi i goodu og sidsømu Hiarta / og færa Avøxt i Þolenmæde.

### Exordium.

Ef þier vardveited mijna Setninga og mijn Riettinde/ Sa Madur sem þad giører/ hn̄ skal lifa af þvi/ seiger Drottenn/ Levit. 18. Riettvijst er þetta Løgmaal svo sem aller Doomar Drottens / enn Obærelegt er ꝥ syndugū Mønnum / þvi hvør er sa ed Løgmaaled halldeд giete ? Eingenn af øllū Adams Nidium/ nema hn̄ eirn sem gierdest Bølvan fyrer oss/ Gal. 3. er Løgmaalsins Bølvan forþienad høfdū. Bølvadur vere sa sm̄ ecke helldur allt ꝥ sm̄ i Løgmaalenu stendur/ so hn̄ giøre ꝥ/ seiger Moyses i Guds Umbode / Devt. 27. Þesse Kostur var Obærelegur þm̄ sm̄ ecke gieta eitt Augnablik Syndlaust lifad/ & er ꝥ vijst ad hinn naaduge Gud hefur ecke sitt H. Løgmaal wtgiefed i þre Meiningu ad nockur munde ꝥ hallded gieta/ helldur til þess ad Menn skylldu laga sinn Lifnad þar epter/ ad svo miklu Leite sm̄ mannlegur Kraptur fær orkad / og svo i ødru Lage til þess/ ad synduger Menn vita mættu hvad miked þa brestur a ad uppfylla ꝥ sm̄ Løgmaaled bijdur / svo ꝥ yrde vor Typtunar Meistare til Christum. Nu þott ad Løgmaaled sie strangt / þa hefur hinn goode Gud læted þvi alltijd fylgia Evangelium / allt fra þvi hann wtgaf hann fyrsta Naadar Bodskap / ad Kvinnunnar Sæde skyllde i sundurmeria Høggormsins Høfud / Gen. 3. Stoor var sw Naad ad sønnu/ og svo stoor / ad øll Verølldenn gietur hana alldrei fullþackad. Enn svo sm̄ ad hun er mikel/ svo er og miked fra Straff/ sem hana forsma. Þegar Jsrael villde sig hafa undannþeigenn ad tala vid Drottenn i Horeb / er hann wtgaf sitt H. Løgmaal/ Exod. 20. Þa sagde Gud vid Moysen/ Eg vil uppvekia þm̄ eirn Spaamann af sijnū Brædrum eins & þu ert/ Devt. 18. og eg vil leggia mijn Ord i hn̄s Munn/ hann skal seigia þm̄ allt hvad eg bijd hønū / og hvør sm̄ ecke heyrer mijn Ord/ sm̄ hn̄ talar i mijnu Nafne/ af þm̄ hinnū sama vil eg þess krefia. O vor Gud/ vert þu oss naadugur/ Hversu illa er þm̄ fared sem Gud vill krefia Skulldarsinnar? honum mun verda i hin ytstu Myrkur kastad/ og mun ecke þadann wtfara/ fyrr enn hn̄ hefur borgad hinn sijdarsta Pening/ Matth. 18. sem alldrei verdur um̄ alla Eylijfd. Þott Løgmaaled være bæde strangt og Riettvijst/ þa gieck þo ecke hinn Naaduge Gud epter þeim Sektū sem þad Mønnunū a Hendur sagde vegna þess Lausnargiallds/ er hn̄ hafde sialfur til.

tilbwed oss og þyrerhugad i sijnu Eingietnu Syne/sm var sw eina Boot vid þvi Saare/ er Dioffullen veitte Adam og ollu hans Nyske/ Forsmaae hana nockur/þa seiger Moyses oss i þm Ordu/ er eg strax umm gat/hvad vid þvi liggur/sm er ad Gud mune krefia þess af Hende hins sama. Ef nockur syndgade a moote Moysis Løgu/þa vard þ þo þorligt ad i gamla Testamentenu m Offrum og Foornfæringu/ i hvørium ad Christur var Fyrermyndadur/svo sm Paulus Hebr.10. vottar a medan Synden var under Guds Þolenmæde / En nu þar Skuggen er i burtu horfen/en vier høfu sialfa Hlutena/Rom.3. þa verdur Synden burttekenn med sanre Trw a JEsum Christu. Þetta verdur oss boded i ollu Guds Evangelio/ sem er hid Andlega Saaded/af hvørlu hiñ nyie Madur gieten verdur i Hiarta voru / um hvørt Frelsaren talar i þessa Dags Evangelio. En þ er grææklegt til ad vita/ ad þesse Naad er svo mergum framboden/ kiend og predikud/ en svo faaer hafa þess Not sem hier med sia fyrer þeirra eigen Forsoomunar saker. Vier vilium þetta H. Gudspiall nockud giør yfervega/ og af þvi hugleida hvad Drottenn seiger um þa Fernslags Jørd/er took vid Saadenu. O vor Gud/lat þitt Ord sm i Dag verdur kiendt falla i gooda Jørd/ svo vier faaum þar af Avext i Þolenmæde. Bænheyr þ Himneske Fader/fyrer þiñ Eingieten Son JEsum Christum/ Amen.

## Utleggingen.

VOr Endurlausnare talar þanen um hina fyrstu Tilheyrendur i Upphafe Gudspiallsins/ ad sumt af Saadenu hafe falled utan hia Veigenu / og orded Footum troded/ og Fuglar Loptsens hafe uppeted þad. Hañ leggur þad sialfur svo wt/ ad þ sieu þeir/ sem vid Veigen eru/ en epter a kome Dioffullen og take Orded wr þeirra Hiørtum. Þeir eru vid Veigen seiger JEsus/og ecke a Veigenu. Þad mun vallda ad Orded er Dieplenn svo audsookt i þeirra Hiørtu/værn þeir a Guds Veige/mun de þ leingur vefiast fyrer hinu illa Ovin ad grafast epter þessu dyra Fie sood. Eg em Vegurenn/Sanleikurenn og Lyfed/ Eingen kiemst til Fodursens nema i giegnu mig seiger Lausnarenn/ Joh. 14. A þessu Veige Saaluhialparenar eiga oss Guds H. Ord ad leida/ aññars falma men epter

er Veigenū og eru blinder/2.Pet.1. Eñ hvorsu maa nockur sia Liooſed i hñs Liooſe/1.Tim.6. nema þ Christū hñs Liooſe/ſm er Guds Ord/ eþ meñ ſnwa þar vid Bakenu/ꝛ ecke Andlitenu/ eñ horþa aller uppa ſiñ Veg/Eſ.53. Nia Matth.7. ræder Frelſareñ um̄ tveña Vegu a þeñañ Natt. Gangeð iñ um̄ hid þraungva Ported/ þvi hid vijda Port ꝛ hiñ breide Vegur leider Aþvega til Glotunareñar/ ꝛ þeir eru marger ed hañ ganga. Þeſſer eru þr er vid Veigeñ ſtanda/Vt.M./a hvorra Vegū ad bijr Sorg ꝛ Armæda/ꝛ þeckia ecke Veg Fridarens/ Eſa.59. hvorra Vegz ad er hall/ꝛ þr munu dreiþaſt aþtrañ i Þokuñe og i heñe hrapa/ Jer.23. Lauſnareñ ſeiger/ad Sæded þalle utañ hia Veigenū/hañ meinar Akurreinarnar: þ ẽ i þær þellz/vardveiteſt/þvi Jørdeñ er plægd/ꝛ aller varaſt ad ganga þar um̄. Eñ þr ẽ vid Veigeñ ſtanda i Guds Akre/eru ſm Jørd/ er Ploogur Løgmalſins heþur alldrei geinged um̄ til ad myſkia Akureñ/ eige helldur Guds Vagn/ ſem ad er Evangelij Lærdoomur/ til ad þeita Jørdena. Hvad ſem þar þellur i/ verdur aþ Fuglum Himens/ þ er vondū Aundū uppeted/ edur ꝛ Footū troded/ þvi þa er Perlum̄ þ Svijn kaſtad/Matth.7.Hvørneñ bijr Gud i Mañaña Hiørtū: J ſijnu H.Orde. Hvørneñ ꝛ þ Hiarta tilreidt ad vera/ſem hñ vill bwa i: Angrad ꝛ ſundurkrameð/ Eſa.57. Þad ſem ecke fellur i ſoddañ Hiarta / þ þellur utañ hia Veigenū/ utañ hia Guds Akurreinum/og verdur Footum troded/ þvi aller Veiger Drottens eru Myſkun ꝛ Sañleiké/ øllum þm̄/er vardveita hñs Sattmaal/Pſ.25. eñ Vegur Ogudhrædðra mun fyrerfaraſt/Pſ.1. JEſus ſeiger ad Johañes haþe komed mz Veg Rietlæteſins/ Matth.21. Eñ hvørneñ var ſa Vegur er Johañes kiende: Giøred Ydran/þvi Guds Rijke er nalægt/Matth.3.Sa ſm ecke geing ur a þeſſū Veige/ hañ geingur ecke a Guds Veige/ ecke a Rietlæteſins Veige/ ecke a Fridarens Veige: i einu Orde ad ſeigia/ hañ geingur utañ hia Veigenū. Predikareñ ſeiger/Cap. 11. Ad hiner Ogudlegu gange a Vegū ſijns Hiarta/ Eñ hvørneñ Vegur er i þſſ Mañs Hiarta/ſm̄ dauſheyreſt vid Guds H.Orde: Þad er almeñeleg Þioodbraut Laſta ꝛ verſtu Klækia/hvar Agg/Reide/Præta/Mañdrap/Hoordomur/Frillulifnad ur/ſem aſ Hiartanu framkoma/Matth.15. haþa troded ſier Gadd i Jø-

kølldu

folldu Mañsins Hiarta / svo Guds Ord fær ecke Rwm i þeim / og ef nockud af Sædenu kañ ad hrioota þar iñ / verdur þad Footū troded. Þesser eru þr er fyrer Sidasaker ganga iñ i Guds Helgedoom / til ad byrtast fyrer Mōñū. Þier Hræsnarar / Vel hefur Gud um̄ þa talad fyrer Muñ Ezechiæ / 33. Cap. Þu Mañsins Son / þr koma til þijn svo sm̄ Folked er vant ad koma / og þr sitia fyrer þier so sm̄ mitt Folk / og heyra þijn Ord / eñ þr giøra þar ecke epter / helldur giøra þr Hæduijsur þar af mz Muñe sijnū / þra Hiarta stundar epter Abata / þu ert þm̄ eins og Amors Vijsa / sw ad lætur vel og er fogur ad leika / þvi þr heyra þijn Ord / eñ giøra þar ecke epter / og er þ skielfeleg Fæsiña / Br. M. er hiñ slæge Dioføll hefur blindad Maña Hugskots Augu mz / ad Meñ leggia Eyrun vid skam̄arlegum Ordum & fiflslegū Hiale / eñ byrgia þau fyrer Guds Evangelio / þau standa opeñ fyrer Hafgyu-Søngum Veralldareñar / eñ Brwdgumañs Raustu heyra þau svo þwnglega ad ecke er sijnt þau mune bregda vid fyrr eñ Hefud Engelsins Baasuna lætur i Skijū Himens. Dæmafrood Æfeñtijre & Lygasøgur laata Meñ sier iñdællt ad heyra / eñ vilie nockur fram̄telia Guds Daasemder um̄ Stoorvyrke vorrar Skepunar / um̄ Myskunar verk vorrar Endurlausnar / um̄ Leyndardoom vorrar Helgunar / þar velger Meñ vid svo sm̄ ødru Lieftmete / svo eg sie ecke añad i sumra Maña Fare / eñ ad þr mune þeinkia hid sama um̄ Guds Ords Þienara / sm̄ Athenu Borgar Meñ kvadu upp um̄ Paulū / er hn̄ talde þm̄ christelega Trw / eñ þr søgdu : Hvad mun Ordsnæpur þesse vila sier ? Act. 17. Giæted þo ad i Guds Nafne / christner Meñ / hvilijkur Hlutur ad Guds Ord er / þad er Foodur Saalna vorra / Matth. 4. þvi æn þess munū vier deya / þad er Lijf og Ande / Joh. 6. þvi æn þess erū vier i Syndunū dauder / þad er Leidarvijser til Himnarijkis / Ps. 119. þvi fyrer utañ þ munū vier ofañ fara i hin ytstu Myrkur / hvar vera mun Op & Tañagnijstran : Og fyrst vier þta vitū / & þ er i Hiertū vorū fyrer Doome Samvitsku vorrar sañprooftad / þa þyker mier sa ecke kvalræ dur vera / & ecke miked kvijda Helvijtis Pijslū / sm̄ lætur þ eins og añañ Vind um̄ Eyrun þioota / svo sm̄ þ kome ecke vid hn̄ / sm̄ af Gude er talad / & alltijd mune eitthvad til

eilijfs

eilijfs Lijfs verda. Nærst þessū talar Endurlausnarenñ um̄ þa er hn̄ samlijker grijttre Jerdu / i hvøria þegar Sæded fiell ⁊ spratt upp / þa visnade ꝥ af þvi ꝥ hafde ecke Vøkva: Þesser eru ꝥr sm̄ heyra Guds Ord ⁊ medtaka ꝥ mz Føgnude / ⁊ hafa þo ecke Root / ꝥr um̄ Stundarsaker trwa ꝥr / enñ a Freistingar Tijmanū falla ꝥr þar fra. Jeg kan̄ ecke añad ad seigia / enñ þessū er ad nockru Leite betur hættad enñ hinū / þvi lijklegre er sa til Apturhvarfs / sm̄ ad smackad hefur hvad sætur ad Gud er / helldur enñ hiñ sm̄ ævallt mootstendur H. Anda. Þo er ꝥ med þvi Moote ad ꝥr læte sig leidrietta af Anda Drottenñs nær ꝥr villt fara / añars munu ꝥr bwa vid vetre Kost enñ hiner / þvi ꝥ Orded sm̄ ꝥr heyrdu mun fordæma þa / Joh. 12. Petur fiell fra a Freistingar Tijmanū / enñ JEsu blijda Tillit snere hm̄ aptur svo hn̄ gieck wt ⁊ griet beisklega / Matth. 26. Aaron fiell fra þegar hn̄ Ottadest Folksins Reide / Exod. 32. Enñ hn̄ hvarf aptur a Guds Veg / svo hn̄s Synd var hm̄ ecke til Dauda reiknud. Sialfur Moyses var ecke længt þar fra / er hn̄ sloo tveim siñū a Kletteñ / Num. 20. hvar til hn̄ þo ei hafde Guds Bodord / Enñ aller þesser voru nærsta leidetamer aptur a Guds Gøtu. Judas fiell ⁊ fra / enñ skipadest ecke vid Christi Amiñingu i Kvølldmaltijdeñe / Joh. 13. ecke vid hn̄s blijda Avarp i Grasgardenū / Luc. 22. ⁊ ecke nema til Jlls vid hiñ harda Doom er hn̄ sæ ad ætlade ad ganga yfer siñ HErra / Matth. 27. Saul fiell og fra a Freistingar Tijmanū / enñ leitade ecke Guds i sijnū Mootgange / helldur Galldra Konuñar / 1. Sam. 28. þvi fiell hn̄ a sitt eiged Sverd / 31. Cap. Achab medtook Orded mz Føgnude / svo hn̄ sat i Seck ⁊ Øsku ⁊ griet fyrer Gude / 1. Reg. 21. enñ ecke ad Sijdur fiell hn̄ fra og sende til Frietta vid Baal / enñ liet aflijfa Spæmenñ Drottenñs. Þvi er eg viss um̄ / ad þesser mune Obærelegre Kost eiga enñ hiner / sm̄ alldrei hafa a Guds Veige geinged / enñ hvad mun ꝥssu vallda / Br. M. ? Ecke añad enñ ad Hiartad er hardt / svo ad Sæded fær øngvañ Vøkva. Guds Ord hafa eige giefad uñed so a Hriootskuna / ad ꝥ hafe smellfst i þeim fyrer hreina Ydran / ad hid himneska Sæded hafe feinged nockra fasta Root. Marger vilia Guds Viner vera þegar allt leikur i Lynde / enñ þegar Solbrune Mootlætingaña

tekur

tekur til ad hafa ſijnar Verkaner i Guds Akre/ þa viſna þr Avexterner brædlega ſem ecke eru vel groodurſetter. Ef Men̄ læta Steinen̄ i Elld þa verdur hn̄ gloandi um̄ Nrid / en̄ ecke mijkeſt hn̄ / nema hn̄ ad Oſku bren̄e/ Eins er þeſſ Man̄s Hiarta ſem̄ Spaamadurin̄ klagar yfer/ Jer. 8. ad ſie hardara en̄ Demant. Drotten̄ typtar þa mz Vende ſijns Ords / en̄ þr fin̄a þar ecke til / hn̄ heller yfer þa Oleo Fagnadaren̄s/ þ geingur eige in̄ i Steinen̄. Þegar Gud giefur Regn a Jørdena / þa fellur þ eins yfer frioofſama Stade og Ofrioofſama/ harda og minka. Þad er vijſt/ ad hvørtveggiu bera nockurn Avext medan̄ þ yferſtendur / en̄ þeg ar Solen̄ tekur ad bren̄a/ þa verdur ſw Grein þeſſarra / ad hvad ſem̄ yfer hina hørdu og Ominku Stade fiell / þ þornar brædlega upp/ þvi þ fan̄ eckert ſier lijke i Nelluſteinenū/ ſem̄ þ kyn̄e ad vardveita : hin Plaſſen̄ færa Avøxt þeſſ meire og meire ſem̄ Solen̄ meir verkar / þvi fra Mijkende hallda þvi er þau hlutu/ og hid beſta þar af ſtijgur ecke upp i Lopted aptur / helldur ſukijſt Avextenū i Vøkva og Veſſa : Svo verdur og Guds Ord predikad Vondū og Goodū / Bliwgū og Hardſvijrudū. J þeſſū bren̄er Elldur Mootlætingan̄a allan̄ Vøkva i burt/ en̄ i hinū ver kar hn̄ fridſamlegan̄ Avøxt Rietlæteſins/ Heb. 13. Alldrei hefur Guds Kyrkia meir eblſt en̄ i Mootgangenū. Þegar JEſu Nafn mætte ecke nefna fyrer utan̄ Lijfshæſka/ þa frioofgadeſt Guds Allden̄gardur beſt/ þegar Kraptur JEſu Bloods ſem̄ var i Ordenu/ fan̄ Guds Akur mijkt an̄ mz bloodugū Ydranar Tarū i Hiartanu þa kviknade Kiærleikuren̄/ þa ſpratt upp Þolen̄mæden̄/ þa grere Trwen̄ / þa voox Lijtelæted / þa lifnade Myſkunſemen̄ / þa dafnade Hoogværden̄ / þa bran̄ Elſkan̄ til Guds/ hvad heitaſt / ſoo ad hvørke Lijf nie Daude/ hvørke Einglar nie Valldſtietter nie Hofdingia Dæme / hvørke hid Nalæga nie þ Eptterkomanda/ hvørke Hæd nie Dypt nie nockur øn̄ur Skiepna/ kun̄e ad ſkilia Guds Elſkendur vid þan̄ Kiærleika ſem̄ er i Chriſto JEſu/ Rom. 8. En̄ ſijdan̄ Møn̄ū fook til ad leidaſt ad draga Oked mz Chriſto/ þa hefur ecke Ploogur Logmalſins riſt ſvo diupt i Man̄an̄a Hiørtū. Men̄ vil ia aller mz hm̄ rijkia/ en̄ fæer mz hm̄ lijda / og hyggia ad mætuleg Guds hrædſladuge noog til Sæluhialpar/ Þar fyrer folnar Hiarta Man̄ſins

svo ad Guds Ord/ þ himneska Sæded/ verdur ecke i Bein ꝛ Merg iñ-
drucked / fyrer þui vex ꝛ Korned i Guds Akre miøg svo þunt / svo ad
ein Staungeñ æper til añarar/ ꝛ Andskoteñ hefur mz Bale Oleyfelegrar
Neim,ins Elsku breñt off marga Dijla þar iñe/ Þar fyrer tem þier chri-
stelega Ydran/ O þu Guds Barn/ sm̄ villt Sæluhialpena erfa/ a medañ
Gud lætur þier ad Oskū ganga/ ꝛ lat Miñing þiña Synda ꝛ hñs Ast
giafa mykia Hiarta þit / svo ad H. Ande sm̄ byr i Ordenu meige una
þar iñe/ þt þu veitst ecke nær ed Nite Freistingaña tekur til ad breña/ og
þu þurfer brædlega a ad hallda / ꝛ þott þ verde eige fyrr eñ a Daudañs
Stundu/ sm̄ hvørn Dag yfer hanger/ þa þeink ad þær eru þa vyssar =
Eñ ongvū hefur veitt af a þre hørdu Tyd/ þm̄ einū hefur þa best veg-
nad/ vid hvøria Ande Drottens hefur talad i Hiartanu / i þui Ordenu
sm̄ þr ædur mundu og rootfestu þar iñe/ til heilnæms Veganestis i gieg-
num hiñ Myrkva Daudañs Dal / iñ a Land lifande Maña. Ninum
þridiu Tilheyrendū dregur vor HErra Dæme af þui Sæde sm̄ fiell a
medal Þyrna/ eñ Þyrneñ spruttu upp mz ꝛ kiæfdu þ nidur : Þad eru
þr seiger hñ er heyra Orded/ og velkiast i Sorgū/ Audæfū ꝛ Gyrndū
þessarra Lyfdaga / kiefiast ꝛ færa ongvañ Avøxt. Hvilyka Hindrun
ad þta Illgrese giøre Akurløndū Guds / eru fleire Dæme til/ eñ seigia
þurfe. Margañ hefur Bøksorg ꝛ Ahyggia fra Gude dreiged. Þar
sm̄ þiñ Fiesioodur er/ þar er þitt Hiarta/ seiger Endurlausnareñ/ Matth.
6. Hvørneñ fa Meñ þa under eins Gude þioonad ꝛ Mamona? Endu-
urlausnareñ seiger / ad Þyrneñ hafe vaxed upp mz ꝛ kiæft Sæded nid-
ur : Ecke seiger hñ ad Korned hafe ecke ꝛ nockud vaxed/ eñ þo er þ eige
ad meira Leite eñ svo / ad hñ reiknar þ fyrer ongvañ Avøxt/ hvar fyrer =
Af þui Þyrneñ høfdu Yfirhønd / eñ Kornstaungeñ þroskadest alldrei /
svo ad Axed næde vel ad springa. Lykt er þta Gudhrædslu sumra Maña/
þr ed giarna rækia Ord Drottens/ þr hafa þ um̄ Hønd/ þr bidiast fy-
rer/ þr færast fyrer Gude/ þr syngia ꝛ lesa / þr heyra giarna talad um̄
Gud ꝛ hñs H. Dadsemder/ ꝛ latast þ sialfer giøra mz fullre Alvøru /
eñ Krafa adra sm̄ þa eru toomlaatare i siñe Þioonustu. Eñ þegar Brod-
er edur Syster eru nakeñ/ ꝛ hafa Skort a tymañlegre Næringu/ þa giefa

þeir

þeir þm̄ þo ecke hvad Lijkamanū er naudsynlegt/ Jacob. 2. Þegar þr sia Þioofeñ/hlaupa þr mz hm̄ ad stela / Ps. 50. ef ecke mz almeñelegre Launung/þa mz Yfervarpe Laga & Riettinda. Eime þr nockud gyrnelegt / verdur Hryggsorgeñ þm̄ svo Obærileg sm̄ Achab / ad þr nærre þvi leggiast upp a Sængena/ 1. Reg. 21. Nær þ er ecke fyrer Augunū sm̄ eta skal/ þa er ecke Trweñ a Gud betur grundvollud eñ svo/ad Meñ spyria mz Heidingiunū / hvad skulū vier eta / eda hverin eigum vier ad klædast ? Matth. 6. Um Asnañs Skugga/& um Geitarhæreñ tønlast þr & kyggiast iñbyrdis/ þar til þr mættu um̄ Siþer verda uppetner/ & ef einhvør giører nockud af vid þa/þad rækia þr iñ til Daudañs. Eime þr Veg til ad Fiesletta einhvørn / spara þr ecke Roog nie Lijge/ Þyke eitthvad indælt vera / þa stendur Guds Elska & hñs Ord til Baka / eñ Holldenu er þioonad i þess Gyrndū & Tilhneigingū. Svo vaxa nu Þyrneñ upp fullū Fetū / eñ Sæde Guds Orda dempast & ber ecke Avøxt/ & a Gudhrædsluñe ber ecke fyrer Illgresesins Ofvexte / hvørt hun sie nockur i Hiartanu/þ vita eige adrer nema af Avøxtunū/ Hitt er Deigenū lioosara/ ad alldrei kiemst hun leingra eñ i Muñeñ/eñ hiner Limerner erfida i Sathans Akre/ Og synest mier ad þsser elske Gud mz sømu Elsku & hñs Limu/ er þr seigia : Vermed ydur & mettest/Jacob. 2. eñ giefa þm̄ þo eckert. Slijkt er i Raun & Sañleika ad hroosa sier af Gudhrædsluñe/ eñ afneita þo heñar Krapte/1. Tim. 3. Og svo sm̄ JEsus sagde vid Júda/ad ætsiæga Hæs Eckna & Fødurlausra under Hylmingu langra Bæna/Matth. 23. og kañ þ ecke ad fara a añañ Hætt/ Þvi eige verda Vijnbereñ samañleseñ af Þyrnunū/ nie Fijkiurnar af Þistlunū/ Matth. 7. Gudhrædsla soddañ Maña/ er eins og Tal hins Heimska/ fyrer Gude/um̄ hvørt Salomon seiger : Ad þ sie eins og Þyrnekvister i Hønd hins druckna/Prov. 26. Þyrnereñ er nærsta Bradþroska/vellder þ þvi/ad hñ dregur til sijn allañ Vøkva ur Jørduñe/svo þau Gresseñ/er i Nænd vaxa/þau fa ecke til Vidurlijfis/og ecki betre Vøkva sem hñ nijtur/ þess lijklegra er ad hñ befur bloomgest. Svo er Hreckvijsseñ/ þegar hun er plønfud i Nalægd Dygdaña/ (svo kalla eg Skin Gudhrædsluñar) þa tekur hun þess meira Abl. Þegar Dygdeñ er brynind med

 Lijkingu

Lykinga Guds Herſkrwda/ þa hefur hun ſtooran Myndugleika/ jafnvel þott þ ſie ecke nema Hanar eirn/ & Sathans Eingill i Lioſſens Eingel u ñ ſteipfur/ eñ eige ad ſidour mun rætaſt a þeim Spaadomur Eſa. 10. Elldureñ mun uppbreña hñs Þyrna og hñs Þiſtla a einum Deige. Þyrnarner eru bloomleger næſta/ eñ ſart ſtyngia þr ef Ogiætelega er a þeim teked. Þaneñ er Ahyggia og Bwkſorg þeſſara Lyfdaga/ Hun loſar øllu fegru/ Gulle & Silfre/ fullum Kornhlødū/ Ynde og Epterlæte/ eñ þr ed ſlyta Hiarta ſyñu þar med/ þr fiña þo eckert Ynde/ helldur eins & hiñ Watnsſiwke þyrſter æ þeſſ meir/ ſm hñ meira dreckur/ Svo er þſſ frekare Agyrndeñ/ ſem meire er Audureñ/ og hun etur ſialfa ſig / og elur ſig þo ſialfa/ Hun er bæde Hungur og Fylle/ Ynde og Sorg/ & þo er allt drei ſvo miked Epterlæted / ad ecke ſie meira Andſtreymid/ & þ ſm yfertekur/ ad hun kiefur þa Nadſemd/ er meñ eiga i Drottne ad hafa/ og mettar ſyna Þræla mz Harmabraude einu/ & dryckiar þa med Ominiſøle/ ſvo þm gleimeſt ad ſafna ſier Fieſiood a Himnū/ hvøriū ecke kañ Mølur nie Rid ad granda/ nie Þioofar eptergrafaſt/ Matth. 6. O þu dyrkeypta JEſu Brwd chriſteleg Kyrkia/ Læt þier þ til Rifia reña/ ad þiñ Bruſte er med Þyrnū Koronadur a yckar Heidurs Deige/ eñ þu ræktar þa Þyrnana beſt/ ſm hñs bleſſada Hofud hafa hvad ſaraſt ſtunged i Þyſtuñe/ Þad eru þynar Synder og þitt Epterlæte/ þu ſem ert afrekud med Guds eigeñ Bloode/ Act. 20. Svo þ er ecke allelydid Sorgarefne hvør ſm þeſſ giæter/ ad hid Oſorgeingelega Sæde Guds Orda/ ſem Petur talar um/ þad þrooaſt valla ſvo hier a Jørduñe/ ad Bindene hañs Barna verde fullt i Heimenum. Romveriar kølludu þad Opacklætañ Akur/ ſm ecke ſvarade Koſtnadenū & Erfidenu/ Eñ þ mæ hiñ Allsvalldande Hwſſ-Fader ad riettu ſeigia um ſiñ Akur/ þvi ef nockur vill meta til ſamans Guds Eingietens Sonar dyrmæta Blood / hvørs miñſte Drope ad er koſtulegre eñ øll Ryke Verallldareñar og fra Dyrd/ og ſvo hiñ fioorda Part af þm/ ſm Orded heyra/ad hinū Dreiknudum / ſm þar fyrer utañ eru/ þa mun hañ ſæka ad Chriſti Erfide og hñs Akurs Avexte ſie Olykt fared/ og øngvañveigeñ ſamañ ad jafna. Hvør Eyru hefur ad heyra/ hñ heyre þ. Hvørier eru hiner fioordu Tilheyrendur/ Br: M: Þad eru

þr

þt sm JEsus samlyker þvi Sædenu/ er þiell i Gooda Jørd ⁊ bar hundradfalldañ Avoxt. Þetta þyder Drotteñ uppa þa/ sm behallda Ordenu i goodu og sidsømu Hiarta/ og þara þar aþ Avoxt i Þoleñmæde. Gud heþur loþad ad sitt Ord skylldi ecke koma toomt til sijn aptur/ þvi heþur hñ ecke loþad / ad þ skule hia øllū verka Saluhiaalpena/ hvar þyrer ? Þvi þar eru svo marger sm þvi ecke hallda i goodu Hiarta/ og ecke aller sem lita þvi Rwm i Hiartanu. Hid sama Ord var predikad Pharao og øllū hñs Þienurū/ Eñ þo seiger Ritningeñ/ ad sumer aþ þm haþe Ottast Ord Drotteñs / eñ Pharao þorherdte sitt Hiarta. Hid sama JEsu Christi Evangelium kiende Paulus ⁊ Barnabas i Iconio/og þar truþe mikill Fiølde / bæde Gydinga og Griekia/eñ Judar þr ed Vantrwader voru/ æstu upp Heidingiana i moote Brædrunum/ Act. 14. Hid sama Guds Ord kiende JEsus øllū þm/er til hñs heyrdu ⁊ sau hñs Krapta verk/ þo søgdu nockrer ad hñ Jarteikner giørde þyrer Beelzebub/ Luc. 11. Adrer leitudu epter Teikne aþ Himne/ þo fanst þar ein Kona / er þagnade hñs Kieñingu/og sagde : Sæll er sa Kvidur er þig bar/og þau Brioost er þu mylkter. Andsvar JEsu uppa Ord heñar miñer mig a ad tala um/ hvørsu Gledelegt ader Guds N. Ord / i þess Mañs Hiarta/ sm heþur Lysting sijna i hñs Løgmæle/Ps. 1. Hañ sagde/ Hvad um þ : Sæler eru þr sem heyra Guds Ord ⁊ vardveita þau. Eg þyckest vita ad mørg mune svo Lynd sm Kona þesse/er hun liet a sier heyra/ad hun villde haþa vered JEsu Lykamleg Mooder / heþde hun þañ Kost mætt eiga / eñ eg heyre ad hvørre eirnre christeñe Salu er bodeñ betre Kostur / sm er ad heyra Guds Ord og vardveita þau. Ecke haþde Maria miklu Blijdlæte Heimsins ad fagna/ þott hun være Mooder ad Konunge Himens og Jardar. Eñ þad heyre eg ad hun hafe vardveitt øll hñs Ord i sijnu Hiarta/ Luc. 2. Þad heyre eg og ad Simeon seiger i þssū Cap. Ad heñar Lundu mune Sverd i giegnū smiuga/ þad heþur mn alls Eþa vered/ þegar hun stood under Krossenū/⁊ hun sa hñs Hendr ⁊ Fætur i giegn um stwngnar/er hun elskade svo ā sitt eiged Hiarta. Af þssu sie eg Mariu sæla ad vera/ þvi þau Ord er hun vardveitte i sijnu Hiarta / hafa hialpad heñe sijk Oskop ad þola/ Þad sama veit eg ad Guds Ord verkar

ar i allra þeirra Hiortū / ſm̄ hñ elſka / og eru JEſu andlegar Mædur.
Mitt Ok er ſætt og mijn Byrde liett / ſeiger Endurlauſnareñ / Matth. 11.
Ecke þyker þ Heimſins Børnū / þr ed Oked i ſundur briooka. Eñ hvør
mun þ liett giøra? Þad giører Guds Ord / ſm̄ riett-trwud Saala vard-
veiter i Hiartanu / hvørt ed telur heñe Trw um̄ þad / ad Mootlætingar
þeſſara Tijma / ſieu eige verdar þeirrar Dyrdar / ſem þram̄ vid oſſ mun
koma i eilijþu Lijþe / Rom. 8. Sæler eru þier nær Meñerner hallmæla
ydur / og tala i giegn ydur alla Vondſku fyrer mijns Nafns ſaker / þo
Liwgande / Seiger hañ eñ aptur / Matth. 5. Fagned og vered glader /
þviad ydar Verdkaup er nooglegt a Himnū. Eñ hvør mun giøra oſſ
viſſa um̄ þeſſe Verdlaun? Þad giører H. Ande / ſem byr i Ordenu / þvi
er eirn Harmþrungeñ og Sundurknoſadur Ande vardveiter i goodu og
ſidſømu Hiarta / þvi hñ er Pantur vorrar Arþleiþdar / Eph. 1. Svo ſem
eg er þeſſ þullviſſ / ad mier verdur eingeñ Skotaſkulld wr lanudu Fie / a
medañ eg Pant heþe: Svo og langtum framar er eg þeſſ þulløruggur /
ad mier mune øll Harmkvæle þeſſa Heims med eilijþre Glede endurgolldeñ
verda / (ſaþnvel þo eg þeſſ Overdugur ſie) a medañ eg vardveite Guds
Ord i goodu og ſioſømu Hiarta / þvi Ande Guds ber Vitne mijnū An-
da / ad eg ſie Guds Barn / Rom. 8. Og Fæder AVøxt J ÞOleſimæ-
de / ſeiger Herrañ: Hvørugt gietur añars an vered / Sa ſem vardveiter
Guds Ord / hañ fæder Avøxt i Þoleñmæde / og hañ ſem Avøxt i Þoleñ-
mæde þærer / hñ vardveiter Guds Ord. Þeſſ gietur Johañes i hñs þyr-
ſta Breþe / Cap. 2. med þeſſum Ordum: Ef nockur ſeigier eg elſka Gud /
og vardveiter ecke hñs Bodord / hñ er Lijgare. Villt þu Chriſteñ Madur
vita hvørt ad Guds Ord byr i Hiarta þijnu edur ei / þa rein og proþa
ſialþañ þig / hvørt þu manſt þad af Gude er ſagt / hvørt þu heþur Lyſt
u ad tala um̄ hañ / hvørt þier misþocknaſt / er þu heyrer hñs Naþn laſtad /
hvørt þu gledſt aþ þvi / þa hañs Ord hefur þram̄gang / hvørt þu elſkar
þa / er hañ elſka / hvørt þu ert þliootur ad tilgiefa Misgiørdernar / hvørt
þu kieñer i Briooſte um̄ þa / ſm̄ Naud lijda / og elſkar þa ecke einaſta med
Orde og Tungu / helldur med Verke og Sañleika / hvørt þu audmyker
þig þyrer Gude med Packlæte þijns Hiarta / þegar þier vel vegnar / hvørt
þu

þu kysser a hȳns Vønd nær hȳ þig typtar/ þegar þu freistast af Andskot aña/ Heimsins ꝫ Holldsins Vielū/ eñ þier kiemur þa under eins i Hug hvad Gud hefur bañad/ hvørt þu lætur þa af / ꝫ Elskañ til Guds ræd ur meir eñ Fysn Holldsins. Fiñur þu ꝥta hia þier/ þott ꝥ sie i Veik, leika/ ꝫ a stundū meige ꝥbera/ þa er ꝥ vyst ad Guds Ord ꝫ hȳs Ande drottnar i Hiarta þijnu/ eñ añars ecke/ Þvi svo seiger Lausnareñ: Ef nockur elskar mig þa skal hȳ mijn Ord vardveita/ Joh. 14. Eñ ef Skap þitt bydur þier allt añad / þa seige eg þier i Nafne JEsu Christi hiñs Krossfesta ꝫ Blessada / sm̄ þijna Sælu hefur fra Helvijte endurleyst / tak þier Vara ꝫ bid Gud ad skapa i þier hreint Hiarta / ꝫ giefa þier nyañ Anda/ þt eg þori ad setia mijna Sælu i Ved/ ad þu geimer vandæra Sælu i heilbrigdū Lijkama/ ꝫ herbergiar voudañ Giest i vænu Hwse / eñ veitst ecke nær a Veggeñ skrifad verdur: Þu Dare / a þessare Nootti skulu þr þijna Sælu fra þier taka/ Luc. 11. Hvad gagnar ꝥ þa Mañenū ad hȳ eigne alla Verølld þessa/ ꝫ lijdur svo Skipbrot a Sælu siñe. O þu eilijfa Ord Fødursins sm̄ varst i Upphafe hia Gude / þyrer hvørn ad Allderna̅r skapadar eru/ Endurskapa þu Hiarta vort/ ad vier verdū nij Skiepna i þier / lat þu þitt sæta Ord vera vort ædsta Epterlæte hier tijmañlega/ svo ad vier meigū þess Dum̄rædelega Fagnadar nioota eilijflega. Veit oss ꝥ DHErra JEsu Christe/ fyrer þitt dyrmæta Blood ꝫ blessada Forþienustu. Þier sie m̄ Fødur ꝫ H. Anda/ Dyrd/ Heidur ꝫ Loff/ fra þvi nu er ꝫ um̄ Alld er Allda/ AMEN.

## Suñudageñ i Føstu Jñgang.

Gudspialled / Matth. 3. Cap.



Þañ Tijma. Kom JEsus af Galilæa ad Jordan til Johañem / uppa ꝥ ad hȳ skijrdest af hønū. Eñ Johañes varnade hm̄ þess/og sagde: Mier er Þorf ad eg skijrest af þier/ ꝫ þu kiemur til mijn. Eñ JEsus svarade ꝫ sagde til hȳs: Lattu nu so vera/ þviad so hæfer oss allt Riettlæte upp ad fylla. Og þa liet hȳ ꝥ epter hm̄. Eñ er JEsus var skijrdur/ stie

hañ

hn jafnskiott upp wr Vatnenu. Og sia / ad Himnarner lukust upp yfer hm / og Johanes sa Guds Anda ofan stijga sem Dwfu / z yfer hn koma. Og sia / ad Rodden af Himne sagde : Þesse er Sonur min Elskulegur / ad hvorium mier vel þocknast.

# Exordium.

Eg vil uppveckia þeim eirn Spamann af þeirra Brædrum eins og þu ert / sagde Drotten vid Moysen / Deut. 18. Þesse Ritning er a vorn Frelsara Drottne JEsu Christo ad fullu uppfylld / þar ed hn strax epter synа allra helgustu Skirn i Ane Jordan var settur af Gude synu Fodur til Kiennemans skapar og Spamans Embættis Nya Testamentesins / og smurdur mz Oleo Fagnadarens fram yfer syna Hlut takendur / Ps. 25. soo ad uppfyllest þ sagt er fyrer Munn Esaia / 61. Cap. z hin eilijfa Speken Guds upp a sialfan sig fæder / Luc. 4. Ande Drottens er yfer mier af þvi hn hefur smurt mig / hn hefur sendt mig til ad predika Voludu / ad leggia vid þau sundurknosudu Hiortun / til ad predika þm Hertekuu Frelsed / þm Fongudu Lausnena / hinu Blindu ad þr verde heilskigner / ad eg frelse hina Sundurkromdu. En hvornen ma eg þ skilia / ad þesse mikle Spamadur sie eins z Moyses / þar hn var Madur syndugur / en þesse an Syndar ? Þess er ad giæta hier i / ad Gud spaer ad hn mune eins z Moyses verda / en Moyses þo ecke jafn hm : Lijkur ad sonu i allre manlegre Hegdan og Edle uppatekennar Nattúru / en nærsta Olijkur epter þre Ord sm hn atte i Upphafe hia synu Fodur / og i Sanleika er vor Endurlausnare Moysi i morgu Hlutum lijkur. Moyses var eirn Madur / Christur er z Holld af voru Hollde / z Bein af voru Beinu. Moyses var af Gude sendur / en um sig talar JEsus hia Johane : Svo sm Faderen sende mig / þa sende eg yd ur / Joh. 20. Moyses wtleidde af Egyptalande / JEsus hefur frelsad oss af Syndarennar Þrældoome. Gud wthellte synu Anda yfer Moysen og gaf honu Vitsku z Speke til ad Dæma sitt Folk / miklu framar þo yfer JEsum Christum / þvi honu hefur han an Mælingar giefed. Joh. 3. Gud took af Anda Moysis z lagde yfer Olldungana i Israel /

rael/ Num. 11. Af JEsu Fyllingu hefum vier aller medteked Joh. 1. Þar var eige so plægadur Madur sm̄ Moyses/ Num. 12. Hver hefur svo plægadur vered sm̄ JEsus. Moyses var Hertoge i Jsrael sa ed leidde Guds Fylkingar i Eydemørkun̄e/ JEsus Guds Sonur er hin̄ mikle Hertoge/ sm̄ af Bethlehem er utgeingen̄/ Mich. 5. til ad ſæda hn̄s Folk Jsrael. Jsrael hræddest fyrer Auglite Drottens i Horeb/ Exod. 21. og sagde vid Moysen : Eige viliū vier framar heyra Raustena Drottens Guds/ far þu uppa Fialled/ og tala vid hn̄ fyrer oss. Af hveriu ræda er ad Moyses i þ Sin̄ hafe vered Medalgangare millū Guds og hans Folks/ þrar Meiningar hefur & vered Stephanus Pijslarvottur Drott-en̄s/ er hn̄ sagde um̄ Moysen/ Act. 7. þegar hn̄ þyder þen̄a merkelega Spaadoom uppa vorn Frelsara / seigiande : Þesse er hn̄ ed var i Sam-kundun̄e i Eydemørkun̄e mz Einglenū/ sa ed talade vid hn̄ & Fedur vora/ sa ed medtook þ lifanda Ord/ ad hn̄ giæfe oss þ/ En̄ þott ad Moyses i þan̄ Maata være Medalgangare mille Guds & Jsraels Sona/ þa hefur þo Sonur Guds eitt ædra Embætte ødlast/ vorden̄ Arnadarmadur hin̄s betra Testamentis/ sm̄ stadfest er uppa betra Fyrerheit/ Heb. 8. Vid þen̄a Mismun a mille Moysis & Christi Medalgøngu hefur Paulus kan̄ast/ Hebræos 12. Cap. mz þessū Ordū : Þier erud ecke geingner til þess Fialls sm̄ þreifan̄legt er / & mz Ellde bren̄ur / nie til Þoku edur Myrkurs & Ovedurs / nie til Lvdur-Þits edur Raddar Ordan̄a/ vid hvøria þr Ottudust er hana heyrdu/ þad eige yrde til þra Orded talad / helldur erud þier komner til Fiallsins Zion / og til Medalgangarä hin̄s Nya Testamentis JEsum/ og til Bloodsins Adreifingar/ þ betur talar en̄ Abels Blood. Þetta er þ dyrmæta Blood Guds Eingletens Son-ar/ Apoc. 1. JEsu Christi / mz hveriu hn̄ þvær oss synduga Men̄ sem komū i þen̄a Heim / i Skijrnarlaugen̄e af øllū vorū Syndū/ & uppa þ hn̄ helgade øll Bøtn til hialpsamlegs Medals Endurfædingaren̄ar / þa hefur hn̄ laated sialfan̄ sig i An̄e Jordan skijra / svo sm̄ vier nu Sam-stundis heyrdū af þessa Dags Evangelio / af hvøriu vier viliū einasta yfervega/ hvad stoor & mikell ad sie Kraptur Skijrnaren̄ar i Framkvæmd vorrar Saaluhialpar/ & hvørier ad sieu hen̄ar Avexter. Þu myskun-

 same

same Gud sm̄ bæde hefur plantad & Avoxten̄ giefur / gief þu ad um̄ þen̄a þin̄ hæleita Leyndardoom svo talad & eptirteked verde / ad þitt allra helga, ta Nafn vegsamest a medal vor / en̄ vier mættu᷃ þin̄ar eilifu Myskunar Saluhialpleg Not hafa / fyrer Fullting̃e þyns Elskulega Sonar i Krapte H. Anda / Amen.

Utleggingen̄.

DRotten̄ sagde vid Nicodemum fordum Daga: Joh. 3. Ad hvad sm̄ af Holldenu fædt være ꝥ være Holld / en̄ hvilijk ad sie vor Holldleg Fæding / ꝥ utmalar Guds Ande allra best fyrer Mun̄ Pals / er hn̄ seiger: Eph. 2. Ad vier sieu᷃ af Natturun̄e Reiden̄ar Børn. Hvad kan̄ þm̄ Aumara ad vera sm̄ under Guds Reide eru / þar hun er eirn fortærande Elldur / sa ed bren̄ur allt til nedsta Helvijtis? Devt. 32. En̄ hvøren̄ eru᷃ vier nu vid ꝥta Volæde kvitter vordner? Þad hefu᷃ vier ødlast i Skijrnarsæmu᷃. Þess gietur St. Pall / Eph. 5. seigiande: Christur hefur hreinsad Søfnuden̄ mz Vatnslaugen̄e i Ordenu. Han̄ seiger en̄ aptur / Ad Gud hafe þrifed oss ut af Vallde Myrkran̄a & sett oss i Rijke sijns Sonar / Col. 1. Nær mun ꝥta hafa giørst? Ad Vijsu i Skijrnen̄e. Hvørt er Valld Myrkran̄a? Þad er Diøfulsins Rijke / Eph. 6. Hvørt er Guds Sonar Rijke? Þad er Fridur & Fognudur i H. Anda: Rom. 14. Þier vorud fordu᷃ Myrkur seiger Pall um̄ Heidingiana / ædur en̄ ꝥr voru af Gude endurfædder / en̄ nu erud þier Lioos i Drottne / Eph. 5. Eins voru᷃ vier aller a oss komner / ædur en̄ Guds eilijfa Myskun endurbætte vorn syndugan̄ Getnad mz Vatne & Anda. Svo mikill Munur sm̄ nu er a mille Lioossins & Myrkursins / mille Dags & Nætur / mille Soolaren̄ar & ꝥra Hluta sm̄ hun upplijser / svo miked Diwp sm̄ þar er stadfest a millu᷃ Lazarum i Fadme Abrahams & hin̄s rijka Sælgiætings / þar hn̄ pijnest i Helvijte & Kvølunu᷃ / Luc. 16. svo stoor Mismunur er ad sijnu Leite mille ꝥra sm̄ alleina af Holldenu / & ꝥra sm̄ i Skijrnen̄e verda af Andanu᷃ fædder / þvi vor Lausnare seiger hia Joh. 3. Cap. vid Nicodemu᷃: Nema einhvør verde endurfædur af Vatne & Anda / þa kan̄ hn̄ ecke in̄ ad ganga i Guds Rijke. Þetta tala jeg ecke i ꝥre Meiningu / ad eg hafe hin̄ min̄sta Þanka þar um̄ / ad Sma

fornest

børneñ sm̃ añadhvørt i Moodurlijfe burtkallast / eda deya strax epter þad þau boreñ eru i Heimeñ/edur hindrast a einhvern Maata fra Skijrnareñar Blessan/ ad þau mune ecke eilijfs Lijfs Erfingiar verda/ helldur af þvi ad Drotteñ atte Ordastad vid Nicodemum/ eirn fullordeñ Mañ/sm̃ ecke var svo uppfræddur i þre Guds Rijkis Stioorn / sm̃ Christur hoof hier a Jørduñe / mz Endurgietningu syndugra Maña fyrer Vatn og Anda/ er Nijungar þottu hia þm̃ sm̃ af Umskurneñe voru / sierdeilis Phariseaunū/ af hvøriū Nicodemus var/ þa epter þvi (seige eg) ad hñ villde undervijsa hm̃ i Lærdoome Nija Testamentesins/þa sijner hñ hm̃/ ad sa ed nu vilie holpeñ verda/ hñ meige skijrast laata. Eirn Kongungur er ecke bundeñ vid þau Løg sm̃ hñ sialfur giefed hefur/ svo hñ meige þm̃ ecke umbreita/ nær þei skiedur a moote Guds Løgū/ þvi skyllde þa hiñ mikle Stioornare allrar Veralldar vera svo fastur vid sijna Setninga/ad hm̃ leyfdest ecke ad giøra sijnū Skiepnū Gott/mz þm̃ Hætte sm̃ hñs alvitra Raade haga þyker ? Guds Setningar skyllda oss under hñs Hlijdne i øllu þvi sm̃ i voru Vallde er/ eñ ecke sialfañ hñ / svo hñ þ ecke wforiettа kuñe sm̃ hañ vill / mz þm̃ Hætte sm̃ hñ sialfur vill. Foroktun Skijrnareñar z ecke heñar Brestur fordæmer syndugañ Mañ / eñ sa kañ ecke ad forakta sm̃ eige kañ ad adgreina Illt z Gott. Nia Gude er eingeñ Hlutur Omaattugur/ Luc. 1. þvi mun þa þsse vera ? Maattugur er Gud ad uppvekia Abraham Sonu af Steinunū/ Matth. 3. þvi þa ecke ad flytia þra Saaler i Abrahams Skaut / hvørra Lijfsstundū hañ sialfur ræður ? Ef Gud villde endurfæda Mañeñ an Skijrnareñar/ munde hñ þ ecke gieta edur meiga ? Sañlega. Eg sie hñ hefur endurfædt þa sem a Gamla Testamentesins Døgū lifdu/ fyrer Medal Umskurnareñar/ Eñ ef hønum þocknadest ølldungis fyrer utañ nockurt Medal ad endurgieta Mañeñ til eilijfs Lijfs / munde þ ecke i hñs Vallde standa ? eingeñ Efe er a þvi. St. Paall styrker mig i þre Trw/Rom. 4. talande þar uñ/ mz hvøriu Moote Abraham hafe vered reiknud Trw sijn til Riettlætis/ mz hvøriu Moote var hun tilreiknud ? seiger hñ/ Hvort þegar hñ var i Umskurneñe edur Yfirhwdeñe ? Ecke i Umskurneñe helldur Yferhwdeñe. Hafe nu Gud Abraham Fødur Trwadra endurfædt þ utoñ

Ji 2 Sac.

Sacramentaña medal / þvi ſkal hñ ecke kuña ꝛ vilia þ ſama giøra vid þa
ſ ecke verdr ſo lœngs Lijfs audid/ad þr meige i Skijrneñe endur fædaſt.
Ad eg ecke tale um̃ Adam/Set/Lamech/Matuſalem/Enoch ꝛ Noa/mz
Otal Þuſund ødrũ ſ meñ fyllelega trwa ad nu liſe mz Gude i Himnenũ/
ꝛ andader eru ædur eñ Sacramenten voru inſtiptud. Og ad meñ vite/ad
þſſu ſie eins vared ſijdañ Sacramenteñ innſett voru/þa ſie oſſ vitañlegt/
ad hañ ſem kuñe hoolpna ad giøra þau Børneñ i gamla Teſtamentenu/ſ
burtkølladuſt iñañ þſſ ættunda Dags/hvør ætladur vat til Umſkurnar-
eñar/Gen. 17. hañ ſm myſkunade ſig yfer þa ſem deydu i Eydemørkeñe
Oumſkorner/Joſ. 5. Nañ ſ uthellte H. Anda yfer Cornelium og þa ſm
voru i hñs Hwſe/ædur eñ þr nockurn Tijma ſkijrder voru/ſvo ad Pet-
ur ſagde : Hvør maa baña þm Vatned/ ſem medteked hafa H. Anda eins
og vier ? Act. 10. Nañs diwpir myſkunar Ydur/Luc. 1. ſ øngvañ Botn
hafa/Þau eru ecke øllſamañ utrunneñ i Skijrnar Sæeñ/helldr reña hñs
miklu Myſkunar Læker eirneigeñ til þſſara Smælingia/af hvøriũ Fad
er Myſkunſemdaña vill ecke ad nockur fyrerfareſt/Matth. 18. Þeim ſm
ekwader voru af Umſkurneñe hnickte vid þ/ad H. Ande fiell yfer heidnar
Þiooder/ Act. 10. ſem eckert af Gude viſſu ædur eñ þr ſkijrder voru/
Svo ſkiedur þad eñ nu i Dag/ad þ ſm Omøgulegt er fyrer Meñunũ/þ
er møgulegt fyrer Gude/ Matth. 19. David Konungur þott hñ ſtoor-
ſyndugur Madur være/þa er eckert ad heyra añad a hañs Kvedlingũ/eñ
ad hñ hafe ætlad ſier ellyffa Viſt hia Gude/ þegar hñ harmade ſiñ Son/
hvørn hñ gieted hafde mz Berſabe/ hvør ed framar ødrũ hañs Børnũ
mætte kallaſt gieteñ og fæddur i Syndeñe/ ſa ed og deyde ædur eñ hañ
umſkoreñ vard/ Nañ huggade ſig mz þſſũ Ordũ þegar hñ reis upp ur
Duptenu/ þar hñ griet Synd ſijna fyrer Gude: Eg kiem til hñs ꝛ hñ
ecke til mijn/2. Sam. 12. Af hvøriu audſied er/ ad hñ hefur vered full-
trwa þar um̃/ ad hñ være undañ ſier fareñ i þa gledelegu Viſt/ hvar ad
er Sødning Fagnadarens/ ſvo ſem hñ þ ſialfur kallar. Hvad fiarlæge
er ad ſieu Guds og Maña Doomar/ er a medal añarra audſied af Jonæ
Spamañs Søgu/ þegar hñ nærre þvi brixlade Gude um̃ ſijna Þolen-
mæde/Jonæ 4. med þſſũ Ordũ : Jeg veit þu ert Nadugur ꝛ Myſk-
unſamur

Sveinum: Eñ þa var Paskahatid Gydinga nálæg. Og JEsus leit þa upp / og sa ad mykell Mañfiølde kom til hañs / þa sagde hañ til Philippum: Hvadañ kaupum vier Braud so ad þesser neyte? Eñ þetta sagde hañ til ad freysta hañs þar med / þviad hañ visse sialfur hvad hañ villde giøra. Philippus svarade hønum: Braud fyrer tvø Hundrud Peninga nægest þeim ecke / so ad hvør eirn fæe þa nockud lited. Eirn af hañs Læresveinum / sem ad var Andreas Brooder Simonar Petri / sagde hønum: Eitt Ungmeñe er hier / sem hefur fim̃ Biggbraud og tvo Fiska. Eñ hvad skal þetta a medal so margra? Þa sagde JEsus: Lated Meñena setiast nidur ad borda. Eñ þar var i þeim Stad Gras miked: Og þar settust nidur ad borda / Kallmeñ ad Tølu / nær fim̃ Þusunder. Eñ JEsus tock Braudeñ / þa hñ hafde Packer giørt / og fieck sijnũ Læresveinum / eñ þeir feingu þeim sem til Bordsins hofdu setst: Slijkt hid sama af Fiskunum / so miked sem hvør vilde hafa. Eñ þa þeir voru metter / sagde hañ til siña Læresveina: Safned samañ þeim Leifum sem afgeingu / so ad eckert spillest. Eñ þeir søfnudu þeim samañ / og fylltu upp tolf Karfer medur þessar Leifar / af þeim fim̃ Byggbraudum / hvøriar ad voru auk þess sm̃ þeir hofdu neytt. Eñ þa er þesser Meñ sau hvørt Teikn ad JEsus giørde / søgdu þeir: Þesse er sañarlega sa Spamadur sem i Heimeñ skal koma. Eñ þa JEsus formerkte þad / ad þeir mundu koma og handtaka hañ / og giøra hañ ad Konunge / veik hañ einsamañ burt / upp aptur a Fialled.

## Exordium.

EIrn af þm̃ gømlu Spekingum sagde fordũ Daga / ad Natturañ være ánægd med lited: Eñ ef vier eigũ ad skrifa under med hønum / þa munar nockru hvørneñ Natturuñar Þyding er tekeñ / þvi skiliest fyrer þetta ecke nema Sal og Lijkame i sialfũ sier / þa er þ satt ad þau þurfa ecke mikils vid af Veralldlegũ Munum sier til Vidrætis. Þegar Lijkameñ er Þollteñ ꝛ Ofroseñ þa er hønũ noog / eñ þegar Sal

eñ zyrnest ei framar þa er hun ánægd og vardar litlu med hvøriu þesse Naudþurft er uppfylld/þvi eins vel unde Adam i Skiñkyrtleñū Gen. 3. og Salomon i allre siñe Pryde / Matth. 6. og Johañes ollu betur i Ulfallds Feldenū/Matth. 3. helldr eñ Herodes i siñe Purpura Kápu/ Act. 12. Eñ sie Natturuñar Gloosa tekeñ fyrer Syndumspillt Mañs siñs Edle/þa hefur hun nær þvi alldrei noog/hun er Elldenum lyk sem þiſ neir logar sem neir er i hañ bored. Bloodsugañ slepper Hvødeñe um sider þegar hun er fullordeñ/ eñ Syndumspillt Natturá siallдañ þvi er hun legg ꞇ á. Sadningeñ er heñe Orsøk til æ meira Hungurs/og hun verdr alldrei sødd nema med Gullteñū. Vilie nockur sedia heñar Fyſn/ þa tekst þ ecke med ødru Moote eñ ad draga vid hana Foodred/ svo hun dragest sialf upp um sider. Hvad lyttels ad Natturañ af sialfre sier vid þurfe/ þ kieñer oss Frelsareñ hia Luc. 12. Cap: medal añarra þar hañ seiger/ Vered ecke Hugsiuker fyrer ydru Lyfe hvad þier skulud eta/ eda fyrer ydar Lykama/hvøriu þier skulud klædast/er ecke Lyfed meir eñ Fædañ? ꝫ Lykameñ meir eñ Klædnadureñ. Eñ þott ad vor Natturá þurfe ecke margra Hluta eda mikellrar Umsorgunar vid/þa hefur Gud samt til skickad ad Madureñ skule med Erfvide næra sig af Jørduñe alla sýna Lyfs daga. Þad gamla Logmal stendr eñ nu i Dag Oraskad/i Sveita þyns Andlitis skallt þu þyns Brauds neita/ Gen: 3. Gud hefur lofad ad blessa Israels Erfvide/ Devt. 28. eñ ecke hñs Idiuleyse/ hañ giefur ad sønnu þeim er hñ elska sitt Braud þa þr sofa/ Ps. 127. Hañ lætur Himneñ rigna/ Jardena groa/Fenadeñ Avaxtarsamañ verda ꝫ Vøtneñ af sier giefa allra handa Fiska/ soott Madureñ sofe : eñ samt hefur hñ þo ecke hier med leyft ad hañ skule alldrei vaka/ øngvum hefur hñ heited ad steikt Giæs skule fliuga i Muñ hanū. Leteñ er eirn lifande Daude og vakande Svefn/ ꝫ viñur ecke nema til Oþocka bæde hia Gude og Møñum. Ef nockur rietter einhvørium Olmusu og hñ neñer ecke vid ad vaka/ hvad kañ sa vid þvi sem giefur? og svo er þ eirneigeñ/þegar Gud upplykur siñe Milldu Hende til ad sedia allar lifande Skiepnur/ og lætur Grased vaxa a Jørduñe/Fiskeñ tingast i Vøtnunū/ Fienadeñ Avaxtast a Landenu/ eñ Meñerner forsooma ad hyrda þessar Guds Gafur/ er

þa

þa nockud Skulldeñ hia vorū Skaparas laangt fra þvi. Man liet hñ
rigna ad señu a Eydemørkuñe/ Exod. 16. eñ sialþer mættu Jsraels Syn
er þad samañlesa/ og alldrei veit eg ad Mañenum sie Atviñu siñe loþad
nema hñ haþe Vmsorgun þar fyrer med synu Erþide/ þo ecke med Neid-
inglegre Vrksorg/med hvorre Gud bañar ad þyngia Hiortun/ Luc. 21.
J einu Orde ad seigia/ ad leita fyrst Guds Rykis og hañs Riettlætis/
svo oss allt añad gott tilleggest/ Matth. 6. þad er sa riette Vegur/ eñ
þadañ fra liggia tvær Villegotur/ oñur til Lete og Omeñsku/ oñur til
oþmikillrar Ahyggiu. Badar verda oss bañadar i upplesnu Evangelio/
aþ hvoriu eg vil þad alleina tala i þessa Siñ/ hverneñ vier eigū Christe-
lega og Ærlega ad leita Næringar vorrar. Hialpa oss hier til goode
Myskunsemdaña Fader fyrer JEsum Christum Amen.

Utleggingeñ.

J Upphaþe þessa H. Evangelij heyrum vier / L. E. E. ad þegar vor
HErra foor yfer um Siooeñ/ sem liggur vid Staden Tyberias/ þa
haþe Mañþiolde mikill þylgt hønū epter/ þviad þr sau þær Jarteikner
er hñ giorde a þm siuku. Sañlega heþur þ vered Eyrende þessa Foolks
ad heyra JEsum og hñs Kieñingar hvoriar hañ Stadþeste med Kraptar-
verkunum. Þeir telia ecke epter sier ad þylgia hønū epter þo hñ geinge
a Eydemørku/ þvi JEsus Gieck Vppa eitt Fiall seiger Texteñ/ og
þeir kæst ecke um þad ad þr høþdu eckert til Matar med sier / ꝛ ei helldr
vær þar ad þaa i Obygdeñe. Lær hier aþ Christeñ Madr hverneñ þu ætt
ad haga Daglega þynu Framþerde. Þesser voru 5000. Ad Tolu/ eñ
Gud giæþe ad 5. findest i morgū Þusundū a medal vor sem lære sier um
hugad vera/ ad leita fyrst Guds Rykis/ og hñs Riettlætis/ ædur eñ þr
fara ad þyngia sitt Hiarta med Sorgum þessarar Næringar. Ecke er hier
giefed um ad þetta haþe skied a Sabbats edur Hvyldardeyge/ þad heþur
og ecke vered/ þvi añars munde Drotteñ haþa byrst i Samkunduñe/ og
ecke vered a Reisū þañ sama Dag: þu skallt ꝛ ecke meina ad þ sie noog
ad þu hlaupet til Kyrkiuñar hvorn helgañ Dag. Hvorn Dag ættu ad
Offra Gude þackargiørdeñe/þvi hvorn Dag er hñs Myskun ny ꝛ fersk
yþer þynu Neyþde/ Thren. 3. Þu medtekur a hveriū Deige þitt Dag-

legt Braud mz þynu̅ Muñe/ þvi a & þiñ Muñur Daglega ad lofa & prys
sa hñ 8 þig & allar lifande Skiepnur mettar mz siñe Velþocknan/ eñ þu
ert Hyrdukytell þar um̅/ & þier þyker þre Stundu illa vared vera/ 8 þu
giefur Gude til ad bidia hñ um̅ sijna Blessan/ eins & honu̅ sie veitt i þvi
ad myskuna þier. Hvørn Afgud giorer þu sialfañ þig? Meinar þu ad
eirnrar Stundar Erfide drage þier meira eñ hñs Adstod 8 i einu Augna
blike snere Vatne i Vijn / Joh. 2. sem med siñe Blessan mettade
5000. Mañs af 5. Byggbraudu̅? Mun þitt Vikuverk med allre þiñe
Ahyggiu verka meir eñ hñ sm̅ a 6. Døgu̅ skapade hid dasamlega Stoor
virke Himens og Jardar? Gen. 1. Og þo ert þu svoddañ Sialfbyrg
ingur/ ad þu villt ecke fa hñ i Lid med þier/ adur eñ þu geingur til þyns
Erfidis. Veist þu ecke ad Madureñ lifer eige af einusamañ Braude/
helldur af sierhvørju Orde sm̅ framgeingur af Guds Muñe/ Devt. 8.
Tveir Veiger liggia til alls Nægta i Heimenu̅/ añar i giegnum mykel
Umsvif med Martha/ Luc. 10. Eñ añar med Mariu ad þvo Fætur
JEsu med sijnu̅ Tarum/ og þerra þær med Harlocku̅ sijnu̅/ Joh. 11.
Ecke seige eg ad þessar Leider kuñe ecke samañ ad liggia/ og þoott sm̅ fare
hvøria/ ad þeir kuñe ecke bader ad hafa sama Næturstad/ þvi Martha
& Maria kuña vel ad forlykast i einu Huse/ þo svo ad hin giere ecke þssa
afskipta edur klage yfer heñe/ þvi huñ hefur utvaled þad gooda Hlut-
skipted/ Luc. 10. Luckulegt er þad Hws hvar Forsioon og Gudrækne
halldast i Hendur/ svo ad Maria bidur eñ Martha stydur/ Eñ skule añ-
ars hvors an vera/ þa er sa laangtum beiñe sm̅ liggur Riettlætis til
Guds/ helldr eñ hiñ sm̅ lætur oss flækiast i kryngu̅ hñs Skiepnur. Vor
Ahyggia og Erfide kañ ad bregdast. Hvad margur viñur Bake brotnu?
Og þryfst ecke samt/ eñ Gudrækneñ hefur alldrei nockru̅ brugdest/ helld-
ur verda þm̅ aller Hluter ad goodu/ jafnvel sialfur Skortureñ/ sm̅ ad
Gud elska/ Rom. 8. Sieu þeir Lijkamlega Volader/ þa eru þeir i Gude
Rijker/ sieu þr foraktader i Heimenum/ þa eru þeir þo mykels metner i
Himnenum. Skal eg kalla hañ Rijkañ sem a mørg Naut og Saude?
Og ecke myklu helldur hañ/ sem a Himens og Jardar Skapara.
Ef Gud blessar ecke sijna Þioonustu mz Rijkdoome/ þa bregdst þad þo
alldrei

alldrei/ad hañ blesse hana med sialfum sier. Sa er ecke rijkur sm̃ miked a/ helldur hiñ sem lætur sier nægia: Eñ hañ sem hefur Gud/ hñ er alleyd ánægdur/ þvi þegar hañ hefur Drottenn/ þa skeyter hañ hvørke um̃ Himen nie Jørd/ Ps. 73. Mig skal ecke furda þo Gud láte a stundum sijna Elskendur vanta Audlegd Heims þessa/ þvi hañ hefur giefed þeim lángtum̃ betra/ sem er sialfañ sig. Þegar nockur hledur sitt Skip med nytsamlega Vøru/ þa lietter hañ a sier Barlesteñe. Hvad skyllde hañ/ sem fullur er af Gude vilia þyngia sig med Mammona? Og mun hañ ei alla Vegana varast Diøfulsins Snørur/ sm̃ Gud hefur einusiñe veiddañ i sijnu Nete? Sa sem Gud hefur/ hañ hefur meir eñ allt/ og hañ sem ecke hefur Gud/ hañ hefur miña eñ ecke neitt/ svo verdur giefed þeim sem hefur/ og teked fra þm̃ sem ecke hefur/ eirneigeñ þad hñ hefur edur meinar sig hafa/ Marc. 4. Vier heyrum framveiges i Gudspiallenu ad Drotteñ seiger vid Philippum: HVar KAupum VJer BRaud/ SVo Ad ÞEsser NEyte? Allt Valld hafde JEsus a Himne og Jørdu/ Matth. 28. þo rádgast hañ um̃ þetta vid siñ Læresvein/ hvar þr. kuñe Fædslu ad kaupa. Med hvøriu Orde hañ bender þier til/ christeñ Madur/ hvørneñ þu átt ad leita þiñar Atviñu/ sm̃ er i allañ leyfelegañ Máta. Ecke ad Andskotans Ráde/ þvi hñ stelur øllu þvi hñ ræður til/ og ert þu þa hañs Þioofsnautur ef þu fyrer hñs Aeggian rætvegar þier Foostur: Ecke med Okre/ þvi Drotteñ seiger: Þu skallt ei fá þijna Peninga þijnum Broodur til Okurs/ Devt. 23. Ecke med Krægtu edur Harddrægne/ þvi Gud hefur Andstygd a þeim/ sem selur Lijtelmagnañ f. eirn Pening/ og hiñ Fatæka fyrer eirn Skoo/ Amos. 2. Næst þessu sitia i Andskotañs Rijke Þioofarner/ sem rætrietta sijnar Hendur til añarlegra Fiármuna/ um̃ hvøria St. Páll seiger/ 1. Cor. 6. ad þeir ecke eignest eilijft Lijf/ og i Sañleika þa er Þioofureñ Svijvirding bæde f. Gude og Mønnũ. Ad søñu seiger Syrach/ Cap. 20. ad lijdañlegre sie Þioofureñ eñ Lygareñ/ þo mune báder til Olucku verda. Eñ þegar eirn Ódáda Skielmer tviñar hrørttveagia samañ/ mun hañ ecke fletta Olucku ñar Snøru handa sijnũ eigeñ Hálse? Og þott hañ meige um̃flyia þa Timañlegu/ þa er eckert vijsara/ eñ ad hønum sálgad verde med ei-

lijfre

hyre Kirkingu i Helvijte/ þvi eg hafde nærre þvi sagt/ ad þad være Þioofsins Lucka/ ef hañ yrde heingdur/ ef skie mætte ad Galgeñ frijade hañ fra Helvijte. Heyred þier Sathans Børn/ ef nockrer erud/ sem meiged Ord mijn heyra/edur til þeirra spuria: Erud þier eñ nu ecke O-fyrster vordner af Bloode fátæks Almuga hier i Lande? Nær vilied þier læta af ad utsiuga Hws fra sem ydur Forsorgun veita mz sijnu Erfide? skulu Guds Børn leinge bera ydar Svijvirding? A Gud oss leinge reid-ur ad vera fyrer ydar Saker? Geingur ydur þad ecke til Hiarta/ ad hañ straffar þa fyrer ydar Skulld sem ydur ala? Hafed þier ecke heyrt/ hvørsu Gud vard reidur vid Israel fyrer einsamañ Achans Þioofnad? Jos. 7. Vited þier ecke hvad Drotteñ seiger him Zach. 5? Þad er sa Bølvan sem utgeingur yfer Landed/þvi aller Þioofar verda sagder fromer epter þessu Brefe/ eñ eg vil þad framkoma læta seiger Drotteñ Zebaoth/ ad þad skal koma yfer Þioofsens Hws/ og þess Hws sem sver falsklega vid mitt Nafn/ og þad skal blijfa i þeirra Hwse og eyda þvi med þess Stockum og Steinum. Þeinked þier þa fyrst hañ lijdur ydur ad plaga sijn Børn medañ ydar Tijme yferstendur & Magt Myrkrana/ þad Gud mune vera eins og þier/af þvi hañ þeiger? Ps. 50. og sier þo þetta/og ecke vitia um sijder ydar Ogudlegs Athæfes i sine Reide sem ad breñur allt til nedsta Helvijtes/ Deut. 32. Þar fyrer læted af Illu/ O þier Eytur Ormar og Nødrukyn og læred gott ad giøra/ Esa. 1. Hvør hañ hefur stoled hañ stele ey framar/ helldur Erfide med Høndunum/ Eph. 4. Maureñ er eitt veikur Hoopur/ þo utvega þeir sijna Fædslu um Sum-artijmañ. Kænijsen er & veikur Lijdur/þo byggia þeir sitt Hws a Stein-um. Grashoppurnar hafa øngvañ Konung/ þo gaanga þær ut allar i Hoop. Gøngurofañ viñur mz sijnum Footum/ & er i Konungaña Hijbijlum/ Prov. 30. Þla giøra hin vesælustu Kvykinde Jardar/eñ hvad giered þier & Gud hefr giefed Skynsemdarfulla Saal i heilbrygdum Lijkama? O þier hin Hreckvijsa Kynslood/hvørsu vilied þier umflijia Guds Reide & Fyrer-dæmingena? Math. 23. nema þier ydrest af Hiarta. Gudspiallamadureñ seiger ad JEsus Hafe Talad Þesse Ord Til Ad Freista Hañs Med/ Þvi Hañ Visse Sialfur Hvad Hañ Villde Giøra: Þu skallt og ecke

læta

læra þig það undra þoott Gud reyne þig/ Christen Madur: Gud freist-
ar ad sönu einkis Mañs til ills seiger Jacob/ Cap. 1. Eñ til goods freist-
ar Gud Mañsiñs/ svo ad Reynsla vorrar Trwar finest Gullenu dyr-
mætare/ 1. Pet. 1. til Lofs og Dyrdar Christo. Abraham vard freist-
adur/ Gen. 22. svo hñ være Fyrermindañ allra Abrahams Sona/ sw
Canaaniska/ Matth. 15. svo eingeñ ervænte þott Gud meige þeigia um
Stund vid Bænum siña Barna. Merkelegt er þetta ad Drotteñ spyr
Philippum ad þessu framar ödrum/ sañlega þvi hñ hefur Trwarveikur
vered/ svo ad það Dyrdlega Kraptaverk er hñ villde giera/ mætte þess
betur gaanga hönum til Hiarta. Eda hvad seiger vor Herra/ Joh. 14.
vid sama Læresvein er hñ beidde ad hñ syndi þm Fedureñ/ trwer þu ecke
ad Fadereñ er i mier og eg i hönum? Og varla ötruvtse voru hiner Læres
sveinar ner a sig komner/ hvar fyrer Endurlausnareñ strafar þa/ Matth.
16. þa þeir höfdu Brauded eptersliled seigiande: O þier Lytiltrwader/ eñ
þa skilied þier ecke/ muned þier ecke þau 5. Braudeñ þar ed voru 5000.
Mañas? Og hvad margar Karfer þier upptookud. Svo vill nu vor
JEsus med Reynsluñe og Auglysingu sijns Almættis midt i Freistingu-
ñe smaam samañ iñplanta Trwna hia sijnu Læresveinu/ og sama giet-
er hñ eñ nu i Dag þa hñ Hialpena undañdreger edur læter veniuleg Lifs
Medol bresta. Gud nade/ þoott Meñ sieu Christi Læresveinum i flestu
Olijker nu i Heimenum/ þa fiñast þo marger þeirra Lykar i þessu/ Braud
fyrer 200. Peninga næger þm ecke. Eñ hvad gierum vier? Strax sm
vier höfum ecke fullañ Maga Matar/ þa er þar Muñureñ fullur Or-
væntingar. Ef þar er ecke allt fyrer Augunum sm eta skal/ þa seiger hiñ
Vantrwade/ þoott Gud giøre Glugga a Himineñ/ þa kañ það ecke ad ske
ad Meñ life/ 2. Reg. 7. Eñ hiñ Matvande gietur ecke lifad vid það
Liettmete sem Daglega fellur/ hañ seiger hvar vill þesse giefa oss Kiot a
Eydemörku/ Num. 11. Syñest nockud Omögulegt/ þa hæder Mañleg
Skynseme þar ad. Hvørneñ skal þesse giefa oss sitt Holld ad eta og sitt
Blood ad drecka? Joh. 6. Þesse Orvæntingareñar og Ohoolenmædis Ord
byrgia tijdt og opt aptur Guds Miskuñar Ydur/ svo hñ lætur hina
Gudlausa verda epter Trw siñe. Heyred þier mier/ er þa nockurt Ord

Og O mætt-

Omattugt fyrer Gude? hn̄ sem̃ skapad hefur Steinen̄ kan̄ hn̄ ecke ad giefa Vatn af honum? Num. 20. Han̄ sem̃ giort hefur Vatned/ hvad liett veiter honum ad um̃hverfa þvi i Vijn? Joh. 2. Er honum nockud bægara ad lata mig finna Gull i Fisksens Munne helldur en̄ i Filsnū Jardar? Er ecke Hrafnen̄ grædug Skiepna? þo liet hn̄ Eliam fæ af hn̄s Munne Kiøt og Braud/ 1. Reg. 17. Þressar nockur Olium ut af Leyrkierum? Og þo fyllte Spamañsins Bæn og Eckiuñar Trw svo mørg Kier alle a Barma/ 2. Reg. 4. Þu seiger Gud giøre ecke Kraftaverk a þessum Døgum svo sem̃ Eliæ. Eg medkieñe þad/ þvi þss giørest ecke Þørf. Gud hefur giørt svo mørg Kraftaverk sijdan Eliæ Daga/ ad sa sem̃ ecke vill Gude trwa fyrer þau/ hn̄ munde ei helldur trwa þoott hn̄ sæe Eliæ Kraftaverk. Þar eru ei helldur marger a vorū Døgū/ sem̃ þioona Gude eins og Elias. Være þar Eliæ Trw/ hn̄s Arvekne og Astundan i Guds Þioonustu/ þa trw mier til/ ad Eliæ Gud er eirn og hiñ same/ og ecke umbreytest hn̄. Þu seiger Gud giører eingen̄ Kraftaverk/ en̄ hvørt er meira ad giøra alla Hlute af aungvu/ Gen. 1. Eda ad giøra Vatn af Vijne? Eda Steina ad Braudum? Mier sijnest eckert meira Kraftaverk en̄ þad/ ad Gud kan̄ ad forsorga þañ Vantrwada. Læresveinarner gætu ecke utreked Tunglmeina Diøfulen̄ fyrer þeirra Vantrwar Saker/ Matth. 17. en̄ eins mykid Vald hefur Gud yfer Diøflenū sem̃ yfer ødrum sijnaum Skiepnum/ þvi sijnest mier þad yfer Maata mykid Kraftaverk/ ad Gud læte hinū Vantrwada ꝯ Opacklaata nockurn Hlut ad nockru goodu verda. Þar fyrer E. G. V. ef Mañlegur Veikleike kan̄ ad koma iñ hia oss svo sem̃ Christi Læresveinum/ ef vier erum þeim lijker i Trwarveikeñe/ þa verum þeim ecke Olijker i Hlijdneñe: Þeir giørdu slijkt er þm̃ var skipad/ þeir stoodu ecke upp i Møsunum a sijnum Herra/ eins og ad være þetta Onedal svo sem̃ ad giøra vorer Þioonustumen̄ a þessū Døgum/ sie þeim skipad nockud Ovenjulegt/ þa hroopar hiñ lake ad þar sie Lioon a Vegenum/ Prov. 22. Giørum þvi Verk Kallanar vorrar i Guds Otta/ og vørpum allre vorre Ahyggiu uppa Gud/ hn̄ mun þvi vel til Vegar koma/ 1. Pet. 5. JEsus Took BRauded J Sijnar HEndur seiger Texten̄: J þær blessudu Hendur took hn̄ þad/ i hvøriar

Fade

Fadereñ hefur lagt alla Hlute/ Joh. 3. Framar seiger Eutspialled ad hañ hafe lited Augũ til Himens og giørt Þacker. Ey þurfte vor JEsus þessarar Blessunar vid/til ad giera Kraptaverk fyrer sialfañ sig/ þad vottar hñ sialfur hia Joh. 11. seigiande. Eg þacka þier Fader ad þu Bænheyrder mig/ eñ eg visse þu munder mig Bænheyra/ helldur vegna Fooksens sm̃ i kryngum er/ svo ad þeir trwe þad þu hefur sendt mig. Þar fyrer skallt þu vita/ Syndugur Madur/ hverium Gud giefur Daglega syna Blessan/ ad þiñ Endurlausnare hefur giefed þier eitt blessad Dæme hier med/ þad þu trwa skyllder ad þyn Fæng og Fæda verdur þa helst til Blessunar þegar hun er i hñs Nafne blessud. Þad er ei miña verdt ad giæta feingens Fiar eñ ad abla/ sem u Atferd skal og Christeñ Madur hafa til hvørstveggia. Jeg sagde fyrer skemu þss skylde i Guds Otta leita/ svo seige eg eñ nu ad þess skal i Guds Otta neyta. Hvad seiger Drotteñ um̃ þa sm̃ treysta a Matt siñ og Megeñ/ Esa. 8. Vered iller þier Lyder/ og reñed þo undañ/ Heyrled ydur og hlaupeð þo a Flootta/ bwed ydur wt og flyied þo undañ/ alykted eina Radagierd og þar verde þo ecke af/ hafed Samtøk/ eñ þad hafe þo aungvañ Stad/ & allteins eru Sofn Maña & Addrætter þ utañ Blessan Drottens. Margur Hyrdulaus meinar/ad þa sie ecke nema fangett Hial/sa ed ecke einasta hleipr̃ & añar Hundr̃ til siñar Fædu/helldr̃ & lætr̃ sier alldreitil Hugar koma ad bidia Gud ad blesso syn Efne. Øll Skepnañ er good seiger Paall/ 1. Tim. 4. & eckert burtkastande/ef hun er mz Packlæte mzekeñ/þvi hun helgast þ Orded & Bænena. Eñ Gud nade hvada þack hin eilyfa Mis̃kunseme ma fa fyrer syna Daglega Blessan hia mergũ Mañe. Jeg meina þ sie sañast/ad vier setiunst nidur ad eta a stundũ/og risũ upp til ad dansa/ Exod. 32. O Mañeskia/ er þa Gud leingur ad svipta eñ ad giefa: reidur helldur eñ Myskunsamur ad vera? Syrach. 5. Late hañ oss nockud Mootdrægt tilfalla/ þ liggur svo þrongt mz oss sm̃ Bly/ eñ ef hñ opnar syna Myskunarryku erlætis Hend/ þ er hia oss lietlare eñ Fis. Framveiges stendur i vorũ Texta/ AD JEsus HAfe FEinged Ekinum LVresveinum BRAuded/ Eñ ÞEir FEingu ÞEim/ Sem Til BORDsens Satu/ SLykt Hid SAma Af FIskunum/ Svo MiJked

ed Sem NVær VJlde NAþa. Þetta sȳnest mier vera ein ægiæt Lijþs Regla þyrer Christen̄ Man̄/ hvørnen̄ hn̄ a ad høndla med Guds Gaþur sem hønū æ eru i Hendur feingnar. Jørden̄ er DRottens og allt hvad þar inne bygger/ Ps. 24. Sȳna Raadsmen̄ heþur hn̄ sett yþer Eigur sȳnar: Hvør er sa trwe Radsmadur/ seiger JEsus/ Luc. 12. er hn̄s Herra setur yþer sȳn Hiw/ þ hn̄ giefe þeim ī riettan̄ Tijma þad sem þeim ber? Sæll er sa Þioon/ sem hn̄s Herra þiñur svo giøra/ þa ed han̄ kiemur. Eins og JEsus þieck sȳnū Læresveinū i Hendur Brauded/ til ad wtskipta þvi medal Bordsitiendan̄a: Svo heþur hn̄ og þm̄/ er hønū þockn̄ ast aþhendt Audlegd þessa Heims/ til ad wtbyta medal Þurþtugra. Þu skallt ecke meina Christen̄ Madur/ ad þ sie allt þitt eiged sm̄ þu medþerdis hefur: Þad Braud sem aþgangs er i þȳnu Hwse/ er Forsorgun̄ hins Volada. Sa Mottull er þu þarþt ecke ad brwka/ er Klæde hins Naka/ Luc. 3. Þau Faung sem a an̄an̄ Veg hia þier skiem̄ast og fwna/ eru Lijþsbiørg hins Naudþurþtuga/ þar þyrer giører þu svo mørgū Fatæk um Oriett/ sm̄ þu mætter an̄ars/ þier ad skadlitlū hiælpa/ eþ þu þvi in̄e helldur þa hin̄ Volade/ sem er san̄ur Ølmusu Madur vid þarþ. Ei þurfū vier ad briioota nidur vorar Kornhlødur og giøra adrar stærre/ svo leinge vier høfū Fatæka hia oss. Korned liggur Jdiulaust i Hlødune og verdur kan̄ skie um̄ sijder aþ Ormum uppeted/ en̄ hia hinū Fatæka ber þ Avøxt/ svo sem a Akrenum. Soddan̄ Akursmen̄ eru nærsta þarþer. Jeg vil helldur sa einu Korne i Mun̄ hins Fatæka/ helldur en̄ tiju i Jordena. Jeg vil helldur ga hinum Volada tiju Peninga/ en̄ kasta Hundrad a Mangarans Bord/ hn̄ mun þvi med Þusundþølldū Abata aptur skila/ eþ ecke i þessum Heime/ samt i Vpprisu Riettlætra/ hvar eitt Vatnsdryckur mun ecke Olaunadur verda/ Matth. 10. Hin̄ ranglæte Radsmadur var Otrægdur vid sin̄ Herra/ svo sm̄ heþde han̄ eydt han̄s Gotze/ Luc. 16. Meined þier ecke og ad Hroop hins Fatæka og Eckiun̄ar mune Ofrægia þa i Himnenū þyrer liþanda Gude/ sm̄ liggia a Guds Gaþum/ svo sem Ormur a Gulle/ og ala Agirndena/ en̄ Fatækur þellur aþ Hungre i Froste og stoorre Neyd / þvi er illa wtsooad/ sm̄ oþvel er geymt/ þvi slijkt er Ellds-Matur og Orma Fæda/ en̄ kiemur ecke i Guds

Kistuna/

Kistunna/ svo þ verde ad Himneskum Fiesiood/ hvøriū Mølur og Rid kañ ecke ad granda/ Matth. 6. Fordum Daga i Gamla Testamentenu/ þa hafde Gud skiled sier vissar Foorner fyrer Syndernar/ ecke i þeirre Meiningu ad Blood Vxaña og Hafrana kyñe ad hreinsa Samvitskur-nar/ helldur voru þær i fyrermyndud epterkomande Giæde/ sem er Blood ed JEsu Christi/ hvørt ed hreinsar oss af ollū vorū Syndū. Eñ þesser Tijda Sider eru fyrer laungu afteknar/ þar Guds Eingieteñ Sonur er i Holldenu openberadur/ og hefur firer sitt eiged Blood einusiñe iñ-geinged i þad allra Heilagasta ad œfvegadre ellijfre Endurlausn/ Ebr. 6. Þo eiga vorar Foorner og Vpplyptingar Offur Daglega ad uppstijga i Himeneñ fyrer Guds Hæsæte/ ecke einasta med Bæn og Andvarpan/ helldur med Ølmusugiordū vid Fatæka. Þijnar Bæner og Ølmusu-giørder eru uppstijgnar fyrer Gud sagde Postuleñ vid Cornelium/ Act. 10. Þad er su Foorn sem Gude lijkar framar eñ Blood Vxaña & Hafra-kaña þa þ framkiemur af Trwudu Hiarta/ þvi seiger Paulus til Hebr. 13. Gott ad giøra og ad wtbijta gleimed ecke/ þvi ad slijkt Offur þocknast Gude. Hvar fyrer mun Gud læta suma meñ vera Rijka/ suma Fatæka i Heimenū? Møgulegt er hønū ad læta alla vera jafna/ & øngvañ þurfa añars med. Margar eru Orsaker þar til/ eñ þo ecke hin sijdsta ad Gud vill læta sig dyrka a soddañ Mañeskiū: þ þier giørdud einū af þessū minstu/ þ giørdud þier mier seiger alls Hollds Doomare a sijdasta Deige/ Matth. 25. Miked er þ/ ad Gud sem er einkis Þurfe vill þiggia i þvi sem hin-um Fatæka er gott giørt: þar eigū vier ad sijna vora Elsku til Guds/ þar er Skoole vorrar Gudhrædslu/ þar er þ Alltare s vier eigū ad leggia vora Gafu uppa. Ein Brwdur skiemter sier vid Mynd sijns Brwdguma þar til hañ kiemur. Vor Meistare er nu tekeñ fra voru Hefde og hafeñ yfer alla Himna: Mig hafed þier ecke alltid hia ydur/ eñ Fatæka hafed þier hia ydur/ sagde hañ/ Joh. 12. Þeir eru hans lifande Eptermynd/ og hañs Limer sem fara Vt og Austur/ og ecke hafa hvar þeir kuñe Høfde sijnu ad halla ad. Jeg meina ecke þa/ sem fyrer Omenskus-saker bidia um Ølmusu/ eda hina Drambsømu Lete-Maga/ sem alla Hlute heimta af Sialfs Vallde/ og giallda Bølvan og

Formæling i Lauu ef þeirra Hals er ecke fylltur/ helldur þa ſem añad-
hvørt hafa ſlited ſiñe Heilſu med Ærlegu Erfide/eda Gud hefr ſiñ Kroſſ
a Herdar lagt/(þvi ecke heyre eg miñ Herra hafa nockurn Hlut m̃z ſialf-
ſkylldu wtheimt/ þo hañ hefde allt Valld bæde a Himne og Jordu/
Matth. 28.) Þa byriar ad medtaka i JEſu Nafne/ og miñaſt þeſſ er
Drottẽ baud/ Deut. 15. Alla Tijma munu þar verda Fatæker i Lande-
nu/þvi byd eg þier og ſeige ad þu ſkuler upplwka þiñe Hende fyrer þijn-
um Broodur ſem þurftugur og Fatækur er i Landenu. Eñ þa þEir
voru nu metter (ſeiger Textiñ) ſagde hañ til ſiña Læreſveina/ ſafned
ſamañ þeim Leyfum ſem afgangs eru/ ſvo ad eckert ſpilleſt/ og ad
þeir hafe fyllt upp toolf Karfer med Afgangs Leyfar. Hier kieñer
vor Endurlauſnare þier Syndugur Madur Logmal Chriſtelegrar Fer-
ſioonar/ ſem er ad hyrda vel Guds Gafur. Gud ſa allt þad hañ hafde
ſkapad/og ſia þad var allt harla gott ſeiger Ritningeñ/ Gen. 1. Ef þad
var allt gott fyrer hønum i hvørs Auglite Himnarner eru ecke hreiner/
Job. 15. ſkyllde þa nockur Skiepna vera ſvo audvirdeleg i þijnū Augū.
O þu ſauruga Mañeſkia/ ad þu villder þar ecke um̃ hyrda? O Herra
Gud/ vorar Synder/ vorar Synder/ vort Opacklæte og Ofmetnadur
ſtendur mier nu fyrer Augum. Hvad gierum vier a þeim goodu Tijm-
unum/þegar Drottiñ lætur ſijna Bleſſan an Mælingar falla af Himn-
um ofañ i vort Skaut? Munum vier næſta hyrtner vera i Lande þeſſu
ad ſamañſafna þeim Leyfum ſem oſſ Afgangs verda? Er ecke allur añ-
ar Hiegome dijrmætare i vorum Augum eñ þad ſem Gud giefur oſſ til
Fooſturs? Velger ecke vora þioonuſtumeñ vid Daglegre Fædſlu? Hyrda
Meñ ſtoort um̃ ad nijta Guds Gafr? ſvo ſ giora mætte. Þeſſar Synd-
er berum vier ſijdañ/ kañ ſkie þad kiæme ſier ared vel i Dyrtijdeñe ſem
eingeñ nijter þegar allt er noog. O hvad margañ kañ þa ad hungra epl-
er. þvi ſem hañ nu Footkredur? Þo koſtum vier Skulldeñe uppa Gud eñ
eingeñ gæter ad þvi ad oſſ er þeſſe Hefndeñ næſta makleg/og ad vier hef-
um þad og añad þuſundſiñum verra forſkulldad. Latum oſſ þeſſara
Synda ydraſt/Børn mijn/og þær til Hiarta ganga med Gudrækelegū
Aminninge ad breyta forſiallega framveges. Gud hefur aungvañ Hlut
giørdañ

giørdan forgiefens/ svo vill han og ecke læta illa nie Onaudsynlega þar med fara. Svo er ꝫ ei helldur Gude þæg Metordagyrnd þeirra er sooa Guds Gafu til ad ætvega sier stort Nafn þar med. Hvad talar Drottenn um þa ed giøra sÿnar Ølmusur fyrer Mønnum? Sanliga seige eg ydur þ þeir hafa sÿn Laun wtteked seiger hn/ Matth. 6. Þad er Niegoomadÿrd og fangÿtt Hroos Mananna. Frelsarenn liet giefa þßu Foolke ad eta/ þar til þeir voru metter/ þvi er afgieck skipade hn upp ad safna. Þad er Christelegt ad metta Maga hinns Hwngrada/ enn ad sedia Auga hinns Grꝍduga er Onaudsinlegt: þar eru marger sm Menn giøra verre med ofur myklu Ørlæte og alltÿd reidubwna til ad gapa epter sama. Þad er Gudrækelegt ad safna Nægtum þegar vel geingur/ svo þar sie til ad hiꝍlpa af i þeirre vondu Tÿd. Þad er ein good Forsioon ad minnast þß umlidna/ hugsa um þad nærveranda/ og sia fyrer þvi Okomna/ þo fyr er utann Brwksorg ꝫ Ochristelega Ahyggiu. Josephs Framsÿne er hroosad ad hn fyllte Kornhlødur Pharaonis a þeim goodu Aarum/ og frelsade Landed af Hwngre þa illa gieck/ hvar fyrer hn kalladest Landsens Fader/ Gen. 41. Þad er ꝫ hꝍlfu verra ad eyda Onaudsynlega uppa sialf ann sig i Ofmetnade Klædnadarens og Ohoofe Matar og Dryckiar. Ad sønnu hefur Gud ecke bannad ad hafa Inndæle af sÿnum Skiepnum/ þo svo ad menn gledie sig med Otta/ og gleyme ecke hinum Þurfanga. Ecke er vÿst ad Doomur hins Rÿka hefde vorded svo skielfelega strꝍngur/ hefde ei Lazarus leiged vatnande fyrer hns Dyrum/ Luc. 16. Sialfur Gud hefur giefed eitt Løgmaal hier um sÿnu Foolke/ Deut. 16. Þu skallt vera gladur fyrer Drottne þÿnum/ þinn Sonur og þÿn Doottir/ þinn Þienare og þÿn Ambꝍtt/ Levitenn sem er innan þinna Portdyra/ hinn Framande/ hinn Fødurlause/ og Eckian sem er hia þier i þm Stad sm Drottenn Gud þinn hefur wtvaled þad hns Nafn skule hia þier bua. Svo hefe eg nu ad nockru Leite sÿnt þann rietta Veg til ad leita Atvinnu sinnar wt af þessu H. Evangelio/ epter þvi sem eg skil af Guds Orde. Svo leited nu fyrst Guds Rÿkis og hans Riettlætis/ Matth. 6. Brwked leyfeleg Medøl i øllum ydar Athøfnum og Vtriettingum. Treisted Gude ad hann mune ydur og ydar forsorga/ þa þier svo giøred/ bidied þann Almꝍttuga

uga ad bleſſa ydar Faung/ ydar Karſer og Afgangs-Leyfar ; Gleymed
ecke hinum Þurftuga og Volada. Lated ydar Olmyſur framkoma af
Truñe og Elſkuñe til Guds og Naungans. Nendled Vareigdarſam-
lega med Guds Giof/ og vered þacklater bæde i Orde og Verke / giøred
þetta/ og muñud þier alldrei Jlla fara. Eñ Drotteñ Gud eilyfur Kon-
ungur og alleina rykur/ hañ uppfylle alla ydar Naudþurft epter ſynum
Dyrdar Rykdoome i Chriſto JEſu/ Phil. 4. og giefe fyrer hñs For-
þienuſtu/ ad þier ad afſtadeñe Armædu þeſſa Lyfs/ mættud iñleidder ver-
da i Føgnud ydvars Herra/ til ad ſitia til Bords med Abraham/ Jſaach
og Jacob/ Matth. 8. og mettaſt af nægdar Giædum Guds Huſſ/
þad Bænheyre Myſkunſamur Gud fyrer ſiñ Son
JEſum Chriſtum/ AMEN.

## Suñudageñ epter Midføſtu.

### Gudſpialled/ Joh. 8. Cap.

J þañ Tyma. JEſus ſagde til Gydingaña og Hofdingia Kieñemañaña. Hvør er ſa af ydur/ þad hañ meige ſtraffa mig um nockra Synd? Eñ ef eg ſeige ydur Sañleikañ/ hvar fyrer trwed þier mier þa ecke? Hvør hañ er af Gude/ ſa heyrer Guds Ord/ þar fyrer heyre þier þau eige/ þviad þier erud ei af Gude. Eñ Gydingarner ſvørudu/ og ſøgdu til hañs. Seigium vier ecke vel/ þad þu ert Samverſkur/ og hefur Diøfuleñ? JEſus ſvarade ; Eg hefe ecke Diøful/ helldur heidra eg miñ Fødur/ og þier vanheidred mig. Eg leita ei ad miñe Dyrd/ ſa er ſem leitar og dæmer. Sañlega/ ſañlega ſeige eg ydur/ hvør hañ geimer myn Ord/ hañ mun ecke ſiaa Daudañ ad eilyfu. Þa ſøgdu Gydingarner til hañs. Nu þeckium vier ad þu hefur Diøfuleñ. Abraham er daudur/ og Spameñerner/ og þu ſeiger/ Ef ad ſaa er nockur ſem geimer myn Ord/ hañ ſkal ecke Daudañ ſmacka ad eilyfu. Hvørt ertu meire Fødur vorum Abraham/ hvør ed framlideñ er/ og Spameñerner eru og
fram-

framliđner? Hvørn giører þu sialffan þig? JEsus svarade: Ef ad eg vegsama mig sialfur / þa er myn Dyrd eingen. Minn Fader er sa sem mig vegsamar/ hvørn þier seiged ydar Gud vera / og þier þeckeđ hann þo ecke: Enn eg þecke hann/ og ef eg segde þad/ eg þeckte hann eige/ þa være eg eirn Lÿgare lykur ydur. Helldur þecke eg hann / og eg geime hans Ord. Abraham Fader ydar gladdest ad hann skyllde sia minn Dag/ og hann sa hann/ og vard gladur vid. Þa segdu Gydingar til hans: Þu ert enn ecke fimmtugur / og þo sast þu Abraham? JEsus sagde til þeirra: Sannlega/ sannlega seige eg ydur/ad adur enn Abraham var/ em eg. Þa tooku þeir upp Steina/so ad þeir kßstudu a hann. Enn JEsus fordade sier/ og gieck ut ur Musterenu.

## Exordium.

Nær ad Annarar Konganna Bookar 9. Cap. Lesum vier / ad þegar Sendesmadur Spamannsins Elisæi hafde smurt Jehu til Konungs yfer Israel/ þa hafe hans Herra Þienarar sagt vid hann/ hvad villde þesse Vitfirringur til þin? Svo voru nu Jorams Villdarmenn Lyder / af þvi þeir ecke þecktu Drottens Raad. Jeg er og hrædđur um ad þoott eg i Dag epter Guds Skipan vilie smyria þeirra Sæler til Andlegra Konunga og Kiennemanna/sem af Gude eru med himnesku Oleo / sem er Guds heilagt Ord/ þa mune eg ecke betur umflyia i þeirra Augum sem Nállega Sinnader eru/ helldur enn eirn Vitfirringur/þegar eg tala um þa Hlute sem Guds Anda eru og Holldlegur Madur ecke skyniar/ 1. Cor. 2. Og er mier þo fyrer minstu ad eg af mannlegum Deige dæmdur verde/ 1. Cor. 4. Þvi gott er ad eiga Hlutskipte med St. Paale vid hvørn Festus Landsdoomare sagde þa hann talade um Christi Pijnu og Upprisu Framlidenno/ ad hann være galenn vorden/ Act. 26. Enn þad angrer mig fremur ad Holld og Blood gieffur sier ecke Stunder til ad ranssaka Dypt og Hæd Guds Vitsku / og þa Speke sem hun hefur Mønnunum opinberad. Þegar Felix heyrde talad um Truna a Christum/ um Hreinlifed/ um Riettlæted / um epterkomande Doom/ þa skielfest hann vid/ og lætur bijda ad hlusta til þess fyrr enn hann hefur Toomstund/ Act. 24. Agrippæ

Konunze liggur vid ad verda christen̄/ en̄ fyrer þvi ad hn̄ hefur añad ad syssla/ þa dregst þad undan̄/ Act. 26. Hin̄ Ryke Ynglingr vill ad sön̄u þa ad vita hia JEsu/ hvad hn̄ skule giöra/ svo hn̄ eignest eilyft Lyf/ en̄ þegar hn̄ heyrer ad hn̄ skule selia allar Eigner synar og giefa Fatækun̄/ þa verdur hn̄ hryggur/ Matth. 19. Hvad kiemur til þessa? Þad alleina/ ad Men̄ hafa ecke vel smackad hvad sætur ad Guder/ Ps. 34. og ecke kom̄ med Augu a þa Perluna sem Maduren̄ sa/ og sellde allt hvad hn̄ atte fyrer þa sömu/ Matth. 13. Þvi eingen̄ gyrnest þad sm̃ hn̄ ecke þecker. Og þad er Orsöken̄ hvar fyrer ad Guds H. Ord verda af svo faum medteken̄. Þad og añad ad þar er svo mykell Ovinskapur a mille Hollldsens og Andans/ Gal. 5. Lioossens og Myrkursens/ Riettlætesens og Ranglætesens/ Christū & Belial/ 2. Cor. 6. Guds Kyrkiu og Skurgodaña/ ad eingen̄ kan̄ til Christum ad koma/ nema sa Himneske Faderen̄ drage hn̄ seiger Endurlausnaren̄/ Joh. 6. Hvar til hn̄ brukar sitt H. Ord. En̄ þeir ed ei hyrda um̄ ad ganga i Lioosenu/ eda smacka hid gooda Guds Ord og Krapt epterkomande Alldar/ Ebr. 6. Hvernen̄ meiga þr umflyia þad ad Myrkuren̄ höndle þa ecke? Samt eru þo Guds Ord Lyf og Ande svo sm̃ Endurlausnaren̄ vottar/ Joh. 6. Og Gulled er Gull þo þad verde af Svyñunū Foottroded. Svo er og þad orded af Kroffenu Christi Heimska þeim sm̃ tapader verda/ en̄ oss sm̃ hoolpner verdum er þad Kraptur Guds seiger Paulus/ 1. Cor. 1. Eckert Stryd atte vor blessade Endurlausnare meira vid Synduga Men̄ hier a Jördun̄e/ en̄ ad giöra Mismun a mille Holldsens og Andans/ svo ad jafnvel Nicodemus sm̃ var eirn Meistare i Jsrael/ Joh. 3. Og Gudhræddur Madur/ hn̄ var i þessu nærsta tornæmur. Ad eg tale ecke um̄ þan̄ Ogudlega Hoop Phariseana og Skriptlærdra sem alldrei villdu laata telia sier Tru hier um̄/ og ecke lietu sier skiliast þ þo hn̄ segde/ þier dæmed epter Holldenu/ Joh. 8. Þier erud hier ad nedan̄/ eg er ad ofan̄. Og en̄ nu i þssu Samtale sem Drotten̄ a vid þan̄ O fyrerlatsama Flock Gydinga heyrum vier ad a mille ber um̄ þssa Spurningu. Eg vil um̄ þ alleina tala i þtta Sin̄ hvernen̄ þeim hattad sie sem af Gude eru/ ed af þessum heilögu Ordum. H Ja H A i E r Af G V e/ Han̄ H E y r e r G V d s O R d. DRotten̄ giefe oss þin̄ Anda hier til fyrer JEsum Christum Amen.

## Utleggingeñ.

AF Gude eru aller Hluter i Ondverdu V. E. E/ Svo sem þar stend
ur Gen. 1. J Upphafe skapade Gud Himen og Jørd/ og eñ nu er
þad svo ad aller Hluter meiga af hønum seigiast/ þvi hñ stioorner og
styrer øllum Hlutum/ fra þvi minsta Skridkvikende Jardar/ allt til
þess stærsta Dyrs sm̃ er i Nátturuñar Rijke/ og i hønum erum vier/
lifum vier og hrærumst vier. / Act. 17. Eñ ecke er þad þo Meining
vors Endurlausnara i greindum Ordū. Þeir kallast og af Gude ad vera
sem i hañs Naadar Sáttmaala eru iñteknir/ svo sem Jsrael var til forna
kalladur Guds Foolk/ af þvi þeim var Guds Sáttmaal og hñs Ord i
Hendur feinged epter Guds Fyrerheite til Abraham. Svo erū og aller
vier af Gude sm̃ høfū Jklædst JEsu Christo i Skijrneñe/ Gal. 3. Og
eigum ad samteingiast hønū i Dyrdeñe/ Heilagleikanum og Rettrættañ-
legu Framferde/ Eph. 6. Eñ eins og þvi hättad er i voru Lijkamlegu
Edle/ ad Meñ taka ecke alltijd Vøxt edur Abl nie adra Koste i Arf ept-
er Foreldrana/ og margur er sijnum Ulijkur þo skylder sie/ svo eru þar
fleire Jsmael helldur eñ Jsaac i Huse Drottens sm̃ ad er christeleg Kyrk-
ia/ og þeir gánga ecke aller i Andanū sm̃ þo eru i ondverdu af Andan-
um Endurfædder/ þvi er og ecke þetta eigenleg Meining vors Endur-
lausnara i þessum Ordū/ helldur meinar hñ þa sm̃ fyrst eru af Vatne og
Anda Endurfædder i Skijrneñe/ Joh. 3. Og JEsu Christo fyrer saña
og lifande Trw eru iñplantader/ vordner andleger Kvister a þvi bless-
ada Vijntrie sm̃ hñ umgietur/ Joh. Cap. 15. Og bera þar fyrer myk-
eñ Avøxt/ hvøriū hñ hefur giefed Magt Guds Børnū ad verda/ þm̃
sm̃ a hñs Nafn trwa/ sm̃ ecke af Bloodenu/ edur Holldsins Villd edur
Mañsins Vilia/ helldur af Andanū eru fædder/ Joh. 1. Þeir ed skra
þad i sijnu Framferde/ ad þeir sieu fluttir fra Daudanū til Lijfsins af
þvi þeir elske Brædurnar/ 1. Joh. 3. Ecke seige eg þeir sieu einasta af
Gude sm̃ eru án Syndar/ þvi þa yrde eckert Holld hoolped. Ef vier
seigiū þad vier høfum ecke Synd/ þa tælum vier siálfa oss seiger Joh-
añes / 1. Joh. 1. Vreñ er ecke strax sett til Rootar Trieña sm̃ nockur
Blød følna/ þo Kvisturen um̃ nockra Stund bere ecke Avøxt/ þa er hñ

ecke strax afhoggvenn. Sa Himneske Vrtagards Vørdur bidur sinn Fødur ad hid vilia Trie meige enn nu standa eitt Aar/ ad hann meige bera Myke kryngum / og rækta þad/ Luc. 13. Þvi mun hann ecke kasta þui strax i Elldenn sem þad ber lyted Avøxt. Mun hann nockud wtslöckva þann lytilloganda Hørkveik/eda þann brakada Reyr i sundur briota/ Esa. 42. Nei aungvanveigenn/ hann mun forsiallega breida/ svo sem Faderenn talar umm sinn Son/Esa. 53. Hann mun auka oss Truna/Luc. 17. Og bidia sinn Himneska Fødur fyrer oss þ hun þrotne ecke/ Luc. 22. helldur tala eg hier umm þa sem syndga ad sonnu/enn lata þo ecke Syndena drottna i synum daudlegum Lykama/ Rom. 6. Þa sem af mannlegum Veikleika giøra hid vonda er þeir vilia ecke giøra/enn giøra þo so myked gott sem þr gieta/þar ed eirn og hinn same þioonar Guds Logmale i synu Hugskote/ enn þvingast þo til af Ofbellde Natturunnar ad þioona Syndarennar Logmale/ Rom. 7. Og i einu Orde ad seigia/ sa sem er syndugur ad sonnu enn þo fyrer Christi Forþienustu jafnann i Guds Auglite Riettlætur/og þott hann syndge/þa hefur hann Arnadar Manenn a Himnum JEsum Christum hinn Riettlata/ sem er Forlykan fyrer hans Synder/ 1. Joh. 2. Sa sem nu þannenn er af Gude og Gud i honum/ þegar hann hefur Gud/ þa hyrder hann hvorke umm Himen nie Jørd/ Ps. 73. Vei þeim sem er einnsaman seiger Predikarenn/ Cap. 4. Þvi ef hann fellur þa er eingenn ad reisa hann/ enn sa er allrei einnsamann sem Gud er med/ þvi Gud er i og med honum/ Rom. 14. Fellur hann/ þa stendur hann upp aptur/ þvi Gud reiser hann: ratar hann i nockra Villu/ þa viller þo Himnarenn allrei svo umm hann/ ad hann rate ecke heim aptur/ þvi Guds Nadarfullt Tillit avyttar hann. Hinn Gudlause fiellur ei til þo hann syndge meir enn hinn daude þo hann sie barenn/enn þad Hiarta sem lifer i Gude/ þad er vidkvæmt vid Brodd Syndarennar. Ei þurfte Nathan lengi ad telia upp fyrer David/ 2. Sam. 12. Drottenn leit einasta til Peturs/ og hann gieck wt og griet beisklega/ Matth. 26. Sa sem af Gude er/ hann yfergiefur alla Hlute Guds vegna/ hann er i Heimenum svo sem fyrer utann Heimenn/ svo sem Fatækur/ og þo marga Audgande/ svo sem eckert hafande/ enn eignast þo alla Hlute/ 2. Cor. 6. Sa sem umm Hafed siglir/ hann hugar þo jafnann umm hvornenn hann meige komast i gooda

Hofn.

Noþn. Nañ sem wt a Akureñ geingur til ad ervida/hñ heþur þo jaþnañ sitt Nws i Þwnkanum/ og til þff gioret hñ alla Nlute ad hñ þae þ vel forsorgad/ svo er og hñ sem aþ Gude er/ þott hñ verde ad þlækiast vid Syslaner Neimsins epter Naudþurþt Lýkamañs/ þa er hñs Takmark him Gude/ hñ slepper sier ecke svo vid nockurn Nlut/ ad hñ hallde ei heuñ: þalle hñs Erþide hønum liett og vel/ þad miñer hñ a ad þacka Gude fyr er sijna Giæsku ꝛ Epterlæte: vilie þ mootdrægt þalla/ þa yþergnæþer þo Guds Elska hia hønum. Ok Christi er hønum Hunang i Muñe/ og hñs Byrde liett a hñs Nerdū/ Matth. 11. Þvi Gud hialpar hønū til ad bera: hñ læter fyrer Guds Saker bæde hær og lægi ad vera/sadd ur og hungradur/ noog ad haþa og Skort ad lijda/ og alla Nlute forme ar hñ þyrer þañ sem hñ styrker JEsum Christum/ Phil. 4. Þoott hñ gange i giegnum myrkvañ Dal og Daudañs Skuggo/ þa hrædest hañ aungva Olucku/ Ps. 23. Were svo til ad nockur sie i Fangelse byrdur/ hvad vardar um þad? Jeg sie Paulus og Silas eru længtum gladare i Fangelseñu helldur eñ þeir sem ad Drickiu sitia/ Act. 16. Sooleñ upp- lioomar þeñañ vorn Norizont edur Sioonhverþis-Nrijng/ og gioret Alstnd Neimsins biarta fyrer voru Augū/ þo gieñr Skijs-Flookeñ byrgt hana þyrer off. Eñ hvør vill byrgia fyrer mier þa soñu Riettlætesins Sool? Mal. 4. Kañ nockur ad wtelykia fra mier Fodur Lioosaña? Jac. 1. Nañ sm kom ad luctum Dyrū/ og stood midt a mille sijna Læres veina/og sagde/Fridur sie med ydur/Joh. 20. Kuña nockur Myrkur/ nockrer Mwrar ad loka hñ wte þra mijnu Niarta? Svo hñ gieþe mier ecke sīñ Frid hvørn Verolldeñ kañ ei gieþa/ og hun ætlar mune vera Neluþte allra Eymda. Eþ eg er Landþlootta/ munu þeir nockud reka mig þang- ad/hvar ecke er Nønd Drottens/ Ps. 139. Sie eg forakradur aþ Neim- enum/ þad er mier noog ad eg verd heidradur aþ Gude/ aþ bædū kuña þaer under eins virdter ad vera. Sæler erud þier sagde Lausnareñ/ Matth. 5. Nær Meñerner hallmæla ydr ꝛ tala i giegn ydur alla Vond Ku fyrer mijns Naþns Saker þo liugande. Nvort skal eg nu helldur wt velia ad lijda illt med Guds Foolke/ Neb. 11. Eda ad haþa Tijmañleat Epterlæte Syndareñar? Jeg hyrde ei mykid um þa Wþundar Meñ sm

Gud hafar. Hvad liett fellur hønum ad forsmaa Heimeñ sm̃ forsmaadur er af Heimenum: hefe eg mist Agiæte Veralldar þessarar/ hvad rÿrar mier a þvi? Þad voru eingeñ wrteku Giæde / sem svo fallvallt voru / ad þau kuñu ad missast / og þo eg miste allt þad eg a inn ad Nwdeñe/ þa hefe eg þo eckert mist/ þvi eckert af þessu var mitt / þa eg kom nakeñ i Heimeñ/eñ Gud var alltÿd miñ med einhvoriu moote/ svo eg lifde ecke fyrr eñ eg ætte hañ fyrer Skapara / og þad Eignar-Skial bættest i Skÿrneñe / og vard underskrifad med JEsu dyrmætu Bloode/og iñsiglad med H. Anda/ svo ad miñ Vinur er miñ og eg em hans / Cant. 6. allt fra Moodurlÿfe epter Skøpunar-Endurlausnar og Helgunar-Riettenum/hønum vil eg alldrei sleppa/ fare allt añad sem aud ed verdur/Take hñ Heilsuna fra mier/þa er hm̃ ꝥ i Sialfs-Vallde/ eg a þar ongva Søk a/ eg by i Leigu-Hwse/ og a sa frialst ad byggia þad og briota/sem er Hwsbondeñ: hvørke sade eg nie plantade ꝥ helldur eñ Jonas Lundeñ/Jon. 4. Þo mÿn Saala kuñe um̃ Stund ad verda Orooleg i mier sem Jonæ/ þa veit eg ad su Sott er ecke til Dauda/ hun stendur upp þegar miñ Heilsugiafare tekur i Hønd heñar og seiger: Talitha Kumi/ þad er/ Stulka/rÿs upp / og er mier þad noog þegar miñ betre Partur er heilbrygdur/ ꝥ er Saaleñ. Þad kañ ecke stooru ad veikiast/ hvørs Kraptur ad Gud er / ꝥ sie mier noog ad eg veit eg er af Gude/og hñ er mier Nadugur/ þa hefe eg Frelse i Bondunũ/ Fødurland i Vtlegdeñe/ Heidur i Forsmaaneñe/ Rÿkdoom i Skortenũ/Heilsu i Siwkdoomenũ/Allshaattada Farsæld i allskonar Eymdũ ⁊ Hørmungum. Hvørneñ kañ sa ad klaga ad hañ vante Lioos/sem byr midt i Soolueñe? Kañ sa ad beria sier um̃ Armood / sem einusiñe hefur eignast allrar Veralldareñar Skapara? Hvad kañ mig þad ad vanta/sem Christur sie mier ecke? Vil eg hafa Mat og Dryck/þa seiger Christur : Mitt Holld er sañarleg Fæda og mitt Blood sañur Dryckur/Joh. 6. Vil eg Klædnad hafa/Iklæded ydur Herranũ Christo/seiger Postuleñ/Rom. 13. Er eg siwkur og þarf Lækninga vid/ þa er Christur Lÿfsens Trie/ hvørs Blød ad þiena til Heidingiaña Lækningar/Apoc. 22. Ef eg vil ugglaus bw/ þa flytur hñ mig vt i eitt sterkañ Kastala/ mÿn Saal

vonar

vonar uppa han̄ alleina / þvi han̄ er mÿn Von/ mitt Traust/ Ps. 18. mÿn Hiälp ꝛ mÿn Hlijf/ svo eg mun ei falla. Hia Gude er mitt Hiälp ræde/ mÿn Dyrd/ mitt Styrktar Biarg og mitt Athvarf er til han̄s/ seiger David/ Ps. 62. Kvijde eg vid Daudanum/ þa er Christur upprisan̄ og Lijfed/ Joh. 11. Og þo ad eg deye/ þa mun eg samt lifa/ epter þvi sem hn̄ lofad hefur. Vilie eg hafa alla Andlega Farsælld/ hvers kan̄ eg ad Oska/ sm̄ ad Christur sie mier ecke? þar hn̄ er mier af Gude gierdur til Riettlætis/ Helgunar og eilijfrar Sæluhiälpar/ 1. Cor. 1. Allt þetta hefur sa hiá sier/ sm̄ er af Gude/ ef ecke svo fullkomlega sem vier viliu̅/ þa samt er þar Vilie til hins Fullkomna/ sm̄ er ædre allre Tijman̄legre Farsælld/ Þvi ef Guds fullkomen̄ Jbwd er eckert an̄ad en̄ Himnarijke/ þar Gud er allt i ollu/ þvi skyllde þa ecke han̄s Vistarvera med oss a Jordun̄e / þvi skyllde hun ecke vera eitt Jardneskt Himna-Rijke? Sijnest mier þvi ad þessar tvær Sælur mune ecke i sialfu̅ sier/ nema þvi/ ad ein er betre en̄ on̄ur/ og ein algiørdare en̄ on̄ur / og engvan̄ an̄an̄ Mun giører St. Pall þeirra/ þegar hn̄ seiger/ ad nær þad kome sem algiørt er/ þa afleggest þ sm̄ Hälfverked er/ og ad vier sium̄ nu svo sem fyrer Speigel og i Rädgaatu / en̄ þa munum vier siä Auglite til Auglitis/ 1. Cor. 13. Framar/ E. G. B. hvad san̄arlegt er/ hvad ærlegt er/ hvad Riettvijst er/ hvad Hreinlegt er/ hvad Astsamlegt er/ hvad vel soomer/ er þ dygd nockur edur gott Rykte/ Phil. 4. Þad hugsar hn̄ epter sm̄ af Gude er/ og þ veiter hon̄u̅ lietlara ad uppausa af Brun̄e Nadaren̄ar/ helldur en̄ þm̄/ sem leita epter soddan̄ i Fræde Bocku̅ Heidingian̄a. Hvørier þoott um̄ Dygder ꝛ Man̄koste hafe skrifad bæde vel ꝛ Vijsurlega epter Man̄legu̅ hætte/ þa er þvi alltid svo vared ad sa sm̄ dreck ur vor Ohreinu̅ Farveige/ hn̄ maa vel vara sig vid ad ecke fliooke Saurenden̄ i Mun̄en̄ m̄/ og þo Vatned sijnest tært ad vera/ þa smackar þad alltid af Leyrnum / svo er og þetta. Vilie Men̄ af Heims-Spekingan̄a Vatns-Ren̄um drecka Vijsdoomen̄/ þa er alltijd hætt vid ad þar fliooke i bland nockrar Agner Holldlegrar Skynsemie/ sem ad er Reide og Fiandskapur i giegn Gude/ Rom. 8. þvi þo þær sieu vitrun̄ar i Upphafe af þm̄ san̄a Vijsdooms Brun̄e/ þa fer þeim eins og odru Vatne/ ad þad dregur Dam̄ af þm̄ Farveg er þ ren̄ur um̄. Trued mier/ svo eru og

Spekingaña Læker/ ad þeir tapa ſijnum Uppruna þa þeir reña um̃ Leyr veltu Syndumſpilltrar Nátturu. Þadſem adrer hafa m; ſtooru Erf=ide/ þ viñur ſa ſm̃ Gud elſkar med ſtooru Epterlæte. Eirn Romverſk=ur Heidinge/ þar ed hñ lá i ſijnum Lyſtegarde m; Kuñingium ſijnũ / og þotte vænt um̃ ſialfañ ſig / hañ ſagde : Gud giæfe / þetta være ad giora vel/ Meinande ſvo/ ad være þad ſvo iñtælt/ þa villde hñ alldrei añad giora. Eñ þvi er ecke ſvo vared fyrer þm̃/ ſem Gud elſka. Liett falla Loſtverkeñ/ſeigium vier/og ſvo er þ fyrer þm̃/ſem elſka Gud/ þvi þott ad Spilling Nátturuñar ſtrijde a moote þvi ſem Guds Anda er/ Gal. 5. þa verdur hun þo liettar yfer uñeñ af Elſkuñe til Guds / helldur eñ af Nátturuñar Kroptũ. Þegar Madureñ a eirn Vin og añañ Kuñ=ingia/ og þeir bidia bæder um̃ ſama Hluk/þa lætur hñ þo ſiñ Vin fyr=er ſitia/ og ſvo giører ſa ſm̃ elſkar Gud/ þo honũ þyke forvelldt ad láta a moote Holldenu/þa metur hañ þo Gud meir. Þar voru nockrer Spek=ingar i Fyrndeñe/ er kølluduſt Stoici/þeir villdu dempa eina Tilhneig=ing m; añare/ ꝛ ſetia þær ſvo i Lag/eñ þ er læ̃ngſamt nockud og vinſt alldrei vel/ þvi hofudeñ a þre Hydra/ N.B. Syndumſpilltre Nátt=uru/þau ſpretta jafnſkiott upp aptur þo þau ſieu ſmaamſamañ afhogg=veñ. Elſkañ til Guds er eirn Andlegur Hercules / ſa ed Hálſeñ a Skrijmſkenu ſundurbrytur/ ſvo þau ná ecke ſvo fliott ad vaxa : Hun ſetur Tilhneigingarnar beſt i Lag / ecke ad hun take þær burt eins og Stoici villdu giora/helldur þvijngar hun þær til ad giora ſijna Skylldu/ og temur þær med friálslegum og iñdælum Þrældoome/ Hun kieñer Elſkuñe ad elſka Gud alleina og eckert añad/Reideñe ad vandlæta i Guds Stad/ Ofundeñe ad kieppaſt ſem hærſt i Chriſti Skoola/ Orvænting uñe ad vona einkis Goods af Heimenum / Voneñe ad þola og bijda / Gledeñe ad hafa ſijna Unadſemd i Drottne/ Hrygdeñe ad angraſt ſiña Synda vegna/ Hrædſluñe ad Ottaſt Gud/ Dyrfſkuñe ad Ottaſt ei Meñ ena/ ſem ecke kuña nema Lijkamañ ad deyda : og hvad er hier margt um̃ ad tala/ hvørſu ad allar chriſtelegar Dygder uppſpretta af Elſkuñe til Guds og

N.B. Hydra var eirn Vatns=Ormur med mørgum Høfdum/ſo ſem Skálde=ñ dicta/ þo eitt være afhøggved / ox þad aptur : Eñ Hercules hioo a Hálſeñ/ ſo þau uxu alldrei ſijdañ.

og Naungañs? Hver iar alldrei kuña ad skilia helldur eñ Sooleñ ꝫ Lyrt
añ / Þad wtmaalar eingeñ betur eñ St. Paall / 1. Cor. 13. seigiande:
Kiærleikureñ er Þoleñmoodur og Vingiarnlegur / Kiærleikureñ er ecke
Øfundsiukur / Kiærleikureñ gierer eckert Illmañlega / eige blæs hñ sig
upp / hñ er ecke Opstopasamur / eige leitar hñ þess hvad hñs er / eige lat-
ur hñ giøra sig reidañ / hñ leitar eige epter Skada / eige fagnar hñ yfer
Ranglætenu / eñ fagnar Sañleikanũ / hñ umber alla Hlute / hañ trwer
ollu / hñ vonar allt / hañ umlijdur alla Hlute. Hvad Gott nu sie med
svoddañ Moote af Gude ad vera / þad hefur ecke fra Eyra heirt nie
Auga sied / og ecke hefur þ i fra Hug edur Hiarta komed / 1. Cor. 2. sem
af Heimenũ eru: eñ uppa þad sierhvør og eirn kuñe ad reina ꝫ proofa
sialfañ sig / og vita sitt andlegt Faderne / Þa leggur Drottiñ hier til eitt
Kieñeteikn fra sm̃ eru af Gude / sem er þta / ad þr heyre Guds Ord:
Eñ hvørneñ a þ ad heyra? Ecke svo sm̃ Judar / þeir ed heyrdu Rædu
Stephani / og skaaruſt i Hiertum sijnũ af Hatre / Act. 7. Ecke svo sm̃
Eutichus / hveriñ vard svo vært under Predikun St. Paals / ad hañ
sofnade og datt daudur ofañ wr Vindauganu / Act. 20. Drottiñ wt-
leggur sijna Meining sialfur i þessũ Texta / seigiande: HVer Sm̃ Geim
er Mijn ORd Hñ Mun Ecke DAudañ Sia Ad EIlijfu. Eñ þo all
ra best i Epterlijkinguñe um̃ Sæded / Luc. 8. seigiande: Ad Saded sm̃
fiell i gooda Jørd / sieu þr sm̃ heyra Orded / og vardveita þ i goodu og
sidsomu Hiarta / og færa þar af Avext i Þoleñmæde. Þetta er nu
vijst Mark a þm̃ sem ad eru Guds Børn. Drage þvi eingeñ sialfañ sig
a Taalar sm̃ þta heyrer / og ætle ecke hñ mune vera af Gude / ef hñ ecke
geimer hñs Ord. Sa Saudur er ecke af Hiørduñe sm̃ ecke þecker Raust
Hyrdersins / Joh. 10. Swelskar ecke siñ Vñusta / sm̃ ecke giefur heyrt
hñ tala. Sa Mage er ecke heilbrigdur sem ad velger vid Fæduñe. Hvør
su maa þa Gud lifa i þre Saalu sm̃ bijdur vid Guds Orde? Þar fyrer
syndugur Madur / ef þier leidast Guds heiløgu Kieñingar / siert þu treg-
ur til ad ganga þangad sem Guds Ord er um̃ Hønd haft. Þyke þier þ /
þa komed er vid þijn Mein og þijnar Synder straffadar / virdest þier þ
liettvægt sem af Guds Orde er fyrerheited / og þu aktar þ ecke mikels /

eþ þu heþur ecke Astundun ad þramkvæma þ i Verkunū sem þu heyrer med Eyrunū / svo saňarlega sem Gud liþer i Himnenum / þar er ecke hňs Ande i þier / og þu ert daudur i Syndum þijnū / hier um er ecke ad villa,t / eg seige Saňleika i Christo / og lijg ecke. Saleň er aňadhvert Guds Bævd eda Diøþulsins Fridla seiger Augustinus / og þo þ þyke gisfarlega talad / þa vitnar sialþur Saňleikans Muňur þad satt ad vera hia Luc. 11. seigiande: Hvør hň er ecke med mier hň er a moote mier / & hvør hň ecke samaňsaþnar med mier hň sundurdreiþer / & svo seige eg / Sa sem ecke heyrer Orded og vardveiter þad / hň þoraktar þad / eň sa sem þad þoraktar / þa mun þad þordæma hň a þm sijdasta Deige / Joh. 12. Jeg haþde nærre þvi sagt / ad betra være ad vera Kalldur eň Völgur i sijnum Saluhialpar Eþnum. Af hinū stærstu Syndurum haþa vorded hiner bestu Meň. Hvilijkur var Manasses ? 2. Paral. 33. Hvilijkur Pall ? Act. 9. Hvilijk hin Bersynduga ? Luc. 7. Eň þad er Furduverk / ad aþ einum Völgum skule verda heilagur Madur / hvar þyrer ? Þvi hň meinar sig ecke ad vera Vondaň / hň seiger: Eg em audugur & rijkur vordeň / og einkis Þurþe / eins og Eingelleň aþ Laodicea / eň Gud seiger: Þu veitst ecke þad þu ert Aumur og Fatækur & Blindur og Nakeň / Apoc. 3. O HErra Gud vert þu oss Nædugur / gæe hvør ad sialþum sier / þvi vær eigū aller þyrer Salu ad sia. Hvør a ad hugga þig i þijnu Andlaate / eþ þu hefur eckert numed aþ Guds Orde ? Þu villt Presturen kome til þijn þa þu berst vid Ondena / seig mier: A hň þa fyrst ad undervijsa þier ? Þegar Eyrun heyra ecke leingur / Tungaň talar ecke leingur. Seint er ad Hefklæda sig þegar a Hoolmeň er komed. Sa sim saung mz Bijslugunt Veralldar þessarar a Sumartijma Lijþsins / hň ma svell fa a hinū bitra Kallda Deige Daudaňs. O hvad Gott være þa ad haþa safnad nockru i Kornhlødu sijns Hiarta aþ þvi gooda Guds Orda Sæde / svo þar være nockud til Veganestis i giegnum þaň myrkva Dal og Daudaňs Skugga / sm er Vegur allrar Veralldar þra þessu auma Lijfe / Jos. 23. Svo aminne eg ydur nu i Drottne og grætbæne þyrer lifanda Gud og ydar Saluhialp / Ganged i Lioosenu medaň þad er hia ydur / svo Myrkureň hondle ydur ecke / Joh. 12. Þar eru vonder Dagar / Dioþullenn

ollen er ofan komen hafande Brææde mikla/ þvi hn veit hn hefur stuttan Tijma/ Apoc. 12. Afræked þvi ecke Guds heilaga Ord / hvørt ad er Sverd Andans/ so ad þier gieted Mootstødu veitt a þm vonda Tijma/ Eph. 6. Fiñe nockur sitt Hiarta ecke riett skickad til ad heyra þad / hn bidie Gud ad skapa i sier nytt Hiarta / þvi þad tekur eingeñ af sialfum sier/ verde hn ecke svo fliott Bænheyrdur/ þa bidie hn aptur og optur/ og vilie þ undandragast/ þa bidie hn Daglætañlega/ Luc. 18. Dag og Noott/ og þreife vid Gud m Tææneñe / ad þad Lambed af Kyne Juda kome/ og take sialfur þa læstu Book/ og virdest heñe sialfur upp ad lwka / Apoc. 5. Eingeñ Madur skal telia mier þa Trw/ ad Gud mune ecke giefa þm heilagan Anda sem han þar um bidia. Komed og med audmiwkum Anda under Ordsins Heyrn reidubwner ad medtaka allt þ sem Gud hefur befalad / eins og Petur sagde vid Cornelium / Act. 10. Wanskar og Veralldlegar Hugsaner sieu læangt i burt a þm Tijma/ þvi eingeñ kañ tveimur Herrum i Señ ad þioona/ Matth. 6. sierdeilis svo olijku sm Gud og Belial eru. Peinked ecke svo m ydur / eg veit þta adur / eg hefe þad ædur heyrt / þvi þott svo kuñe ad vera / þa hefur Gud sijna Tijma til ad verka i Hiartanu / og hn er i Ordenu/ þvi seu Eyrun/ sem ad eru Dyr Hiartans / alltijd opeñ fyrer Konunge Dyrdarenar. Vered ei Gryckium lijker/um hvøria Demosthenes sagde: Ad þa hn talade um Skugga Asnans/ þa hefde hn nooga Tilheyrendur / eñ þa hn talade um Gryklands Velferd/ þa siynge aller Fingrunū i Eyrun. Læted Svida Ræanglætingañā taka af ydur þañ Eyrna-Klæda/sm Pall umgietur/2. Tim. 4. Ad þeir vilie heyra þ þm þocknast & hvad Nijstarlegt er/ Esa.30. helldur vered Lærdoomunū og Streffunū H. Anda undergiefner. Fared og ei i Mañvyrdingar um Kieñendaña Smæfur edur Mælfære/ þvi allt Guds Ord er gott / og sa er eckert sem talar /helldur Gud sm verkar. Guds Kraptur fullkomnast opt i Veikleikanū/ 2. Cor. 12. hvad er Pall ? eda hvad er Apollo ? 1. Cor. 3. Þeir eru Þienarar hns / a hvørn þier trwed / epter þvi sm han hefur hvørium einū giefed. Drotteñ var ecke i Vedrenu/og ecke i Jardskialftanum/ og ecke i Elldenum þa hn talade vid Eliam i Hellenum / helldur i

Brudblœnum / 1. Reg. 19. Svo er og Gud ecke bundeñ vid stoora Malsnillo / og hñs Ryke er ecke iñeþaled i Ordum helldur i Krapte/ 1. Cor. 4. Sa sm alleina tekur epter þallegum Ordum og þegrũ Mœls-greinum/ hñ sleiker Nytena/ eñ Kiarnañ snerter hñ ecke. Vœr eigũ Nyt-ena ad brioota eþ vier viliũ riett þaa smackad epterkomande Alldar Sœt-leik / hvør oss mun skȳdañ œn Mœlingar frambodeñ verda i þvi Himn-eska Brwdkaupe/ þar hiñ þegurste medal Mañaña Sona/ Ps. 45. mun dryckia hana sem hñs Hiarta elskar / Cant. 3. med liþande Vatnsstraumũ sem þramþlioota aþ Stoole Guds og Lambsins / Apoc. 22. Til þrrar allra Tignarlegustu Nœrvȳdar ad samañsaþnast / uñ þu oss Konungur ei-lȳfrar Dyrdar/ z þitt vegsamlega Naþn þar eilȳflega ad prȳsa. Bœn heyr þad goode Gud fyrer Forþienustu þȳns Eingieteñs Sonar / AMEN.

# A Bodunar Dag Mariœ.

Gudspialled / Luc. 1. Cap.

ENN a hiñũ siotta Mœnude var Gabriel Eingell send: aþ Gude i þa Borg i Galilœa/ s̃ neþnest Nazareth/ til þrar Meyar er þostnud var þm̃ Mañe ed Joseph hiet/ aþ Hw-se Davids/ z hette Meyareñar var Maria. Og Eingelleñ gieck iñ til heñar/ z sagde: Heil siertu Nœdarþulla/ Drotteñ er med þier/ Blessud ertu a mzal Koeña. Eñ þa hun sa hñ/ vard hun hrœdd aþ hañs Ordũ/ z hugleidde ad hvilȳk vœre þesse Kvedia. Og Eing-elleñ sagde til heñar: Ottast þu ecke Maria/ þviad þu þanst Nœd hia Gude. Sia/ þu munt Barn gieta i Kvide þȳnum/ og munt Son fœda/ og hañs Naþn skalltu kalla JESUS. Hañ mun mykell verda/ og kallast Sonur hins Hœdsta. Og Gud Drotteñ mun gieþa honum Sœte sȳns Fodurs Davids/ og hañ mun rȳkia yþer Hwse Jacobs ad Eilȳþu/ hañs Rȳkis mun og eingeñ Ender verda. Þa sagde Maria til Eingelsins: Hvørneñ skal þad skie/ aþ þvi ad eg heþe aungvañ Mañ kient? Eingelleñ svarade/ og sagde til heñar:

Heilagur

Heilagur Ande mun koma yþer þig/ og Kraptur hins Hædsta mun yferskyggia þig. Aþ þvi/ og þad hid Helga sem aþ þier mun fædast/ skal neþnast Sonur Guds. Og sia þu/ ad Elizabeth Frænd-kona þyn/ heþur og Son gieted i Elle sine / og þesse er siette Mánudur heñar/ sm kølluð var Obyria/ þviad Gude er eckert Ord Omøtt ugt. Eñ Maria sagde: Sia/ Eg em Ambatt Drottens/ Verde mier epter Orde þynu. Og Eingelleñ veik fra heñe.

# Exordium.

SVo sem kallt Vatn er þyrstre Salu/ svo er goodur Bodskapur aþ fiarlægu Lande/seiger Salomon/Prov.25. Pad mæ i Dag seigia/ ad vier høþum goodañ Bodskap heyrt af fiarlægu Lande. Hvad er fiarlægra hvørt ødru eñ Himen og Jørd/ Gud og Madurinñ/ Himnarijke og Helvijte? Eñ hvad heyrum vier hier i Gudspiallenu/Ev. M. ? Vier heyrum ad Gabriel Eingell hafe sendur vered þra Gude / til hvørs? til einnrar Meyiar/ sem þostnud var þm Mañe/ er Joseph hiet/ þad er til daudlegrar Mañeskiu/ ≈ ecke var hñ einasta til heñar sendur/ þott hñ i þ Siñ ætte alleina Tal vid hana/ helldur til alls Mañkyns/ þvi lyser Eingelleñ a Fædingar Nootku Drottens/er hñ sagde vid Hyrd arana: Eg boda ydur mikeñ Føgnud/ þañ er skier øllu Folke/ Luc. 2. Mooder Drottens mætte kallast svo sm Vmbodsmadur alls Mañkyns-sins aþ Gude skickadur/ til ad taka fyrst allra vid þessare Heilsusamlegre Guds Nad/er sijdañ var opeñberud øllum Møñum/ svo sem vor þyrsta Mooder took vid þvi blessada Fyrerheite / ad Kviñuñar Sæde skyllde sundurmeria Høggormsins Høþud/ Gen.3. vegna allra siña Erþingia: Svo took og Guds Mooder vid Fullkomnan Fyrerheitesins / vid hinu þyrerheitna Sædenu/vid sialþum Lykamanum/sem ædur var þyrermynd adur i Skugganum/ þvi kalla eg þetta goodañ Bodskap af fiarlægu Lande/og iæta þ satt vera sem einn sagde um þessa dyrdlega Hætijd/ ad hun sie Bloomstur allra Hætijda. A heñe er Kvisturen aþ Root Jesse tekeñ þyrst til ad bloomgast/Esa.11. Veturen er umlideñ/Stoorvidred er horþ ed og burtuviked/og Bloomsturen lœta sia sig i Lande voru / seiger i

Lofkvædenu/ Cant. 2. Ja/ sa blessade Avoxtur er sig kallar Bloomstur Akursins/og eina Liliu i Dolunū. Hañ spratt fyrst upp i Nazareth / er þÿdest hin Bloomlega. Lÿted var þetta Bloomstur i fyrstuñe. Hañ var eitt Foostur i Moodur-Lÿfe/sÿdañ eitt Barn/og sÿdarst Æfe siñar vard hñ hiñ Fyrerlitlegaste ꝛ Forsmaanarlegaste/sm̄ Esajas vottar/Esa. 53. Jaa/miñstur allra þra/sm̄ hñ mz sÿnū Syndū kvaled hafa/ eñ fyrer þ hefur hñ ædreift marga Heidingia / og utbreidt sÿna Dyrd um̄ allar Alfur Heimsbygdareñar/svo ad vier jafnvel sm̄ hier liggiū a þssū Hala Veralldareñar/ Vier buum under hañs Skugga / og þott vier sieū af ollum Heimenum forsmaader/ samt hefur þo hiñ goode Gud virdt oss þess/ad hañ hefur breidt yfer oss siñ Klædafalld/þar vier laaū alls nakter a Vÿdavangenum i voru Bloode/ og sagt ad vier skylldū lifa/ Ezech. 16. Þvi meigū vier ei sÿdur eñ hvor oñur Þiood i Heimenum kalla þssa Haatÿd mikla/og hana mz Glede og Fognude hallda. Være ei þesse gledelege Bodskapur a Jordu sendur/þa være Christur ecke fæddur til ad helga vora Fæding/ ecke um̄skoreñ til ad taka a sig Logmaalsins Bolvan / ecke Heidingiunū byrtur/ ecke daaeñ fyrer Synder vorar/ ecke uppriseñ oss til Riettlætis/ ecke uppstÿgeñ til ad bidia fyrer oss / og ecke hefde hañ a Hvÿtasuñu Dogū sendt siñ Anda yfer sÿna Postula. Þvi maa eg seigia ad þesse Haatÿd ber allar Haatÿder i Skaute sÿnu og maa þra Mooder kallast. Hier hefur Gud Fader teked til ad hallda Brudkaup Sonar sÿns/Matth. 22. Hier hefr Sonureñ Trulofad oss sier i Naad ꝛ Myskunseme/ Hos. 2. Hier hefur H. Ande bygt sier eitt Mustere/ 1. Cor. 6. Ecke einasta i þm̄/sem er hid allra Helgasta i þessare Kyrkiu/helldur og i ollum hñs Limum/ ollum þm̄ andlegū Steinū/ sm̄ hañs Helgedomur er bygdur af hier a Jorduñe/og af hñs Fylling medteked hafa/ og þvi vil eg kvedia ydur/Br. M. med þm̄ Ordum er hiner Lÿkþrau meñ toludu sÿn a mille fordum Daga/er Gud hafde frelsad Samariam af Hende hiña Syrlendsku : Þesse Dagur/ er Dagur goods Bodskapar / 2. Reg. 7. Skylldum vier þeigia yfer þvi? Kuñug maa oss vera vor andleg Lÿkþraa i hvørre vier gietner ꝛ fædder erum/þvi skylldum vier þeigia yfer þessu mikla Hiaalpræde Drotteñs helldur eñ þeir? þar i Dag er

Guds

Guds Barna Borg aƀ Vallde Myrkraña ƀrelsud/ þvi ſkylldū vier draga vora Loƀgiørd? vora Ydran/ vora Þackargiørd undañ til Morguns? Gaungum þvi nær þeſſu N. Evangelio i Naƀne Drotteñs/og hugleid um aƀ þvi um̄ Stund hvørſu hæleitur og gagnſamur ad ſie þeſſe Leynd ardoomur. O Drotteñ ſtyrk oſſ med Krapte þijns Anda/ ſvo ad þetta Eyrende meige velluckaſt/ i JEſu Nafne/ Amen.

## Utleggingeñ.

ÞAd er ƀægra/B. M. ad loƀa eirn Hlut/ ſem ecke er meira eñ almeñelegs Hrooſſ verdur/helldur eñ þañ ſem Aƀbrygde er allra añara Hluta/ velldur þad þvi/ ad meñ gieta prijdt þa Hlute med Ordunum/ ſim̄ ad i ſiælƀum ſier ecke eru ſvo prijdeleger. Eñ hvad ſkulum vier um̄ þa ſeigia/hvørra Dyrd og Agiæte eingeñ kañ med Ordū ad ætmæla/ſvo þegar meñ haƀa ſagt um̄ þa allt þad ſem Hiarkad bær uppþeinkt og Muñureñ ætkalad/ þa er þo eckert ſagt ſvo ſem verdugt er þvilijkre Hætign. A medal þeſſara dyrdlegu Hluta kalla eg ad vera Leyndardoom Holldtekiuñar Drotteñs vors JEſu Chriſti. Hvad Sendeføreñe ſiælƀre vidvijkur/þa var til heñar valeñ Gabriel Eingell/ecke eirn almeñelegur Eingell/helldr eirn Hoƒud Eingell. Veralldleger Kongar & Høƀdingiar/þegar þr leita Konþængs Sonū ſijnū til añara Konunga/þa velia þr til þſſ Eyrendis ſijna villduſtu Meñ/ſvo var & Gabriel valeñ i þſſa Sendeƀør/eirn Guds Kappe/ſvo ƀ hñs Naƀn hliodar/ & hñs Eingietnū Syne nærſta Handgeingeñ/ƀ ræda mæ af Danielis Spaadoms Bookar 9.Cap. Hvør & um̄ ſig vitnar/ Luc.1. Ad hñ ſtande ƀrame ƀyrer Gude/þvilijkur Sendebode hæƀde vel ſvo Tignarlegu Eyrende. Eñ til hvørrar var hñ þa ſendur? Ad ſoñu til eirnrar Konungs Doottur / þvi hun var aƀ Hæſe og Kyne Davids / eñ hvørre þa var øll Veralldleg Konungs Tign horƀeñ / ſvo hun var ein um̄komulaus ſætæk Mey / og ſvo Lijtels meteñ aƀ Heimenum / ad hun ƀieck ecke añad Rwm i Gieſta Herbergenu / eñ eirn Stall til ad leggia i ſiñ Frumgieteñ Son/ Luc. 2. Himens og Jardar Konung. O hvad ſatt er ƀ ſim̄ Poſtuleñ ſkriƀar: Þad ſem ugøfugt er ƀyrer Heimenū/ og ƀ ſem einkis meted er / þad heƀur Gud ætvaled/ og þad ſem ecke er / ſvo hñ aƀmæde þad ſim̄ er / 1. Cor. 1. Skijrlijƀe og

heilag

heiløg Fatækt Guds Moodur/ var miklu dyrdlegre i Auglite hins Hæsta Konungs/ sm̄ er alleina Vys og alleina Rykur / helldur eñ øll Ryke Veralldareñar og þra Dyrd/ Añars munde hn̄ hafa læted hn̄ fædast af Keysarañs Dootkur/ sem þa hafde Einvallds Rad i Heimenum/ eñ ecke af eirnre munadarlausre Stulku. Hvad þa? Mun hn̄s Tign nockud mynka vid þad/ad hn̄ hefur lytelæckad siñ Son? Fiærre-sie þvi/ þat fyrer er hun hvad mest vordeñ/ hefde hn̄ ei svo giert/ þa hefde Sonur-eñ ecke feinged Hioodernar og Endemørk Veralldareñar til Arfleifdar / Ps. 2. fyrer syna Holldtekiu hefur hn̄ Herleidinguna ad Herfange tekked/ allur Heimureñ var under Diøfulsins Vallde/ nema Gud hefde heited þvi blessada Kvinñar Sæde/ er i Dag var i Meyar Lyfe gieted / eñ med þvi hefur hn̄s Eingieteñ Sonur broted stoort Skard i Diøfulsins Vellde/ svo ad Johañes er hn̄ sæ Himnana opna/ þa sæ hn̄ þar Fiolda svo mikeñ/ ad eingeñ gat taled/ Apoc. 7. og hefur margur sydañ vid-aukest / sæ eykst eñ nu i Dag / og mun aukast þar til Verolld þrytur / Þacker sieu goodum Gude ad Eilyfu. Satt er þad / ad ecke mæ vid Guds Hatign auka/ hun verdur i sialfu sier hvørke stærre nie miñe af vorū Volldum. Eñ þo ad þessu sie svo hættad / þa verdur þvi ecke neytad/ ad Christi Persoonu hefur mikell Soome aukest i þm̄ Sigre er hn̄ fieck yfer Andskotanum/ er hn̄ flette hn̄ synū Herklædum a hver hn̄ treiste/ Luc. 11. eñ took synar heiløgu Þusunder af hn̄s Hende/ og fyrer þeñañ dyrdlega Sigur hefur Guds Sonur epter Mañdoomenū ødlast Nafn yfer øllū Nøfnum/ so ad i Nafne JEsu Christi skulu sig øll Knie beygia bæde a Himne ꝛ a Jørduñe og under Jørduñe/ Phil. 2. Eñ hvør neñ hefur hn̄ þeñañ dyra Sigur uñed nema i voru Hollde? Em̄ i Dag var i Meyar Lyfe plantad af heiløgū Anda/ i þvi situr hn̄ til Kraptar-eñs hægre Handar/ og i þvi mun hn̄ aptur koma til ad dæma Lifendur ꝛ Dauda/ eñ iñleida oss sem a hn̄s Nafn trwum i sitt Brwdkaup / og þvi kalla eg nu þessa Sendefør miøg vegsamlega/ fyrer þra Skulld sm̄ þessa Bodskapar noted hafa / þvi Gud auglyser hvad mest sitt Almætte / sin̄ Vysdoom og syna Fødurlega Giæsku / i þvi ad giøra Gott af þeim Hlutum sem i sialfum sier audvirdelegaster og verster eru/ svo sm̄ var alle

Mañ-

Mankyn i Synd og Dauda falled. Fra hvorium er þesse Sendefør? Fra Gude/ seiger Textenn. Þegar eg Gud nefne/ þa hefe eg noog sagt/ Eingenn er þvilijkur og ei kann nockur i Samjøfnud vid hann ad koma/ þad kann og eingenn Manna edur Eingla Skilningur ad grijpa edur jmynda sier/ hvad stoor Munur ad sie mille Skaparans og Skiepnunnar. Hann sem er Alvijs/ Almaattugur/ Eilijfur/ Omælannlegur og Orannsakannlegur/ þar hann bijr i þvi Liōse sem eingenn fær tilkomest/ 1. Tim. 6. Hann sem ecke einasta skoop Himenn og Jord af øngvu Efne/ stioornar þeim / vidhelldur / og vardveiter þau aan alls Omaks og Erfidis / fra Upphafe Skøpunar og inn til þessa Dags/ helldur kann hann ef hann vill/ ad skapa med einu Orde Ofal Þusund Verallder adrar eins & þesse sijnelege Heimur er. Hann sender af Himnum ofan til syndugra Manna / er hann styggt høfdu og til Reide reitt. O minn Gud/ hvad er þo Madurenn þess ad þu minnest hans? Ps. 8. Þegar eg hugleide þetta þa smelltest mitt Hiarta i mier upp af Blygdan/ ad svoddan ein skielfeleg Hatign/ hann gierer Sendefør ofan af sijnu Haasæte til vor daudra Hunda/ til vor syndugra Orma/ þar vier skridum i Leyrvelltu þessare / og maa hier af þessa Sendefør meire øllum Velgiørdum kalla/ þott eckert annad være. Enn hvilijkur er nu þesse Bodskapurenn? Þad syner oss fyrst Kvedia Eingelsins vid Guds Moodur. Heil siert þu Naadarfulla/ Drottenn er med þier/ blessud siert þu A Medal Kvenna. Hun maatte med øllu Riette kallast hin Naadarfulla / þvi hun vard Mooder ad honum sem er fullur Naadar og Sannleika/ svo sem Johannes umm hann vottar/ Joh. 1. Og ecke einasta hun/ helldur allar Andlegar-Christi Mædur/ sem er hvør ein riett trwud Saala/ Matth. 12. er af hans Fyllingu medteked hefur Naad fyrer Naad. Drottenn er med þier þu Hetia sagde Eingellenn vid Gideon fordum Daga er hann heilsade honum/ Judic. 6. þad rættest og / þvi fyrer hans Hend sloo Drottenn i Hel Madianita sem laau eins og Enges Sprettur i Jesreels Dal/ med þrim Hundrudum Manns/ Jud. 7. Enn þott þ·ære miked Guds Furduverk / þa var þad Lijted hia þessu / ad Maria bar i sijnum Kvide þann Drottenn Himens og Jardar/ sem ber alla Hlute med Orde sijns Kraptar/ Heb. 1. Blessud var hun a medal Kvenna/ þvi eingenn Kvenn

madur fra Upphafe Veralldar hefur svoddañ lijmañlega Sæmd hloted sem hun/ er giørdest þar Mooder sīn hiñ allra hæste var Fader ad hinum allra Hæsta. Eñ ecke hefur ein Rietkristeñ Sala er JEsum andlega gieted hefur/ miñe Blessun þeyged/ þvi lijser hñ sialfur/ er hñ kallar þa sijna Moodur / Systur og Brædur/ er hñs Ord heyrdu/Luc. 8. Fyrer þvi er þesse andlege Gietnadur svo miklu meire hinū Lijkamlega/ sīm ad allar Andlegar Gafur eru hinū meire og betre / Þvi þorgiefens hefde Mooder Drottens bored Heimsins Frelsara i sijnū Kvide/ nema hun hefde og bored hñ i sijnu Hiarta/ kalla eg hana þvi Sælle þar af / ad hun vardveitte øll hñs Ord / Luc. 2. helldur eñ af þvi ad hañ mylkte Brioost heñar/ þvi hvad um̄ þad/Sæler eru þr sīm heyra Guds Ord og vardveita þad / sagde hñ sialfur fordū vid Kviñuna er prijsade Sælu hñs Moodur/Luc. 11. Og soo gierer nu þesse Kvedia Eingelsins Sendeborena miøg svo fræga og veglega / ad eckert kañ gledelegra upp ad hugsast. Kvediuñe fylger strax a epter hefud Eyrended/ þ flytur Guds Sendebode med þessum Ordum: SJa Þu Munt BArn GJeta i Kvide þijnū og munt Son fæda / og hñs Nafn skallt þu kalla JESUS/ Hañ Mun Kallast SOnur Hins HÆsta. etc. Miked er i þessum Ordum iñefaled / og meir eñ syndug Tunga meige þad utskijra. Hid Fyrsta er/ ad hun skule Barn gieta / þad er Mañeskiu eins og hun var og heñar Fedur ad øllum Edlis Hattū/ ad Syndeñe eirune fratekeñe / þad skilur Eingelleñ undañ er hañ seiger: Ad þad Heilaga sem af heñe mune fædast / skule kallast Sonur Guds: Svo var þa Christur hluttakande Holds og Bloods eins og Smaborneñ/ Heb. 2. Svo sem Børneñ hafe sitt Holld og Blood/ þad er Mañlega Natturu / Saal og Lijkama af Foreldrunum / So hafe Christur af siñe Moodur og Feðrunū epter Holldenu/ bæde Saal og Lijkama. Nu seiger Drottenn sialfur vid Nicodemum: Hvad af Holldenu er fædt/ þ er Hollld/Joh. 3. og teiknade hñ þar med spillta Mañsins Natturu. Hvad þa? Var Manndoomuren Christi Syndum spilltur? Fiærre sie þvi/þar fyrer stendur hier i Gudspiallenu: HEilagur ANde Mun KOma yfer Þig/ Og KRaftur Hins HÆsta Mun yferskyggia Þig. Til hvørs? Til

þess

þess medal aňarra/ad helga og tilreida heňar Blood/ aþ hveriu Drotte ne var Lijkameň tilbweň / svo ad øll Fylling Guddoomsins kyňe ad bra þar i Lijkamlega/ Col. 2. Med hveriu Moote þad sie skied / veit Gud eirn/ sm er Meistare þessa Furduverks / um̃ hvert þad maa med Riettu seigia sm̃ skrifad er um̃ Salomons Hasæte / ad þvilijkt hafe ecke giort vered i nockru Konungs Rijke/ 1. Reg. 10. Og þad sem eg nu sagt hefe um̃ Christi allra helgasta Lijkama/og þad Efne er hň var myndadur af/ þad sama er um̃ hňs dyru Saal ad seigia. Lijkameň er Herberge Saalarennar / ecke mætte i svoddaň Herberge / sem aþ H. Anda var tilreidt fyrer Krapt hins allra Hæsta / ecke mætte þar byggia nema eirn Hreirn og heilagur Giestur. Maňsins Saal hafde framar syndgad eň Lijkameň/ hun var og Heþundur Syndareňar i Maňenu / Þvi mætte hňs Saala ecke sijdur Oflecked vera/ sm̃ Saaler vorar heþur vr Heliu leyst/helldur eň Lijkameň. Postuleň seiger ad i honu bwe aller Fiarsiooder Vitskuňar/Col. 2. Biuggu þeir i Lijkamanu edur i Saaluňe ? J Saaluňe ad vijsu/ eins og Ekinsemeň hia oss og þad Gott sem heňe fylger. Svo er allur Christur hreirn og heilagur sem ei kuňe aňars ad vera / þar haň var gieteň aþ H. Anda. Þvi epter þ Eingelleň hafde sagt/ ad heilagur Ande munde yfer hana koma/ þa leggur hň ħta til : Og Þad þ EJ laga Sm̃ Aþ ÞJer. Mun FÆdast SKal KAllast GUDs Sons: Og ad Meň gange vr Skugga um̃ þad / ad Christur sie gieteň i Meydar Lijfe eins og aňad Foostur / ad þvi fratekuu / ad þar komu eingeň Maňsvolld til / svo sm̃ hun seiger hier vid Eingeleň : HVorneň Kaň ÞEtta Ad SKie/ Þar Eg Hefe Öngvaň MAň KJendt ? Og Guds Ande samsiňer heňe / Matth. 1. seigiande : Ad Joseph hafe ei kiendt hana þar til hun fædde siň Frumgieteň Son. Ad Meň gange vr Skugga um̃ þad seige eg / þa vottar Matth. Cap. 1. Ad hun hafe fundest Þvngud aþ heilögum Anda/og nockru sijdar / Ad þad sm̃ af heňe gieted var / hafe vered aþ H. Anda/og samt er þo ecke H. Ande Fader ad Christo/helldur tilbioo hň og helgade/sm̃ ædur er sagt/þad Efne i Lijfe Jomfrwr Mariu sem Drotteň Myndadest aþ/ og framkræmde svo heňaň allra heilagasta Gietnad mz sijnu Oraňsakaňlega Guddooms Krapte. Þaň-

eñ byriade allt Riettlæte upp ad fylla/ Matth. 3. Br. M. þui þ vard af Syndlausu Hollde ad lukast sem aþ Syndugu var tiluñed. Pad Must ere vard heilagt ad vera/ i hvøriu þre Foorn ætte ad offra sīn Gude Ilska skyllde þyrer allar Veralldareñar Synder. Sa Kieñemadur hlaut ad vera Ostraffañlegur sīn iñganga skyllde/ ecke Einusiñe a Aare hvøriu (eins og Aaron og hīns Epterkomendur.) helldur ellu Einusiñe i pad allra Helgasta/ ad vtvegadre eilijfre Endurlausn / Heb. 9. þvi seiger Paulus/ Sooddañ Biskup heyrde oss/ Heilagur/ Saklaus/ Obleckadur/ fraskileñ Syndurunū/ og vordeñ Himnunū hærre/ Heb. 7. þad er upphafeñ yfer alla Himna/ hvar þad allra Helgasta er/ i hvørt hñ er iñgeingeñ og setstur Gude a hægra Veg i voru Hollde: Og sia Meñ aptur af þessu hvad gledelegur ad sie þesse Bodskapur/ og þesse Sendeþør vegsamleg. Eñ þ tekur yfer/ christner Meñ/ad Gud er hier Madur vordeñ. J sama Vetþange sem heilagur Ande tilbioo JEsu Mañdoom/ svo ad hun gat siñ Son/ under eins og i sama Augnablike took hīn eñur Guddoomsins Persoona Mañdoomeñ i Samþelag mz sier/med svo þostu Sambande og ecke Samblandc/ ad þ hefur sijdañ alldrei slitnad/ og mun ecke uñ alla Eilijfd slitna. Jñ Daudeñ gat þ ecke slited / saþnvel þott hñ adskilde Sæl og Lijkama Drottens / þvi añars hefde hñ ecke sialfur sijna Salu apturteked/hvøria hñ sialfur fra sier liet/Joh. 10. þta vottar Gu∂s Ande s sialfr var Verkmeistareñ/tvisvar i þzu N. Gudspialle. Fyrst þar hñ seiger: Ad Barned s hun gieta mune/ skule kallast Sonur hins hæsta/ þ er Guds/ þvi eingeñ er hñ hærre/ Aptur/ad þ Heilaga s af heñe mune fædast/ skule kallast Sonr Guds. Taked epter þzu B. M. þott eg tale i Fræþræde uñ svo haa Hlute/þañ sīn hun gat eins og Guds Son/þañ fædde hun eins z Guds Son/svo ad eingeñ Vmbreyting hefur vorded fra Gietnadenum allt til Fædingareñar / i Einingu Persoonuñar/ sīn ei er Von / þvi hia Gude er eingeñ Vmbreyting nie Skugge til Vmbreytingar /seiger Jacob/ Jacob. 1. Hvad þar Er Christur Guds Fødur Nattúrlegur Sonur epter Mañdomenū? Ad vijsu er hñ/eñ ecke epter Nattúrlegum Hætte/helldur fyrer Eining hiñar Guddomlegu og Mañdomlegu Natturuñar / sokum þss / ad hin eñur

Persoona

Persoona Guddoomsins / Guds eingetinn Sonur took a sig Mañdoomeñ/ svo gietur þad ecke adskilest/ ad sa sm̃ er Guds Sonur fra Eilijfu/ eñ i Tijmans Uppfyllingu vard Madur/ hñ er i Raun og Sañleika ad ollu Leite Guds Sonur/ og þar þyrer er hñ vor Fridur/ sem hefur giort eitt af bádũ / Eph. 2. Meñ kuña ad seigia/ ad hier um̃ sie ei svo Naudsyn. legt ad tala/ og ad meñ skilie ei þeñañ Leyndardom / sem satt er: Eñ svo mikid gieta meñ skiled sem Gud hefur viliad lata oss skilia/ oss til Salu⸗ hialpar. Þad er ecke lijtel Huggun fyrer eirn Syndara/ad Gud er Fader Christi epter Mañdoomenũ/ þar Christur kallar oss sijna Brædur / Ebr. 2. Adam var Guds Sonur/ sem Lucas vottar / 3. Cap. Eñ i Fallenu giordest hñ Diøfulsins Sonur. Hvørneñ atte nu Adams Sonur aptur ad verda Guds Sonur/ nema hiñ eilijfe Sonur Guds yrde Adams Son. ur/ sa ed geingest under Sekt Brædra siña? Þad sem broted var a moote Gude/ þ vard af Gude ad gialldast. Þad sem af Mañenũ var broted/ þ vard af Mañenũ ad bætast: Gud kuñe ecke einsamañ ad lijda: Madureñ ecke einsamañ ad fullnægia Guds Riettlæte. Hvørneñ atte þa ad sie/ nema Gud yrde Madur? og lide fyrer þ/ sm̃ vier m̃ voru Synduñ hofũ broted/ þvi er þta ecke lijtel Huggun / og hvad seige eg lijtel? Þesse er hiñ einasta Huggun syndugs Mañs / og eingeñ ôñur / Sa sem hana ecke hefur/ hm̃ er. vijst Helvijte/ þvi ecke[r]t Nafn er añad giefed Mañn⸗ um under Himnenum / i hvoriu oss byriar Saluhoolpnum ad verda/ helldur eñ Nafned JEsu/ Act. 4. hvørt hønũ var hier giefed/ hvad og kallad var af Einglenũ / ádur eñ hñ var giefeñ i Moodur⸗Kvide/ seiger Lucas 2. Cap. er hañ seiger oss Umskurnar Søgu Drottens. O hvijlijk Oppt Audæfaña og Guds Speke. Þetta er ein Feste / sem Guds Sonur gaf siñe Brødur i Trygda. Pant / i hvørte eitt Furdu⸗ verk hanger af ødru / eins og eirn Hlekkur af ødrum. Skapare Himens sins er ein Skiepna vordeñ. Eilijfdeñ er giefeñ i Tijmans Uppfyllin. gu / Gal. 4. Ein Jomfru verdur Olett / Esa. 7. Hun sem af Gude er skøpud / verdur Guds Mooder/ Hañ verdur i Moodurlijfe iñeluckt⸗ ur / sem Himnañá Himnar ecke teked fa / 1. Reg. 8. Hañ sm̃ duner i Himnenũ / hñ grætur i Stallenum / Sa ed allar lifande Skiepnur sedur/

Ps. 145. næreſt i Moodurkvide. Skiepnañ lætur til þ Efne sem Skap-
areñ var giørdur af. Sooleñ hefur Lioos feinged af Stiørnuñe. Mood-
ereñ var yngre eñ Barned/ eñ Barned stærra eñ Moodereñ. Miñ Herra/
þu sagder/ er þu vilder sÿna þÿnū Læresveinū ad þu værer Holld af
voru Hollde: Ande hefur ecke Holld nie Bein/ svo sem þier sioed mig
hafa/ Luc. 24. Eñ hier sie eg ad Andeñ er vordeñ Holld/ þvi Gud er eirn
Ande/ Joh. 4. og vard þo Holld. Svo seiger Johañes 1. Cap. Orded
vard Holld og bygde mz oss/ og vier saaum hañs Dyrd/ Dyrd svo sem
eingietens Sonar af Fødurnum. Þetta eru stærre Undur eñ øll Und-
ur/ og maa hier ad fyrstu og sijdustu kalla ad þesse Sendefer og þesse
Bodskapur sie Oasamlegur/ Haleitur/ og yfer allañ Maata Undrunar-
legur. Gud giefe oss þar ad koma sem vier meigum Eilijflega ad hønum
daast/ med þeim Fagnade/ sem ecke hefur hier Eyra heyrt edur Auga sied/
og ecke i Mañs Hug edur Hiarta komed/ 1. Cor. 2. Eñ nu viliū vier
skoda hvør ad sie Nytsemd þessa Bodskapar/ og er hun ad vijsu svo stoor/
ad hun verdur alldrei full þockud. Eilijft Ar skal til þess hafa ad veg-
sama Guds eilijfa Giæsku. Svo elskade Gud Heimeñ/ seiger Lausnareñ/
ad hañ gaf vt siñ eingietiñ Son til þess/ ad aller þeir sem a hañ trwa/
fyrerfarest ecke/ helldur hafe eilijft Lijf/ Joh. 3. Nær gaf hañ oss hañ
fyrst? A hñs Getnadar Deige/ eñ fyrst hñ hafde oss hñ einu siñe gief-
ed/ þvi skyllde hañ þa ecke giefa oss alla Hlute mz hm/ Rom. 8. Til
hvørs gaf hañ Soneñ? til þess/ ad þr sem a hñ trydu skylldu ecke fyrer-
farast/ þ er/ ad þm ecke skyllde verda skipad fra Guds Doomstoole i ei-
lijfañ Elld/ sem fyrerbueñ er Dioflenū og øllū hñs Arum. Hefde Gud
giørt oss ad Kvikendum Jardar og Viñudyrum/ og lated oss svo vt af
slockna eins og Fienadarens Anda/ þa voru þad good Kiør hia þvi ad
pijnast Eilijflega i Helvijte/ eñ hañ hefur eñ þa betur til vor giørt/ þar
aller þr s a hñs Son trwa skulu hafa eilijft Lijf/ þ er Oendanlega Dyrd
arvist & Sælu mz hm & i hønū/ fra eirnre Eilijfd til añarar. Hver vill
þa faa Ordū adkomed/ hvilijk Guds Ast oss er veitt i Holldtekiu Drottens?
Vier vitum aller hvilijk Byrde ad er Guds H. Løgmaal/ og hvørt ad sie
Straff þra er Løgmaaled briota/ þad seiger oss Moyses/ Devt. 27.

med

med svo skielfelegum Ordum/ ad jafnvel þeim mætte ofbiooda sem vita ad þr eru fra Lögmaalsins Bölvan frelsader/ og er þad þo ei nema tým̃an̄legt Volæde sem hn̄ uppreiknar / svo eg vil seigia / ad sa sem heyrde Lögmaaled og þess Vidlögur/og ætte sier ecke Lausnar Von fra þss Bölvan/ hn̄ være ad miklu Leite i Helvýte/ jafnvel hier a Jördun̄e/ og hefde ei nockra Rod um̄ eitt Augnablik. En̄ hvad seiger Paulus /Gal. 4.5: Þegar Tijmans Uppfylling kom /sende Gud Son sin̄ giordan̄ af Kvin̄un̄e Lögmaalenu undergiefen̄/ svo hn̄ leyste þa sin̄ under Lögmaalenu voru / uppa þ vier ödludumst Barna-Riettin̄. Nær skiede þ ? A hans Gietnadar Deige/ En̄ hvad miked oss sie i þvi veitt / smau̅ vier best/ ef vier hugleidū hvilijkur Munur sie þess/ad vera Samarfe JEsu Christi/ og svo hins / ad vera Þræll Lögmaalsins hier i Lijfe / og svo Fange Sathans i ödrū Heime. J einu Orde ad seigia/ allar Lijfs og Saalar Heiller sin̄ Guds Börn þyggia af Drottne/þær eru oss i þvi Augnablike veittar/ er JEsus var gieten̄ i Meyar Lijfe. Eingen̄ fegre Sool hefur yfer Heimen̄ skined en̄ sw / þegar Sool Riettlætesins Mal. 4. uppran̄ oss syndugū Mön̄um i hen̄ar Kvide. Vier vorū niðurseckter i Afgrun̄ herfelegustu Eymda & Volædis/ oss vantade þan̄ sin̄ liette oss eirn Streing til ad upprycia oss wr þessu Diwpe. Þriþættur Streingur slitnar torvelldlega seiger hin̄ Vijse/Eccl. 4. Þesse Streingur var Drotten̄ JEsus af Lijkama/ Saalu og Guddoomenū saman̄spun̄en̄/ hn̄ vor ofan̄lægaten̄ i Eymder vors Holds / med hm̄ hefur Guds megtuge Armleggur ryckt oss wt af Vallde Myrkran̄a / Oss vantade eina Foorn þa er kyn̄e fyrer Gude ad gillda / hana var ecke ad fa hia oss Men̄unū / eirn Brooder kun̄e ecke an̄an̄ ad leysa/Ps. 49. & þott Gud hefde skapad eirn heilagan̄ Man̄ af Adams Nidiū/og læted hn̄ lijda/þa næde hn̄ skamt bæde til ad giefa wtstaded hinar bitru Helvýtis Pijsler / svo og til ad fullnægia Gude fyrer Syndena/ þvi er Gud Madur vorden̄/ so Guddoomuren̄ hialpade Man̄doomenū til ad þola Pijslernar / og giöra Lausnargialdded dýrmætt og gilldt i Auglite hins stranga Doomara : En̄ Man̄doomuren̄ Gude ( ef eg mæ svo ad Orde komast ) til ad deia. Vier þurftū einshvörs Sattmaala vid til Stadfestingar þeim Fride er Gud

giörde

gierde vid Mañkyned. Sia Gud er Madur vordeñ/ hñ hefur trwlofad sier vora Natturu i Meyareñar Kvide: med þessũ Teingdum er Fridureñ stadfestur mille Nimens og Jardar / mille Guds og Maña / mille Riettlætesins og Myskunareñar. Vær þurftum nockurskonar Veg til Nimensins hvadañ vier wtlæger vorum. Gud er Madur vordeñ/ hñ er Vegureñ/ Sañleikureñ z Lÿfed/ Joh. 14. hñ er Jacobs Stige s̃ nær fra Jørdu allt til Nimens/ Gen. 28. Þvi hñ er ofañkomeñ af Nimne i vort auma Nolld/ eñ vort Nolld er uppnumed/ Fiølleñ eru læckud/ Dalerner eru uppfyllder/ Es. 40. Nimeneñ hefr læckad sig allt til Jardar/ Jørdeñ er upphafeñ allt til Nimna/ Og um þeñañ Jacobs Stiga munu Einglar a sÿdañ bera Sæler vorar i Abrahams Skaut/ til ad fagna þar eilÿflega. Vier vorum Gude merg tÿu Þusund Punda skyllduger/ Matth. 18. Þar læ ecke añad fyrer oss eñ ad verda kastader i hin ytstu Myrkur. Eingeñ hafde þad hañ giallda skyllde/ þvi er Gud Madur vordeñ. Fadereñ gaf oss eirn rÿkañ Broodur sem eirn gallt fyrer alla. Ad sÿdustu vilde Gud ecke einasta frelsa oss af Myrkrañna Vallde i Nelvÿte/ helldur og hefia oss til Rÿkis i Nimnenũ/ Eñ oss vantade Røksemd og Skial til þess/ ad hañ vilde svo giøra. Nañs giæska var alltÿd til reidu i fra Upphafe Veralldar/ sæ ædur eñ Grundvøllur Veralldareñar var lagdur. Eñ þad var ad ugga/ ad vier mundũ giøra hana Onyta a oss fyrer Vantruareñar saker. Þad var ecke lÿklegt ad eirn Glæpafullur Landrææda madur/ eirn Spillvirke/ sem alla reidu hafde Snøruna um Nælseñ og uñed til Gææ lgañs/ hañ munde ætla ad Konungureñ munde hañ apturkalla/ fra Gææ lganum til Rÿkis/ wr Bøduls Nøndunum til sÿns Næ bords / og giøra hañ Attleiding af Utlaga/ sitt Barn af Dioefulsins Þræl/ og siñ Þienara af Drotteñs Svikara. Þess vegna er Gud Madur vordeñ/ þar fyrer hefur hañ giefed oss þad Teikn/ er hañ hiet ad giefa a Døgum Achas Konungs/ Esa. 7. um hvørt ad gietur i þessa Nætÿdesdags veniulegũ Pistle/ þar svo stendur/ Fyrer þa Skulld mun Drotteñ giefa ydur eitt Teikn. Sia þu ad ein Jomfru mun Barn gieta/ og eirn Son fæda/ og hañ mun hun kalla Immanuel/ þ er Gud mz oss/ Gud i Mañenũ og Orded i Nolldenu/ Þad er JEsus/ Lausnare/ Frelsare/ Sæluhiælpare/

are/ þvi ſvo kuñe eingeñ ad heita nema Gud bygge i honum. Þetta er nu fullkomeñ Viſſa um̃ Sætt vora vid Gud/ ſa oſſ reidur var / þvi hefe hn̄ gefed oſſ hn̄ i hvøriū hm̃ alleina velþocknaſt/ Matth. 3. og offurſellt hn̄ i Daudans Pijſler til ad forlijka oſſ vid ſialfañ ſig/ Rom. 5. þegar vier eñ þa vorū hn̄s Oviner. Hvørneñ kuñum vier þa ad efaſt um̃ Vppgiøf vorra Synda ? Mun hn̄ keſta þm̃ i eilijfañ Elld ſm̃ a hn̄s Nafn trwa/er hn̄ took ſvo nærre ſier ad giefa oſſ ? Mun hn̄ tilreikna þm̃ Syndernar/ hvørra Synder hn̄s Eingietcñ Sonur hefur burtu bored/ Joh. 1. nær vier ydrunſt fra aff Hiarta ? Mun hn̄ klaga oſſ fyrer þa Handſkriftena ſm̃ hn̄ hefur alla reidu a Kroſſeñ neglt ? Col. 2. Fiærre ſie þ Fødur Myſkunſemdaña : Og þeſſe er nu ſa gledelege Todſkopureñ er eg i Vndverdu hiet um̃ ad tala. O eitt fagnadarſamlegt Ord/ O eitt ſañkallad Evangelium / O eitt aſtelegt Fridarbod / med hvøriu Heilſañ verdur frambodeñ hinū Veika/ Vppgiøfeñ hinū Seka/ Lauſneñ hinū Herteknu/ Frelſed Prælunū/ Lijfed hinū Dauda/ og þm̃ ſm̃ einkis Von ætti nema eilijfra Kvala i Helvijte/ med Dioflenū ꝛ ellū hn̄s Arum / eilijf Sæla / eilijfur Føgnudur og eilijft Samneyte mz hiñe hæleitu Guddoomſins Preñingu og heiløgū Einglū i hiñe himneſku Jeruſalem/ hvørrar Sool og Tungl ad Gud er/Apoc. 21. og hvar eingeñ Vmſkipte eru Lioſſens nie Myrkurſins/ Jac. 1. Þeſſarar Tignar/ þeſſarar Dyrdar og þeſſarar Full-Sælu uñ þu oſſ niootande ad verda goode Gud/ fyrer Aarnan og Forþienuſtu þijns Eingietens Sonar JEſu Chriſti vors Frelſara / AMEN.

# A Palma Suñudag.

Gudſpialled ſtendur a hiñ fyrſta Suñudag i Adventu.

## Exordium.

Hier høfum øngvañ Konung nema Keyſarañ / ſøgdu Gydingar fordum Daga/ Joh. 19. þa þeir villdu ecke lata Konung Dyrdareñar rijkia yfer ſier/Luc. 19. Eñ eg þykeſt vita ad chriſtner Meñ mune ecke ſamſiña þm̃ Ogudlega Flock/ þvi ſafnvel þott vier eigū Gude ad þacka fyrer Konunga vora / er hn̄ ſett hefur til ad ſtioorna ſijnu Folke/

ke / sierdeilis vier/ er hn̄ hefur millda og riettvijsa Konunga giefed eirn epter añañ/ þa vitū vier þo ad Gud heþur sett siñ Konung yfer sitt heilaga Fiall Zion/ Ps. 2. hvørs Rijke ecke er aþ þessū Heime/ Joh. 18. Og þo er hn̄ Heimsins Skapare/ Heb. 1. hvørs Herradæme ad bræ þ̄ synduga Meñ um̄ Stundarsaker/ til ad uppfylla Spaadoom Zachariæ / Cap. 9. þegar hn̄ reid iñ til Jerusalem / eñ hn̄s Rijkisstooll varer þo un̄ Allder Allda/ Heb. 1. Vorer Høþdingiar stioorna m̄z Makt ꝛ miklu Vellde/ Verølldeñ er svo skipud/ ad ecke verdur ødru ákomed / eñ Christur i sijnu Nadar Rijke stioornar m̄z sijnu H. Orde ꝛ Sacramentunum/ þvi seiger Paulus/ 2. Cor. 10. Vopn Herþarar vorrar eru ecke Lijkamleg / helldur Kraptur Guds til ad nidurbrioota Gyrdingarnar. Veralldleger Herrar taka Skatt aþ sijnū Þegnum/ Matth. 17. og er þ̄ Riettvijst / þvi þesse vor Konungur heþur þ̄ skipad/ eñ hn̄ gieþur øllū allt ꝛ upplykur siñe milldu Hende/ til ad sedia allar liþande Skiepnur/ Ps. 145. Drottēñ sagde vid Petrum : Veralldleger Konungar / hvørt taka þeir Skatt aþ sijnū Børnum ellegar aþ añarlegum ? Eñ Petur svarade : Aþ añarlegū. Og vor HErra sagde : Þa eru Børneñ þrij/ Matth. 17. Eñ þad geingur ødruvijse til i Guds Rijke/ hier tekur Konungureñ Skatt aþ sijnū Børnum / sm̄ þo er ecke Gull nie Silþur / helldur harmþrwngen og sundurknosadur Ande. Fordum Daga mætte eingeñ mæta Persiaña Konunge/ nema hn̄ oþþrade hm̄ einhvørre Gaaþu / og er Bonde nockur vard a Veige þyrer einū aþ þm̄ / haþde hn̄ þ̄ ecke til er hn̄ kyñe ad biooda/ eñ i þessu Raadaleyse took hn̄ Vatn i Lwkū sier og þærde Konunginum/ og seigia Meñ þ̄ haþe vered vel þeyged. Vier mætū vorū Konunge daglega/ þvi allañ Dageñ wtbreider hn̄ siñ Fadm til vor/ Esa. 65. Eckert høþū vier þ̄ vier kuñū ad biooda þ̄ssū allsheriar Drottne/ Blood Vxaña og Haþraña þocknast hm̄ ecke/ Ps. 50. Allt Silfur og Gull er hn̄s/ jaþnvel vor bestu Verk eru eins ꝛ Nidurlags Fat/ Es. 64. Gudrækeleg Taar vorra Augna/ og þ̄ Vatn sm̄ ydrande Maña Høfud eru full aþ/ eirn audmiwkur Ande og lijtelaatt Hiarta er hn̄s Oþþur/ Ps. 51. Betur lijkar hm̄ Foota Þvottur hiñar Bersyndugu eñ Heimbod Simonar/ Luc. 7. Betur Mariu Audmijkt i Hiartanu/ helldur eñ Vmsorgun Marthæ i Hwsenu/ Luc. 10. Hiñ beiske Grgatur Peturs/ Math.

26. helldur eñ Offur Vitringaña/ Matth. 2. þott hvorutveggia væ, re þacknæmelegt. Hin besta Þegnskyllda Guds af Meñunū er þetta/ og Trwen sm̄ verkar fyrer Kiærleikañ/ Gal. 5. Eñ þesse Konungur svo mættugur sm̄ hn̄ er/ svo prydelegur sm̄ hn̄ er / svo alvalldur sm̄ hn̄ er/ svo giæskurykur sm̄ hn̄ er/ þa er hn̄ þo til vor komeñ hoogvær sitiande a Asnu eiñe. Naþe nu Konungur Dyrdareñar vered svo hoogvær þyrer vora Skulld / þa lætū oss ganga nær Gudspialle þessu / og læra nockud aþ hm̄ sm̄ er hoogvær ꝛ aþ Hiarta lytelætur / Matth. 11. þad er Hina andlegu Hoogværd sm̄ oss a ad þylgia iñ i Himnarykе m̄z Smæ, börnuñ/Matth. 18. Og um̄ hana vil eg tala þyrer yðrū Kiærleika wt eþ þessu H. Evangelio. Hvar til oss styrke hiñ Naaduge Gud i JEsu Naþne / Amen.

## Utleggingeñ.

Fare þier i þad Kauptwn sm̄ gagnvart ydur er/ og strax munud þier Fiña ASnu Bundna Og FOlañ Hia Heñe / seiger Drotteñ. Af þessu er audsied/ad hn̄ visse alla Hlute / og eþ hn̄ var Alvitur/ þa var hn̄ og Almættugur / Allestadar nælægur og Omælañlegur / þvi Guds-doomsins Eigeñlegleikar meiga ecke ad skiliast / hvar þyrer vier sium̄ ad oll Fylling Guddoomsins heþur bwed i hm̄ lykamlega/ Col. 2. Hvad mangt eru nu aller daudleger Meñ þra svoddan Hæfign? Ad sönu heþur Gud lagt miked til margra / og þar verdur ecke a moote sagt / at Mad-ureñ er hin ypparlegosta Skiepna Guds sm̄ vier siaū m̄z vorū Augum/ eñ þ heþur JEsus þram̄ yfer alla adra/ ad hn̄ er bæde Gud og Madur. Hvilykt er þa þetta Oumrædelega Lytelæte / ad hn̄ sm̄ ell Dyr a Jordu̅ne skapad heþur / hañ virder sig svo Lytels ad sitia a einū Asna / sm̄ er eitt hid audvirdelegasta Kvikende medal Dyraña. Sia hier /christeñ Madr / hvad lytels verd ad sie Hoþþrakt Veralldareñar i Guds dyrdarþulla Aug-lite. Hier er ecke Pharaonis Vagn sm̄ Joseph var i þluttur/ Gen. 41. Ecke Mardochei Hestur sm̄ Ahassverus skipade hm̄ ad ryda/a styñū Neid-ars Deige/ Est. 6. Ecke hiñ Elldlege Vagn ꝛ Hestar sm̄ þærdu Eliam til Himna/2. Reg. 2. helldur eirn lytelmootlegur Asne/ Þo stærer eirn Ondugur Ormur sig aþ Vwningenū / og af þvi Yþerlæte er hn̄ hledur

ukañ a sig. Pad er alloğda ad sia i Æfesøgu Drottens/ hvad lijtels hañ hefur meted Ofblæte Veralldareñar. Hañ var fæddur i einū Stalle/Luc. 2. hñ foor a Fæte þegar hñ gieck um kring/giørde Gott ꝛ grædde alla/ Act. 10. hañ atti hier einū Asna/ og hygg eg þ hafe þo vered hid me sta hñs Yfzerlæte hier a Jørduñe. Peink nu um syndugur Madur/hvi lijk Fasiña þ sie/ad metnast i Hiarta sijnu þo Gud læte einhvørn sijna i Prijde Veralldar þessarar/ ecke seige eg/ ad Gude misþocknest lijkamlegt Hreinlæte eda fagur Brunadur i sialfum sier / þegar þau sambiooda þess Virdingu er þvilijkt brukar / langt helldur meina eg/ ad Gud hafe ongvañ Misþocka a þvi þott hñs Skiepnū sie halldeð til Prijdis/ þad sijner mier Aaronis Buningur/Exod. 28. þad vottar Sattmals Orkeñ og Nadarstoolleñ/Exod. 25. þad sijner Jerusalems Mustere/ 1. Reg. 6. þad sijner Salomon mz allre siñe Dyrd/ 1. Reg. 10. hvørre i Rikningsuñe hroosad verdur/ eñ hitt seige eg / ad stæra sig þar af / þad er Andstygd fyrer Gude. Ecke trwe eg ad hm hafe illa lijkad su Bygging er Nebucadnezar liet giøra i Babilon / eñ fyrer þvi hñ stærde sig þar af / þa vard hm giefed Villudijrs Hiarta / svo hñ aat Gras mz Kvikendū a Mørkeñe/ Dan. 4. Ecke hefur Gud reidst vid Herodem af þvi hñ var Malsniallur/ þvi sialfur hafde hñ hm Malfæred giefed/ eñ sokū þess ad hñ gaf ecke Gude Dyrdena / þa var hñ sleigeñ af Eingle Drottens / Act. 12. Hañ sie ad Gud hefde læted Hvalfiskeñ i Ægyptalande vera kyrrañ i sijnu Vatne/ hefde hñ ecke sagt : Mitt Vatn er mitt / og eg hefe giørt mier þad/ Ezech. 29. Ecke er vijst ad hñ hefde sett Krokeñ i Zenacheribs Naser/ hefde hñ ecke lastad Nafn Drottens. Þesse er hiñ riettlæte Doomur hiñs Alvallda Konungs / ad Dramblætū hrinder hñ af Stoole/eñ Lijtelatū giefur hñ Naad/ Luc. 1. Betra er ad audmijkiast mz hinū Hoogværu / eñ ad utskipta Herfange mz þm Drambsømu / seiger Salomon/ Prov. 16. Hvar af audsied er / ad þo Gud hefde mikled til hñs lagt/ og uophafed hñ a Stool sijns Fødur/ og giort hñ vegsamlegre/ bæde ad Vite og Rijkdoome/ helldur eñ adra Konunga i Austuralfuñe a hñs Døgū/ 1. Reg. 10. þa hefur hñ kañast vid/ ad hñ hefde þad allt þeyged og ecke teked af sialfum sier. Svo var og David hñs Fader

Fader lyndur / hvørs Audmykt ar merkelegt Dæme vier høfu i aňarar Sam. B. 6. Cap. Þegar Drottningeň Michol brixlade hm̄ mz þessū Ordū : Hvørsu vegsamlegur var Konungureň aþ Israel i Dag/ hver ed aþklæddest fyrer Ambættum Þienara siňa / og liet Nakeň sm̄ Fantar. Eñ hñ svarade : Eg vil leika fyrer Drottne þiñ sem ūtvalde mig/helld, ur eñ þiñ Fødur og hellduř eñ allt hñs Hws / og hefur skipad mig Hefd- ingia yfer Drottens Folk Israel/ og eg vil eñ nu miňe verda/og eg vil lijtelæcka mig i mijnu Auglite/ og vegsamast mz þeim Ambættunū / sem þu talader um̄. Ao eg tale ecke um̄ Abraham/Jacob/ Moysen/Josa, phat/Ezechiam og adra fleire / hvørier aller voru aþ Gude mz mikellre Tign sæmder/ og Þra Audmykt i Andanū er þo hroosad i Ritningunňe. Gud nade oss / hvad høfū vier ad stæra oss af syuduger Meñ ? Er ecke Madureñ ein Vatnsboola ? hvør þo ad þioote upp um̄ Stundarsaker aþ Vinde Luckuňar / þa hiadnar hun snøggsklioott aptur / þegar hiñ same a hana blæs. Er ecke allt Holld Hey ? Og allur þess Heilagleike/lijka svo ſ Bloomstur Akursens?Grased visnade ꝛ Bloomst red datt aþ/ þviad Ande Drottens blies a þ. Saňarlega er allt Folked Hey: Grased visnade/ og Bloomstred datt nidur/eñ Ord Drottens var- er Eilijfflega/Esa. 40. Hier er eingeñ undaňtekeñ/ rijkur eda fatækur/ gofugur eda ugøfugur / smaar edur stoor/ Vitur eda Vankuňande/ Þræll edur Herra/ og þetta eru Guds Ord/ hver æfeňlega vara/er oss þetta seigia : Take þvi eingeñ oþurdatt ad sialfum sier/ þvi allt hvad vier høfum / hvad gott edur Kostulegt sem þad er/ þad er þo alltsamaň Laans Fie/ og ecke vort eiged. Seiged mier/ hvar aþ skylldu Meñ þo stæra sig? Aþ Aud og Rijkedæme? Þvi skyllde eg hroka mier upp aþ þvi sem Luckaň kaň eins ad giefa einū Nijdinge/ svo sm̄ besta Maňe/sm̄ ablad er mz mikille Ahyggiu a mørgum Arū / eñ fargast i einu Augnablike/eþ til vill. Þvi skal eg giøra mig stooraň/ þott eg hafe eirn Omaga med- ferdis/ sem eg hlijt alltijd ad þrælka fyrer/ og svo er Opacklatur ꝛ O- riettvijs/ad haň sedur alldrei sijna Fyrerviňu? Viliū vier athuga/B. M. af hvøriu flester eru i fyrstuňe rijker vordner : Fæster munu þr ve- ra/sm̄ Natturaň hefur hialpad þar til ad øllu Leite/edur þeirra eittsam-

a.J Erfide/med hvøriu Gud hefur skipad ad næra sig af Jørduñe/Een.
3. Jeg vænte ad svo flester audgast/ ad þeir eda fra Forfedur hafe tek
ed nockud ranglega fra ødrū. Eñ seiged mier/ er þad Riettvijst ad meñ
stæra sig upp yfer einhvøriū af þvi/ ad hañs Forfedur hafa teked nock
ud fra hiñs Forfedrū? Einguni Mañe mun þad þykia/ þegar meñ gæ
ad hvørneñ Nlutureñ er i sialfū sier/ eda hvad er nu framveiges ad stæ-
ra sig af? Eru ꝥ Vitsmuner? Jeg medkieñe ad þr eru hiñ kostulegaste
Nlutur sem Gud hefur lagt til syndugra Maña/ eñ þo eru þr fallvallt-
er eins og añad/ Og hvad lijted er ꝥ vier vitum hia þvi/ sm̄ vier ecke
vitum? Madureñ veit ecke siñ Sess edur gaungu/ seiger Ritningeñ.
Og hvørsu vill hañ þo meira vita? og þott ad þeir sieu i sialfum sier
gooder/ þa verda þeir þo af vorre Misbrwkun optlega nijdder / allra
mest af Drambsemeñe. Riett gierde Gud/svo sm̄ alla Nlute i þvi hñ
gaf Nebucadnezar Villudijrs Niarta/Dan. 4. sem ædur er sagt/ꝛ sama
ætla eg þa hende/ sem forsmæ adra hia sialfum sier / og þykiast einer-
samañ vita alla Nlute/ hvad þa optast hender/sm̄ miñst vita/og þa þr
þykiast øllū hyggnare/ verda þeir Skiptingū heimskare. Margur
Gortare hefur og stært sig af Nreyste Lijkamans/ giætande ecke ad þvi/
ad lijtill Kville kañ ad svipta Mañeñ sijnu Afle. Sumer hroosa sier af
Fegurd Lijkamans/ og er hun ad søñu ægiætur Nlutur/ þa hun ecke er
brwkud til Lauslætis edur Ofmetnadar/eñ einsamañ er hun Agiætis lij-
til/ þvi Madur kañ ad mæla eitt Bijlæte fagurt/ og er þad þo ecke svo
gott/ sem hiñ liootaste Madur. Nvad er nu framveiges verdt ad stæra
sig af? Dygder ꝛ Mañkoster eru mest verder af øllū þm̄ Nlutū/sem fiñ-
ast hia Daudlegum Møñum/ eñ þr verda ad Okostū þegar Dramblætid
þm̄ spiller. Þvi seiger Salomon/ Vanvirdañ epterfylger hinū Stoor
læta/eñ hiñ sm̄ er Lijtellætur i Anda/mun Vegsemdeñ umfadma/Prov.
16. Lijtelætid er fegursta Skart Dygdaña/ an þess verdur Framsyneñ
ad Vnderferle/Riettlætid ad Nardydge/Nugprijdeñ ad Ofdyrfsku/Spar
semeñ ad Nijdsku/ Jeg meina hid Christelega Lijtelæte/ sem er eirn aud
mivkur Ande fyrer Gude/og kañast vid og þecker ꝥ/ad Meñ eru Meñ ꝛ
Mañlegum Tilfellum undervorpner. SJa hiñ KONungur KJem-
ur

ur Til Þijn HOOgvær/ seiger Texteñ. Ef Konungur Dyrdareñar/ Ps. 24. svo lijtellæckar sig fyrer oss syndugum Moñum/ þvi skylldum vier synduger Meñ stæra oss upp yfer vorū Brædrum. Drotteñ Himens og Jardar kiemur til vor aumra Maña/ sm̄ eckert tokū mz oss i þeñ añ Heim/ og munum eckert i burtu bera/ 1. Tim. 6. Hiñ fegurste medal Mañaña Sona/ Ps. 45. kiemur til vor/ sm̄ fra Hvirfle og allt til Ylia erum ecke nema Saar/ Benjar og Þrote/ Esa. 1. Lætū oss ꝥ til Hiarta ganga/ hvad stoor Munur ad er vor ꝫ hn̄s/ Vier erū þeir ed styggdum/ hañ er sa sm̄ misgiørt var a moote/ hañ þarf ecke vor med/ eñ vier kuñum ecke eitt Augnablik ad lifa fyrer utañ hn̄s Myskun. Lætū vort Hiarta komast vid af þvi/ ad hañ er siukur af Elsku/ Cant. 2. ofañ til vor komeñ/ þegar vier hañ høfudum. Ef vorar Synder ecke angra oss/ ef vier hrædunst ecke þeirra Straff/ þa lætum þo þañ Ouñrædeolega Elskuñar Bruna smellta vort Hiarta/ ad hn̄ kiemur mz svo mikille Hoogværd iñ til Jerusalem/ til ad læta sig kvelia og Krossfesta fyrer mijnar og þijnar Synder/ Christeñ Madur. Hañ grætur yfer Borgeñe/ hverrar Iñbyggendur ad ecke þecktu siñ Vitiunar Tijma/ Luc. 19. af hverium hañ visse þo ad hañ munde svo Hræduglega utleikeñ verda/ sem hañs Pijslar-Saga vottar. Fyrst hañ hefur nu allt þetta uñed fyrer oss synduga Jardarmadka/ þa lætum oss giøra ꝥ hañ oss skipad hefur/ sm̄ er ad læra af hønū hina søñu Hoogværd sm̄ Gud ælskur / giørande eckert af Kappe edur fyrer Hiegooma Dyrd/ helldur af Lijtillæte/ hafande hver añañ sier i Virdingū ædre/ Phil. 2. Audsijnum og vort Lijtillæte i Verkunū/ svo ad bæde Gud og Meñ siæe ad vier leggiū ecke ofmikla Virding a sialfa oss. Drotteñ sagde til Læresveinaña i ꝥssu Evangelio/ þegar hañ skipade þm̄ ad taka Asnuna: EF EInhver SEiger NOckud Til YDar/ Þa SEiged Ad HErrañ HAfe ÞEirra Þørf. Allt Valld hafde JEsus/ bæde a Himne og Jerdu/ þvi alla Hlute hafde Fadereñ lagt i Sonarens Hendur/ Matth. 28. þvi sijnest ad ꝥ hefde ecke vered umfram hn̄s Raad/ þott hañ hefde teked þetta Dijr ad fornspurdū Eigandanū/ þo vilde hn̄ ꝥ ecke giøra/ uppa ꝥ hn̄ sijnde oss hvørneñ vier eigum hver vid añañ ad breyta: Eñ hvad giøra sumer af oss? Þyker oss

ꝥ mikels

þ mikels verdt ad giøra Lytilmagnañ Þornspurdañ / ad þm Hlutum er vier eignast villū? Mun Jessabel virda þyrer sier ad leita Liwgvitna i moote Naboth / og læta grýta hñ sijdañ i Nel / þegar Achab vill eignast hañs Vijngard / 1. Reg. 21. O Gud giæþe ecke være þvilijk Dæme hia ossi / þott Meñ rædest þſi miña i / sm vier hoþū Valldeð miña helldur eñ Achab haþde. Ad sønu er Skickanlega og Lytelæta Umgeingne ecke ad lasta: Nun kañ ecke svo ad kallast Dygd / svo sm Dygdaña Førunautur / og margur heþur sa hana til ad bera / 8 ecke heþur sialfar Dygdernar / z mz heñe haþa sumer tekeð allt þra øllū / eñ þo er ecke hid saña Lytillæte i þvi iñeþaled ad taka Natteñ aþ þ Møñū / jaþnvel þo þ sie ecke lastande i sialþu sier. Utvortis z Iñvortis Lytilæte / er ad sønu hvorttveggia gott / eñ skule añarshvørs væn vera / þa villde eg helldur ad Natturen sæte fyrr a Noþdenu / helldur eñ ad Aumingians Kioell være riþeñ af hñs Kroppe / svo ad Gud klagade mig ecke sijdañ ad eg þielle þram i Pantsettū Klædū i hñs Nøse / Amos. 2. Vier heyrū i Gudspiallenu / ad margt aþ Folkenu sm epterfylgde Lausnaranum / NAþe BReidt Syn KLæde a VEigeñ / Eñ ADrer Noggved KVista Aþ TRiænū. Þad var stoort Audmyktar Merke aþ þſſu Foolke / z eg veit ad þier / christner Meñ / villdud sama giøra eþ þier mættud hañs Nalægdar niooka. Eñ trw mier til / ad hñ er ecke svo langt i burtu / sem þu hyggur / þvi hañ heþur sagt: Eg vil vera hia ydur allt til Enda Verалldar / Matth. 28. Og ef þar eckert añad er / þa eru þar nooger Klædleysingiar / sem hañ kallar sijna Lime / þ eru sañer Ølmusu Meñ: Breidū vor Klæde a Veigeñ fyrer þa / svo ad þr ecke i Klædleyse wt aþ deye / sem ad bera Teikn JEsu Christi a sijnū Lykama / og eru epter hañs Mynd skapader / svo vel sem vier adrer / sem betre Raad hoþum / þa oþþrum vier hinu sañarlega Lytillæte / og lækum Gud sia ad vier þykiumst ecke upp yþer þm sem hñ heþur miña tillagt. Christur vill ecke læta læta sier einungis mz Ordum / helldur mz Verke og Sañleika / Eph. 2. ecke helldur sijnum Limum / þvi hñ er Saþnadarens Hoþud / Rom. 12. eñ vier erū hvor añars Limur. Þar mun koma sa Dagur ad sagt mun verda til þra sem haþa medtekeð Guds Volada i hñs Naſne / þegar Christur mun i añad siñ iñrijda til Jerusalem / þ er til

lijkañ mier/ hönũ skulud þier hlijda/ Devt. 18. Lijkañ ad sönu/ O Moises/ eñ þo miklu betre/ miklu ædre/ miklu fullkomnare/ hver ed eiñ tijttlog, ande Høkveik mun ecke wtslecktva/ edur brakadañ Reyr i sundurbrioota/ Esa. 42. Þad ert þu O Herra JEsu Christe sañur Gud & sañr Madr/ þar þ segiũ vier med fullu Trauste/ ecke med Jsrael/ helldr med Samuel/ Tala þu ODrottẽ/ þijner Þienarar heyra/ 1. Sam. 3. Vier viliũ hũs Roddu heyra/ er lætur oss segia/ Gioreð Ydran/ þviad Guds Rijke er nw lægt/ Matth. 3. eñ ecke oþmiog ottast Rødd hũs er seger/ Bolvadur sie sa sm̃ ecke helldur allt þ sm̃ skrifad stendur i Lögmalenu/ Devt. 27. Vier aumer og vesæler Jardar Madkar/ vilium hönũ heyra er seger: Komed til mijn aller þier sem Erfide drygeð/ & Þunga erud þiader/ eg vil endurnæra ydur/ Matth. 11. Eñ vier skielfumst ad heyra hũs Raust ed seger: Hver sem giorer þetta hũ mun lifa i þvi/ Levit. 18. Þar fyrer tala þu til vor ODrottẽ/ hvert helldur þad skiedur med Þrumu Lögmalsins til ad straffa i oss Syndena/ edur i Blijdvidre Evangelij til ad hugga oss aptur/ þa vilium vier Allshugar fegner segia/ Blessadur sie sa sm̃ kiemur i Nafne ODrottẽs/ Matth. 21. Gief oss þad Hiartalag O Herra JEsu fyrer þijna Forþienustu/ Amen.

## Þridia Suñudag epter Paska.

Gudspialled/ Joh. 16. Cap.

Y þañ Tijma. Sagde JEsus til sijna Læresveina. Jñañ lijtels Tijma munu þier ecke sia mig / og þa eñ iñañ lijtels Tijma munu þier eñ sia mig aptur / þvi eg fer til Födursins. Þa sögdu sumer af hañs Læresveinum sijn a mille. Hvad er þad ad hañ seiger til vor/ iñañ lijtels Tijma þa munu þier ecke sia mig/ og þa eñ iñañ lijtels Tijma/ munu þier sia mig aptur/ þvi eg fer til Födursins. Þa sögdu þeir/ hvad er þad hañ seiger oss/ iñañ lijtels Tijma? Vier vitum ecke hvad hañ seiger. Eñ JEsus formerkte / ad þeir villdu spyria hañ ad / og sagde til

þeirra. Þier spyried ad þessu ydar a mille / þad eg sagde ydur. Iñañ lytels Tyma munu þier ecke sia mig / og þa aptur iñañ lytels Tyma munu þier sia mig. Sañlega seige eg ydur / þier munud syta og grata / eñ Heimurenn mun fagna / og þier munud hryggver verda / eñ ydar Hrygd skal snwast i Fögnud. Eñ Kona / naer hun skal fæda / þa hefur hun Hrygd / þvi hennar Stund er komeñ. Eñ þa hun hefur Barned fædt / miñest hun ecke þess Harmkvælis fyrer Fagnadar Saker / þviad Madur er i Heimeñ boreñ. Og þier hafed nu ad sönu Hrygd / Eñ eg vil sia ydur aptur / og ydart Hiarta skal fagna / og ydarn Fögnud skal eingeñ fra ydur taka. A þeim Deige munu þier mig og einskis spyria.

## Exordium.

HAd verde mier ecke ad eg hroose mier af nockrum Hlut / nema af Krosse Drottens vors JEsu Christi / seger S. Páll / Gal. 6. Adrer hroosa sier af Audlegd siñe og Nægtum / eins og hiñ ryke Mañe / Luc. 12. Nocker af Metordū synū eins og Nebuchadnezar / Dan. 4. Sumer af Afle og Kallmeñsku eins og Goliat / 1. Sam. 17. Herodes af siñe Malsnille / Act. 12. og gaf eige Gude Dyrdena. Pilatus af Magt siñe / Joh. 19. er hañ þocktest hafa Valld til ad Krossfesta JEsum og til ad lata hañ lausañ / hiner af stoorum Ættum eins og Gydingar er sögdust hafa Abraham fyrer Födur / Matth. 3. Og hvad er þad sem ad Drambseme þessarar gialyfu Veralldar telur sier ecke til Gylldis / safnvel vonda Hlute. Hiñ Oguðlige Lamech hroosade sier af Foolskuñe fyrer Kvinnum synum / Gen. 4. og eru hanū aller þr lyker er stæra sig af Dyngdunum / þa hefur Andskoteñ synt Meistarastycke sitt i Hiarta Syndarans / hañ fyrst kiemur honum til ad drygia Glæpeñ / og sydañ ad lata sier vænt um hoñ þykia / þvi ef ad Hroosuneñ giörer jafnvel hina bestu Hlute ecke einungis Onyta / helldur og ad Synd / svo sem Lausnareñ vottar / Matth. 6. um þa er giördu Goodverk til Fordilldar sier / ad þeir hafa þegar syn Laun utteked / Hvad mun þad vera þa ad stæra sig af Klækiunum? Eñ Paulus er ecke svo syndar / hañ hroosar sier af þvi sem Ver-

ollgen kallar/ enkis Nyolf verdt/ af þvi sem hun forsmaer/ þvi sem hun andann flyr med Seglum og Arum/ og skal helldur fremia aller Dygder/ enn ad hun verde fyrer þvi/ þad er Krossenn Drottens JEsu Christi/ og þvi seger Postulenn hier strax epter/ Fyrer hvern mier er Heimurenn Krossfestur/ og eg Heimenum. Þad er alkunnugt/ ad Krossenn var hid smanarlegasta Pijslarfære i þa Daga/ og þvi var Þ Honum valed sem er Konungur Dyrdarennar til þess ad bera þar uppa vorar Synder. Enn svo hædugligt sem þad var/ svo mikla Andstygd seigest Paulus hafa a Heimenum/ og slijka Vidbiood hafe hann a sier. Sied hier christner Menn hverneg þeir eru Skape farner sem vordner eru eitt med Christo/ og hverra Kosta þeir eiga ad vænta sier i Heime þessum. Einga mun hann hafa kiærare hapt af Mönnunum enn sijna elskulega Lærisveina sem hofdu yfergiefed alla Hlute fyrer hans Skulld/ Matth. 19. og þo seger hann þeim fyrer i þessu heilaga Evangelio/ Ad þeir mune sijta og grata/ enn Heimurenn mune fagna/ Sama vill hann hafa sagt enn nu/ þeim er hann af Hiarta elska. Og vil eg þvi alleinasta upp af Gudspiallenu tala um þa Hlute sem oss meige leida til ad bera hans Ok Þolenmoodlega. O þu Krossfeste JEsu hialpa oss þar til med Naad þijns Anda/ Vænhefr þad O Herra fyrer þijna Forþienustu/ Amen.

## Utleggingen.

ÞOtt eckert annad være sem kynne ad verka hia oss Þolenmædena i Mootlætenu/ þa mættum vier þo hugleida hvadann þad kiemur/ sem er fra Gude/ Hvert villt þu fyrer honum flyia? Seger nockud Leyrkiered til þess er þad giort hefur/ hvar fyrer giorder þu mig svo? Rom. 9. Og fyrst ad vier erum i Guds Hende svo sem Leyr/ þa er þad Oviturligt ad mogla a moote honum/ hvad helst sem hann vid oss gierer/ hann typtar oss sem oss giort hefur/ hann sem oss giort hefur/ hann hefur giort Himin og Jord/ stioornar þvi/ rædur þeim/ og kann ad eydeleggia þau nær sem hann vill/ þvi mun eg kieppa vid þvilijkann HErra? Þvi vil eg glijma vid sialfann mig? Og giora mijna Mædu enn þa stærre med Oþolenmædenne? Vill Veralldarennar Naad duga ecke a moote hans Vilia/ Prov. 21. Og eller Helvitis Kraptar meiga ecke auka hinu minsta vid mijna Plagu

fram

ꝺraka ÿper þad ſm̄ hañ æſett hepur/ þvi vil eg þakkpa vid ſvoddañ Nꝛ-
tign/ ſvoddañ Speke/ ſvoddañ Almætte ſem varer/ rædur og ſtioꝛnar
þegar Otal Hundrud Þuſund (hvilker Ormar ſem eg) eru ad Mølldu
vordner/ hvi mun eg þa beria Høfdenu vid hañ Stein ſm̄ a mig er
kaſtadur ap ſvo volldugre Hende? Þar ÿrer Br. M. nær Mooſtlæt-
ed off ad Hendum ber / þa hugſum til þeirrar Skylldu er vier eigum
Gude ad gialda / ſemer ad audmykia oſſ under hañs volduga Hend / 1.
Pet. 5. Hvad ecke er ſvo ſtoor Kunſt i Medlætenu / jafnvel þott vier
gleymum þvi optlegana. Eñ i Mootgæangenum ſieſt þad hveria Vird
ing vier høfum a hønum / og hvad myked vier vilium þyrer hañ viña.
Lijtum til Jobs/ þvi hañs Þoleñmæde verdur oſſ ap Poſtulanum ſett til
Epterdæmis/ Jac. 5. Þegar Guds Hønd hafde ſvipt hañ ollum ſijnū
Børnum / allre ſiñe Aleigu Þrælum og Ambættum / þa ſagde hañ/
Gud gaf og Gud aftook / ſie Nafn DRottens Vegſamad ad eylijfu/
Job. 1. Hønum var David lijkur þa hañ flyde þyrer Abſalon og ſagde/
2. Sam. 15. Sege hañ ſvo/ eg hefe ecke Þocknan a þier/ ſiæ hier em
eg / giore hañ vid mig hvad gott þyker i hañs Auglite / hvar ÿrer hañ
og ſeger / Pſ. 39. Jeg vard Mallaus og opnade ecke miñ Muñ /
af þvi þu gierder þad. Eins eigum vier Skape þarner ad vera Bræd
ur M. ef vier vil af Gruñe Hiartans vilium tiu vora Audmykt þyrer
Gude / og ef vier erū nu ſkylldnger til þeſſa alleina fyrer þvi ad hñ er
vor Gud/ vor HErra & vor Skapare/ hvad myklu framar erum vier þa
Skulldbundner/ þar ed hañ typtar oſſ alldrei nema ſiælfum oſſ til hiñs
beſta. Seged mier / mun nockud Gud ſæ ad er Bruñr allrar Giæſku/
mun hañ nockud hafa Ynde af þvi ad plaga ſijn Børn? Og ecke giøra
þad myklu helldur þeim ſiælfum til goods? Lætum oſſ ecke eigna Fødur
Myſkunſemdaña / 2. Cor. 1. þa Nardydge ſm̄ vier kellum hid verſta og
grimlegaſta a Fiandanum og hañs Limum / ſem er ad hafa Gaman af
Eymdum og Mootgænge ſyndugra Maña. Hvad þa ? Munde oſſ
þykia þad Stefnlegt Barn ſem flijge i Næred a Fødur ſijnum nær hañ
agar þad? Og er þvi verr og midur ad vier ſtreffum optliga vor Børn
og Þienara alleina til þeſſ ad ſkeyta Skape voru a þeim / Eñ hañ plæg-
ar

ar ecke af Hiarta edur straffar Mañaña Børn/ Thren. 3. Þar fyrer er
þad hid mesta Rænuleyse fyrer oss ad mogla under hñs Fødurligre Hyrt-
ingu. Seged mier eñ aptur/ þegar eiñ Læfner birlar oss swrañ Dryck
til ad giøra vorn Lijkama heilbrygdañ / edur hañ skier upp Særeñ svo
ad þau skule groa þess fliootara/ styggiumst vier nockud vid hañ? Edur
mootmælum þvi er hañ vill giørt hafa vid oss / þad giører eingeñ sa sem
heilvita er og elskar Heilsu sijna/ helldur þeckum vier hønum þar fyrer/
og giølldum hønum Laun þar a ofan/ jafnvel þoott hønum mistakest sm̃
optlega skiedur. O Guds Barn/ skylldet þu þa Efast vid hiñ gooda
Læfner? Hvers miwka Græders Hønd ad yfer þijn daudleg Sær til hve-
tra þu ecke kieñer fyrr eñ hañ lijfgar þau med Beyskiu Krossburdarens/
og ecke myklu helldur taka feigens Hende þar a moot / og giallda høn-
um allar Þacker þar fyrer. Ef eiñ Fader sæe sitt Barn framfara i
allre Vondsku og illu Athæfe / og hañ ecke straffade þad/ ef skie mætte
ad þad leidriettest þar vid/ munde hønum ecke a Hælse leiged vera af øll-
um Mønum? J Sañleika / þvi hañ være þss verdur hañ være Bødull
og ecke Fader er þañeg breitte vid sitt eiged Holld og Blood / og þo vil-
ium vier heimta af Gude / ad hañ læte oss bada i Roosum og lifa ad
Munudum vorum/ Ja fara fram̃ i allskonar Syndum og Glæpum/
og heita samt vor Fader/ þar hañ er þo sa Gud er ecke þocknast Ogudligt
Athæfe/ Ps. 5. Værum vier aan Tyftunar þa værũ vier Hoor-Børn
og ecke Syner / Heb. 12. Þarmed þvi sialfer Br. M. hvert helldur
þier vilied eiga Gud fyrer Naadugañ Fødur & þola Hyrtinguna/ edur ad
hañ kañest ecke vid ydur og læte ydur lifa ad eigeñ Villd ydar / og verde
ydur svo eiñ strangur og Ognarligur Doomare/ þegar þier eiged hønũ
Reikningskap ad standa af Ordum og Giørdum/ sm̃ ad er hin allra herfe-
legasta og skielfelegasta Olucka. Hvad sijnest ydur þa christner Meñ/
mun þad ecke vera tilviñande ad þiggia eina Naaduga Refsijng af sijns
Fødur Hende/ & þoott hun ætte ad vara um̃ allañ vorn Alldur sm̃ mieg
skalldañ er til þss ad verda kvittur vid øll þau Oskep sm̃ ad dynia munu yf-
er Sælkiera Veralldar þssarar i Helvijte og Kvølunũ fra eiñe Eylijfd
til añarar. Gud Naade oss auma og synduga / vier berum opt og tijd-

um eina vanheila Sæl i heilbrygdum Lÿkama. Þegar Lÿkamanum lÿd ur vel/ þa hyrdum vier a Stundum lÿtt um̃ Sælena/ hver þo ætte ad sia bæde fyrer sier og hønum/ þvi bæde skulu þau hin sømu Kiør hafa um̃ alla Eylÿfd/ eñ ef hun lætur epter hønum þad hañ vill/ þa velltest hun miøg vr Tign siñe bædū þm̃ til Obætañligs Skada. Hver veit nema Prote Drambsemeñar edur Vatns Sÿke Agyrndareñar / edur Kallda Hoofsemeñar / edur Brioost Veike Ofundareñar / edur Dofe Leteñar/ edur Ade Reideñar og Heiptrækneñar / plage Sælu þÿna og þu fiñer þar ecke til. Varla er nockur sw Sæl a medal vor sm̃ ecke hafe Snert af einhveriu þssu / eñ Krosseñ er sw eina Heilsuboot sm̃ a vid øllu þvilÿku. Vid Lÿkamans Siwkdoomū eiga adskiliañliger Dryck er epter þvi sm̃ hverium er hættad / eñ vid Sælareñar Meinum a alle eina Kross Bikar DRotteñs JEsu/þott hañ sie beiskur nockud/þad ætte oss einu ad gyllda þegar hañ giører oss heilbrigda/ nema vier elskū meir Daudañ eñ Lÿfed/Soottena meir eñ Heilsuna/ Kroppeñ meir eñ Sælena/og er þad þo ecke ad elska hñ ad læta þad epter hønum sm̃ heñe mæ til Skada verda / þvi hañ skal þss eylÿflega Giellda hafa sm̃ hañ i þssu fra heñe dregur sier til Tÿmañligs og fafeingeligs Munadar. Þar fyrer ef vier elskum vora Lÿkame og þad svo miøg sm̃ ad sÿnelegt er a flestum/ þa giørum þad þo fyrer Fra Skulld / ef eige añars vegna/ ad vier þockum Gude fyrer þad hañ typtar þa hier svo Fr ecke sÿdañ mæte eylÿfum Plagum i Helvÿte/1. Cor. 11. Þar fyrer Guds Barn/ nær DRotteñs millda Hønd slær þig a einhvern Hætt til ad græda Sælu þÿna þar mz/þa tak ecke alleinasta þar a moot med Þoleñmæde/ helldur og þacka hønum fyrer þañ Nadargiørning ad hañ ecke vill yfer-giefa þig i frælleitt Siñe edur i Gyrnder þÿns Hiarta/ Ps. 18. Og ef þu villt þacklætur vera fyrer svo stoorañ Velgiørning þa sÿn þad i Verkunum er þu sæfar med Muñenū. Vier høfum alla Reidu heyrt nockud um̃ þad hvar til ad Gud sender oss Krosseñ / sm̃ er til þss ad vier eige skulum hallda oss saklausa/helldur betra vort Lÿferne. Svipstum þvi ecke Gud sÿnum Asetninge edur sialfa oss þeirre Nad er hañ hugde oss ad veita. O hversu illa er þa fared med þssa Heilsusamligu Guds

Nad/

Naad/ og hvad lytil Not munt þu þa hafa þiſ ſyndugur Madur er þu lided hefur/ Ja ſtoor Giølld / þvi þad er ad giøra DRottenś Kroſſ ad Kœningians Kroſſe/ þad er riett ſvo ſm̄ Petur ſeger/ 1. Pet. 4. Ad lyda ſvo ſm̄ Þioofur og Jllvirke / og ſvo ſem hañ ed fellur iñ i añars Embætte. Nallt þad og ecke noog ad þu læter af ad ſyndga þiſ vegna ad þu gieter ecke ſyndgad/ añadhvert fyrer Neilſubreſti/vegna Fatæktar/ edur fyrer Otta Saker vid Meñena. Þioofureñ ſtelur ecke helldur þegar hañ er bundeñ / og ecke fremur Noorkarleñ ſyna Gyrnd nær hañ er vte lokadur/ hvad ecke er fra Dygdum ad þacka/ helldur rañſaka ſialfañ þig / hvad þier mune hafa afbatt orded / hvers vegna Gud mune hafa lagt þeña Kroſſ a þig/ og munt þu þad ſkioott fiña þegar þu ſtyngur Hendeñe i þiñ eigeñ Barm / Exod. 4. Og nær þu þad fiñur/ þa Naad Boot a þvi/ ydraſt þiſ af Hiarta og frem þad alldrei optar/helldur bid Gud ad giefa þier Naad ſyna til ad ſtanda a moote þvilykre Synd/ Med ſvoddañ Moote verdur þiſſu Himneſka Læknar launad/añad heimter hañ ecke af oſſ/ þegar JEſus ſa þañ Mañ gangande i Muſterenu er hañ ſkomu adur hafde læknad hia Vatnenu Betheſda/ þa krafde hañ einkis af honum / helldur ſagde alleina / ſia nu ert þu heill vordeñ / ſyndga ecke framar ad ecke hende þig añad verra / Joh. 5. Þar fyrer chriſteñ Madur / hafer þu ſiukur vered / hafer þu ratad i Armood og Fiarmiſſu / hafer þu vorded fyrer Araſum og Ofſooknum Veralldar Maña / eñ ert aptur vordeñ fullhrauſtur / fullrykur / og hefur feinged Magt yfer Ovinum þynum þa gialld eige þa Vanþeck aptur a moote Gude þynum/ hver ed ſende þier Kroſſeñ til ad betra þig / og lietta hon um af þier til ad ſyna þier Giæſku ſyna/ gialld honū ecke ſvo illa (ſege eg) ad þu brwker Heilſuna til ad drya ſomu Synder med hveriū þu vanſt til Siwkdoomſins/ Audlegdena til Ohoofs og Metnadar/Valldid til ad hefna a þm̄ ſm̄ vid þig ofgiørt hafa / þvi ef vier ſlykt giørum / þa hefde þad vered betra fyrer oſſ ad vier hefdum leiged i Kør og lifad i Armood og Forſmaan alla vora Daga/ ſvo ad Saleñ hefde kuñad hoolpeñ ad verda a Deige DRotteñs/ 1. Cor. 5. Nu eigum vier ecke alleina ad lyta til Guds Fedurligrar Giæſku/ i þvi ad lyda þoleñmoodliga allt

þad sem han lætur oss til Handa bera / helldur og til hans Oraskanligu Speke og Vijsdooms sem ad yfergnæfer allan Skilning. Ein Fader kan ad vilia Barne sijnu vel / en brestr kan stie Vitzmune til ad sia hvad þui gagnar / og þo han bere Skyn þar a / þa blindast vor Skynseme optlega af holldligre Elsku / en vid þssu er ecke hætt hia hinum Alvijsa Gude. Þar fyrer lætum oss þad sagt vera ad þoott vier eige skynium tiie siaum Guds Tilgang / þegar han neitar oss um þa Hlute er vier Oskum epter / þa er þad oss til hins besta / og eckert kan fyrer oss gagnligra ad vera edur upp ad hugsast en þad sem hn lætur vid oss framkoma / ef vier giefum ossølldungis a hans Valld og lætum han rada. Israel beidde Gud um Kiøt i Eydemørkenne / Num. 14. Og han gaf þm þad til Hegningar þm / þr beiddu hn t um Konung / 1. Sam. 8. Er þm leidddest ad vera under hans allra Vijsustu og Nadugustu Stioornan / og han gaf þeim ein Konung i Reide sinne / Os. 13. Þar er eingen Efe a / ad ef Barned mætte sialft rada / þa fære þad sier optliga ad Voda / og eins erum vier fauvijser eins og Børn i vorum Andligum Efnum / vier Oskum oss Heilbrygde / Audæfa / Metorda / allt þetta eru ad sonnu Guds goodar Gafur / en skadsamar þm sem ecke kuna med ad fara / Svo ad Endurlausnaren seger / jafnvel ef þijn Hønd edur þin Footur hneixlar þig / þa snid þad af og snara þvi fra þier / þvi betra er þier halltur og Handarvane inn ad ganga til Lijfsins / en ad þu hafer tvær Hendur og tvo Fætur / og verder i eylijfan Elld kastadur / Matth. 5. Ad sønnu heimter eige ORottenn af oss ad vier svo stort Jrædumst vid hveria þa Tilhneiging er vier freistumst af / þvi hn hefur giefed oss ønnur Medøl til þss / ad Krossfesta Hollded mz / madr en til þssa kome / en þ er hns Meining helldur en ad vier skyldum i eilijfu Ellde pijnast / þa være oss þarfara ad lata Lijf og Limu. Hversu vijs t hversu Nadugur er þa hin Goode Gud ad han agar oss i Maata / og svo sm oss ad minstum Skada verda meige / til þess ad vier kunnum ad umflija Helvijtis Pijsler / en verda hluttakande Guds Barna Sælu a Himnum med honum eilijflega? Og i þessum Guds Oransakanliga Vijsdoome høfum vier jafnan eina stadfasta Huggun / þvi hans Giæska og Medaumkan verdur han alldrei vidskila.

Fyrer

Fyrer þui/ þott ad Mootlæted ofbioode oss a stunū/ ⁊ vier þolū varla under þui rised/ þa lꜳtum oss til Hugar koma ad þad er oss af hønum uppa lagt/ sm̄ veit hve mikels ad vier vidþurfum og þolū. Stoor Sꜳr þurfa mikla Grædslu/ eñ hñ er trwr og freistar einkis yfer Megn fram/ 1. Cor. 10. Ecke eitt Hꜳr fellur af voru Høfde an̄ hn̄s Vilia/ Matth. 10. Og miklu sijdur hefdū vier vid svo margar Þrauter ad ber, iast nema þ̄ være epter hans Skamte og epter hans Velþocknan. Vier þurfū og ecke ad efast um̄ ad vier fꜳum Mootlæted stadest/ þott all, drei þyke oss svo Ovænliga ahorfast þegar vier køstū oss i hn̄s Myskun ar Fadm/ og under hans blessada Umsioon og Fyrerhyggiu. Þar fyrer sagde David/ þo eg rꜳfe i myrkvum Dal ⁊ Daudans Skugga þa hræd, est eg einga Olucku/ þui þu ert hia mier/ þiñ Vøndur ⁊ Stafur hugga mig/ Ps. 23. Og Drottēn seger vid hn̄/ þott Þusund falle þier til an̄ar, ar Handar/ og tiju Þusund til hiñar hægre/ þa skulu þr ecke nær þier koma/ Ps. 91. Svo øruggur Kastale er Drottēn þm̄ ed hn̄ otfast/ jafn, vel midt i Hørmungunū/ og þad geingur til eins og hn̄ sagde vid Lære, sveinana hier i Gudspiallenu. Iñan lijtils Tijma munud þier ecke sia mig/ og aptur iñan lijtils Tijma munud þier sia mig. Og svo sm̄ ad Læresveinarner skildu ecke i þ̄ siñ hvad hn̄ sagde/ helldur uppfylltest frra Hiarta af Hrygd/ af þvi ad hn̄ sagde þad/ Svo geingur þ̄ og til fyrer Guds Børnū optlega i Mootlætenu/ ad þau meina ad þau sieu yfer, giefeñ/ eñ samt heyrer hañ þeirra Grꜳtbeidne/ og frra Bæn er þockn, anlig fyrer hønū/ eñ hn̄s Tijme er eñ þa ecke komeñ/ Joh. 2. Hvert helld ur ad eg lijt þeña fagra Heim sm̄ ad er harla goodur svo sem øll Guds Skiepna/ edur eg þeinke um̄ hiñ Ogudliga sem Diøfulleñ hefur tilbw, ed og nidursøckt i hid vonda/ þa kañ eg hverke ad ørvænta i Mootgang enū / eige helldur ad efast um̄ Kvittun miña Synda sem eru Orsøk til Mootlætesins/ þviad i hinum og jafnvel a hinu miñsta Skrid. Kvikinde sie eg augliooft Dæme hiñs Guddoomliga Almættis/ Speke ⁊ Giæsku/ ad þvi er øllu: af hønū svo vijsliga stioornad og nidurskickad/ ad hn̄ þvi øllu vid Magt helldur/ hveriu i siñe Tegund fra Heimsins Upphafe i svo mørg þusund Ar/ ad þar er ecke ein eñ nu undergeingeñ/ og svo veit

eg þa fyrer vyst ad hönū er ecke um̄ Megn ad vardveita mig syndugañ Orm sim̄ ad epter hn̄s Mynd var i Adam skapadur/Gen. 1. og med hn̄s Sonar Dyrmætu Bloode endurleystur/1. Pet. 1. jafnvel midt i Sorgunum/midt i Armæsunum/ midt i Saalar e Lyfs sterkasta Ofbode ef hn̄ vill lata þad yfer mig koma. Eñ nær eg þeña fyrer mier virde og allar þær Odaader sim̄ af hönū i frame eru hafdar/ Villur/Meinsære/Gudlastaner/ Mañdrap/ Hoordooma/ Lyge/ Þioofnad/Ofbellde/Rangsleitne/ og alla þa Ohæfu er Sathan fær plantad i Hiørtum Vantruareñar Barna/ þa tek eg mier þar af Huggun og fullnadar Traust/um̄ hins myskunsama Guds Føðurliga Giæsku/ ad hañ ecke kollsteyper þessare vondu Verølldu/ helldur med Ryfdoome syns Langlundar Gieds/ Rom. 2. Vill leida svo marga til Yfirbootar sem aptur snwa vilia. Þvi veit eg ad hn̄ mune ecke Utskwfa mier Overdugū Synda Þræl/ edur lata mig einañ i Mootlætenu/þoott þad sie Straff miña Synda og Illgiørda/ þar eg læt mig fyrer Krapt hañs Anda vel af Hiarta ydra Synda miña / og a daglega Baraattu vid eitt Ofyrelaatt Holld sem kiepper i giegn Andanum/Gal. 5. Þvi hafe hañ veitt mier hid meira/ sem er ad ydrast Syndaña þegar eg var eñ þa Sathans Barn/ þa mun hañ ecke synia mier hins miña/sim̄ er ad vardveita mig i Mootgangeñi þar eg er hañs Þienare vordeñ fyrer hañs Naad / hveria hañ ecke hefur giefed mier til þess ad hun skyllde a mier Onyt verda/ helldur til Lofs og Dyrdar sialfum sier / eñ mier til eylyfs Saalar Fagnadar. DRotteñ sagde Læresveinunum fyrerfram þessar Hørmungar/ af hveriu medal añara sia ma hn̄s Guddoomligañ Vysdoom e. Giæsku ecke miñe/ Heimureñ seger alldrei nema Ogiæfu fyrerfram/jafnvel þoott hun sie hönum vyss svo vel sim̄ øllum þeim er hañ elska/ hañ Predikar eins og hiner Ogudligu/ Prov. 1. sem Von er a/ þvi hañ er ecke añad eñ Samkunda/ Apoc. 2. Andskotans/ er hañ hefur safnad sier af Guds Utløgum og Ogudlegum Synda Þrælum / þer segia far þu med oss vier vilium fiña miked Herfang og aller eiñ Stad hafa/ Prov. 1. Eñ ecke leggia þer til hins ad þer skulu og aller eitt Hlutskipte hafa i þvi Dyskenu sem vellur af Ellde og Breñesteine/Apoc. 21. Þad vill ecke DRotteñ / hn̄ sagde fyrerfram

fyrerfram bæde hier og optlega aňarsstadar Læresveinunum hvad a fra Daga drijfa munde / og hid sama hefur haň ollum þeim sagt er hønum vilia Eptersylgia med þssum Ordum: Hver sm vill miň Læresveiň vera haň take siň Kross uppa sig og fylge mier epter / Matth. 16. Eckert er þvilijkt Rad vid Mootgængenum svo sem ad bwast vid hønum / sa sm þad giører Daglega haň hefur myklu liett af Byrdeňe nær hun dettur a Bwumst vid Illu / þvi hid gooda skadar oss ecke / segia Meň i gomlu Ord tæke / J Dag em eg heilbrygdr / eg vil þeinkia med mier hverneg eg verda munde ef eg vanheill yrde / eg vil venia mig a ad læta eige allt epter mier þad mig gyrner / svo mier bregde sijdur vid ef þad kyňe mier ad Hondum koma sem eg giæte ecke af mier kastad þoott eg villde. J Dag em eg fullrijkur / eg vil þo brwka Heimeň svo ad eg ecke Vanbrwke haň / og svo miked af þvi sem Gud hefur lanad sem mier næger og mier soomer ad brwka / þa skal Fatæksteň alldrei kasta mier i neitt Hugar-Vijl ef eg kaň i hana ad rata / Eg vil hyrda þ Gud giefur eň ecke festa þar vid Hiarta mitt / þa mun mier þ'ykia miňa fyrer ad missa þad. J Dag ræd eg fyrer ødrũ svo ad aller hlijda m̃ynu Bode og Baňe sem eg er yferskipadur / þad Valld vil eg brwka i Hoofe ẽ ecke med Ofsa neinum / þvi þar kaň ad koma / ad þr ræde fyrer mier ẽ kyňe eg af þm̃ nockurn Ojøfnud ad þola / þa lijd eg hn̄ med betre Samvitsku / hafe eg ecke ædur til hn̄s uňed. Svo skal Madr bwa sier i Hageň / a medaň allt leikur i Lynde / kome þ ecke uppa er vier Rad fyrergiørum / þa er þvi Omake vel spillt / Alldrei visse eg Abata meire Skada / þvi ad minsta koste hugsum vier eige svo Jllt a medaň / og Lijklegt er ad vier munum ecke stæra oss svo mieg af Velmagteňe þegar vier bwumst vid hverutveggiu. Nu þoott ad allt þetta sm eg hefe sagt eige ad styja oss a ad lijda þoleňmoodliga þaň Kross er Gud oss a Herdar leggur / þa er þo ad hroosa þeirra Kiørum fram yfer alla Drotteňs Krossberendur / sm ecke einasta taka a moote hn̄s Ogun an Moglunar / helldur og hafa Glede og Ynde af þvi ad lijda nockud fyrer Christi saker. Eg vændest i Upphafe Ste Pals Ordum ad haň skrifar / Gal. 6. Þad verde mier ecke ad eg hroose mier af nockrũ Hlut / utaň af Krosse Drotteňs vors Je-

su

ſu Chriſti. Þegar Paall brwkar þetta Ord ſem hier ſtendur ad Hroo-
ſa/ þa merker þad ecke ſvo ad ſtæra ſig aff einhveriu / ſvo ſm ad ꝼagna
og glediaſt aff þvi/ ꝛ ad haꝼa Ynde þar aff. Sama Orda Tilfæke brwk-
ar hann/ Rom.5. segiande : Og ecke einaſta þad helldur hrooſum vier oſſ
eirneg edur gledium oſſ aff Hørmungunum/ vitande ad Hørmungenn verk-
ar Þolenmædena/ enn Þolenmædenn Reynſluna/enn Reinſlann Vonena/enn
Vonenn lætur alldrei til Skammar verda/ þviad Elſka Guds er wthellt i
Hiørtum vorum ꝼyrer heilagann Anda ſm oſſ er gieꝼenn. Þetta eru merke
leg og gullvæg Ord/ ſieu þau rieff yꝼervegud. Hvar ꝼyrer gledur hn ſig
i Hørmungunum/þviad Elſka Guds var wthellt i hns Hiarta fyrer hei-
lagann Anda ſm hønum var gieꝼenn. Heyrum þ Endurlauſnarenn ſagde
vid ſyna Læreſveina. Eg ſkal ecke lata ydur Munadarlauſa/ helldur ſkal
eg ſia ydur aptur/ Joh.14. Þad giørde ſa bleſſade Herra ad ſenn eptter
ſyna Vppriſu/enn hns ſyneleg Viſt med þeim/droo þa ecke langt a Veg
heꝼde hann ecke ſendt þeim H. Anda aꝼ ſynu Fødur/ Þvi ſagde hn/ Þad
batar ydur ad eg fare i burtu hiedann/ þvi nema eg ꝼare i burtu hiedann/
kiemur ecke Huggarenn til ydar. Þeſſe er hinn ſame H. Ande fyrer hvern
ad Paulus ſeger ad Elſka Guds ſie wthellt i ſitt Hiarta/hun giører Chri
ſti Ok ſætt/og hanns Byrde lietta/ Matth.11. Hun velldur þvi ad hns
Bodord eru ecke þung/ 1.Joh.5. hun deyfer alla Kvøl/alla Hrygd/ alla
Armædu Veralldar þeſſarar/ ſa ed hana heꝼur ꝼyrſt odlaſt/ hann þarꝼ ecke
Mootlætenu ad kvyda/hn ſootttredur allar Hørmungar/hønum er Heim
urinn Kroſſꝼeſtur og hn Heimenum/ þ ſie eg berſynelega a Chriſti Poſt-
ulum er þr voru glader aꝼ þvi ad þeir mattu lyda ſyrer JEſu Naꝼns
Skulld/ Act. 5. Þad ſie eg a hanns H. Pyſlarvottum langt fram eptter
Kꝼe Chriſtnennar ad þr geingu til herꝼeleguſtu Kvala ꝛ Pyſla miklu glad
are helldur enn adrer til Gieſtabods. O HErra Gud/fagurt maa þeim
vera Himna Ryke a ſydann/ hverium Gud er ſvo ſætur midt i Hørmung
unum/ ad þr ꝼinna ecke til ꝼra fyrer Elſkunne til hanns ſm typtar þa. Ad
þetta ſien ecke Ykiur/ helldur ad þvilyker Guds Viner ſieu til / þ votta
eg med Paals Ordum er hann ſeger/ 2.Cor .12. Eg em vel til Frids i
Veikleikanum i Forſmaanenne / i Naudunn/ i Oꝼſookuunn/ i Angiſtenne
fyrer

fyrer Christum/ þvi þa eg em veikur/ þa em eg mattugur/ og þ. er þ sama sm̄ DRottenn heiter hier Læresveinunum er hn̄ sagde: Ydar Hrygd skal snwast i Fognud. Ecke meinte hañ einasta þa Sælu Von er þr attu vyssa med honum eylijflega i hañs Dyrdar Rijke/helldur og Huggun Guds Anda i Mañraunonum/ þvi alldrei voru þr an Mootlætis hier a Jordune/ og samt skrifar Paulus / ad þr sieu svo sm̄ hryggver og þo jafnañ glader/ 2. Cor. 6. Nu þoott oss vante miked a ad vera svo algierder i Elskuñe til Guds sm̄ þssar DRottens Nekiur voru/þa eigum vier samt ad kieppast epter þra fullkomnu Dæme svo miked sem oss er moguligt / og hugga oss i ollum Mañraunum vorum vid epterkomande Sælu / vitande þad ad hin lietta Byrde Hormungareñar sem varer um̄ Augnablik / hun ablar oss yfergnæfañligrar Dyrdar eylijfrar Þyngdar/ 2. Cor. 4. Og þetta er þad Paalus seger/Rom. 5. Er eg strax aminntest ad Þoleñmædeñ verke Reinsluna/ Reinsluñ Vonena/eñ Voneñ late eige til Skam̄ar verda/Hvar fyrer? Þviad Trweñ/ er Voneñe jafnañ fylger/hun er Vera þra Hluta sm̄ koma skulu/ Heb. 11. Hvers vegna þr ed bera Christi Ok/ þr eiga vyst Himnarijke/ þ er Pantz epterkomande Farsælldar/ vid hvern hñs Brwdur gledur sig/þar til hñ kiemur/og Iñleider hana i Lambsens Brwdkaup/svo þegar hun hryggest af Mootlætenu/þa gledst hun eins miked edr meira af þrre Dyrd sm̄ vid oss mun framkoma i eylijfu Lijfe / hvertar eige eru verdar Mootlætingar þssara Tijma/Rom. 8. Þetta wtmalar vor Lausnare med nærsta fogru Dæme hier i Gudspiallenu/þar ed hñ seger: EIn KOna nær hun skal Fæda/ þa hefur hun Hrygd/þviad Heñar Stund er komeñ/ eñ þa hun hef ur Barned fædt minnest hun ecke þess Harmkvælis fyrer Fagnadar sak er/ þviad Madur er i Heimeñ fæddur. Hvad viña Meñ ecke i þssum Heime fyrer Veralldar Nægtingia og þad fyrer lijtil og Ovisst Laun? Sa margur vogar Lijfenu og kañskie siñe eylijfre Velferd a Stundum/og endest ecke til ad niota þss er hañ ætlar sier til Launa. O Guds Born/ þvi skylldum vier þa telia epter oss ad lijda nokud fyrer Himnarijke / fyrer hin eylijfu Launeñ / fyrer þad dyrmæta Hnossed af hveriu þr allrei sleppa kuña sm̄ riettelega Skeided hlaupa? 1. Cor. 9. Fyrer hina

 kostuligu

kostuligu Rietflætesens Corony/2. Tim. 4. Sem þm er opsþdis legd er ÿþa bareft goodre Barattu / halldeð Trwñe og goodre Samvitsku? Eiñ Nadur sa ed situr i Tign og Neidre Mun hñ ecke þacka sÿnu Fodur ad hñ heþur hñ svo vÿslega uppaled/ad hñ ma reiknast Frá Aru verdnr a sÿnum fullvordeñs Alldre? Mun hañ nockud telia þau Vandar Noggeñ er hañ heþur sleigeñ vered? Og hversu ættu vier þa allar þacker ad kuña vorum himneska Fodur sa ed tuktar sÿn Børn upp til eylÿfs Lÿfs/ til himneskrar Konungs Tignar/til ad liþa og rÿkia med hønum eylÿflega? Nver mun þa miñast Frá Taraña sm hañ heþur fellt i þessum Eymdardal/nema hañ sm ad heþur hellt þm i sin Sioòd/Ps.56. Og þa alla Reidu þerrad þau ap siña Barna Augum / Apoc. 7. Þa mun þad verda uppskored i Oyrdeñe sm hier var sad i Normungeñe/ Ps.126. Þa mun þeirra Gledesaungur þagurt læta i hiñe biertu Jerusalem er Guds Oyrd upplioomar/ Apoc.21. Nverra Op og Veinan ad Neimsens Børnum var til Spotts og Adhlaturs hia Sorgar-Vøtnunum i hiñe dimu Babilon/ Ps. 137. Verølldu þssare. Nverrar Aru og Vegsemdar oss uñe ad niota hin blessada Guddoomsins Preñing þyrer JEsu Christi Bloods Krapt og Forþienustu/ AMEN.

# A þañ Almeñeliga Bæna Dag.

## Pistilleñ/ Esaiæ 55. Cap.

Leited DROTTeñs a medañ Nañ er ad þiña / kalled A Nañ a medañ Nañ er nalægur. Sa hiñ Ogudlege læte ap sÿnum Veige / og Illvirkeñ ap siñe Nuxan og snwe sier til DROTTeñs/ þa mun Nañ Myskuna hønum/ og til Guds vors/ þviad i hia hønum er mikel Fyrergieþning.

## Exordium.

I Gamla Testamentenu tilsette DRottañ eina Nætÿd sem halldast skyllde Arliga i hinu siøunda Manade / og a tÿunda Deige sama Manadar er Meñ sÿdañ kallad haþa Nreinsunar Nætÿd. A þm

Dege

Dege var boded ad Israel skyllde pyngia Sæler sijnar / pad er sialsa sig svo sem þar um̄ ma lesa / Levit. 16. Þesse Natiyo er ad sønu aptekeñ i Nyia Testamentenu med øllum sijnum Foornum. Oss næger sw eina og algiørda Foorn sm̄ einusiñe er iñboreñ i pad allra helgasta aþ hinū Yppærsta Biskupe Sælna vorra / Ebr. 9. Eñ samt er þo Ydraneñ fyrer Synderuar ecke aþtekeñ / svo leinge sm̄ vier ecke leggium aþ ad Syndga / svo leinge meigum vier ecke leggia aþ ad ydrast / eñ pad mun ei verda fyrr eñ Lykame Syndareñar verdur mz øllu aþmadur / Rom. 6. Þvi ætte med rieltu allt christens Mañs Lijþ ad vera ein Hreinsunar Natiyd / edur ad minsta Koste ættum vier ad gieþa oss nockra Stund a hverium Dege til ad ydrast og jæta Synder vorar. Sa sm̄ ætlar sier ad syndga nær Syndeñ flijgur hønum i Hug og ydrast sijdañ / hañ er ecke betre eñ sa sm̄ ætlar ad draga Ydranena undañ til Daudans / þvi hañ veit ei nær hañ deya mune. Nu erū vier oss medvitande þss Brædur mijner / ad þar falla svo marger Dagar wr hia oss / og kañ skie þvi verr ad nockrer þeinkia hier allsialldañ til / þvi er nu þsse Dagur aþ Konungenum tilsettur / ad hañ sie vor Føstu og Bæna-Dagur. Gud giæþe ad hañ være þar epter halld eñ aþ oss med allre Gudrækne svo sem hañ er Naudsynlegur / og ad ecke syndust þr sm̄ giøra Nad wr Føstuñe / mz hverre þo Guds heilager Meñ haþa þreyngt Bænū sijnum i giegnū Skieñ fordum Daga medañ Guds Foolk hiet Guds Foolk z Christneñ Christne / eñ sijdañ hun hiet Loami / pad er ecke mitt Foolk / z Meñ yfergaþu blūlitanda Gud / margur hver / eñ giørdu Magañ ad sijnū Gude / þa er Fastañ vordeñ ad Athlætre / svo vel sm̄ øll Alvørugieþne i Guds Þioonkan / Meñ hallda epter Blodunum eñ haþa slept Avextenum / svo David munde segia eþ hañ nu liþde / eg hulde mijna Sælu i Føstū og pad vard mier ad Brijxle / Ps. 69. O oss aumar og Ræmulausar Mañeskiur / mun hønum Fastañ mislijka? er seger hia Joel / Cap. 2. Snwest til mijn aþ øllu Hiarta med Føstū og Grate og Harme. Og svo ad þier vited ad pad ecke er ødruvijs i hinu Nyia Testamentenu / þa vil eg spyria ydur ad hvert Gude mune ecke haþa þocknast Fasta Cornelii sem var heidiñ Madur? er hañ sagde vid Petur / Act. 10. Nu er alla Reidu hiñ fioorde Dagur ad eg heþe fastad / og er

eg beiddest þyrer um̃ þina nijundu Stund i mijnu Huse / þa stood hiaa mier eiñ Madur i hvijtu Klæde er sagde vid mig / Corneli þiña Bæna og Olmusugiørd er miñst i Guds Auglite. Mun Endurlausnarañ haꝼa þott Fastañ Onyt? Er hñ sagde vid Læresveinana þegar þr gaatu ecke utreked Tunglmeina Diøfulen/ þetta Diøfla Kyn verdur ecke utreked nema med Føstum og Bænahallde. Verde Diøfullen utrekeñ af ødrum med Føstum og Bænahallde/ Matth. 17. Þvi skylldu Meñ ei kuña ad reka hañ ut fra sialfum sier? Verde Diøfulleñ utrekeñ med Føstuñe / þvi skylldu Meñ þa ei kuña ad faa Gude Iñbygt med heñe? Þvi þad er vijst ad hvadañ sem Sathan er utrekeñ / þar vill Gud bygg-ia/ þetta sege eg ei fyrer þess vegna ad Fastañ viñe til nockurs i sialfre sier/ eñ þad vitnar allt Guds Ord ad Bæneñ verde kroptugre fyrer hana / Fastañ maa eckert an Bænareñar/ Bæneñ verkar optlega an Føstuñar/ Fastañ hialpar til ad drepa hiñ gamla Mañeñ sm̃ er Andskote Bænareñar ꝛ alls Gudrækeligs Framferdis/ sie hun ecke i þeirre Veru giørd / þa er hun Hræsne. Heyrum hiñ gamla Syrach hier um̃/ sa sem þvær sig epter hiñ dauda/ og snerter aptur daudañ Mañ til hvers gagnar hañs Þvottur? Syr. 35. Svo er og sa Madur er fastar i sijnu Syndu/ og gierer aptur þær somu/ Hvad vañ hañ med þvi? Ad hñ audmykte sig/ hver mun heyra hñs Bæn? Esaias kieñer oss i upplesnum Pistle hverneg fyrer soñu Føstu eige Hattad ad vera / sem er ad hiñ Ogudlige faste frer sijn vond Verk ꝛ Illvirkeñ fyrer sijna Hugsan/og þañeg skipar hñ DRottens ad leita. Vil eg þvi ut af þessum Esaiæ Ordu̇ hugleida ad þessu Siñe hverneg vier eigum ad leita Guds hvern vier svo margfalldliga styggt hofum. Hialpa oss O HErra til ad giøra svo þetta þitt Verk/ ad vier þig funded og fundnum halldet giet um. Bænheyr þad goode Gud fyrer JEsum CHRistum/ A M E N.

Utleggingeñ.

HVerneg vier eigum DRottens ad leita/ þarf ecke langt epter ad leita/ þad seger sialfur Drotteñ oss/ Jer. 50. med þessum Ordu̇. A þeim Døgum skulu Israels Syner koma med Børnum Juda/ þr skulu ganga an Aflaats Grætande ꝛ leita Drottens Guds sijns. Gydingar leitudu

leituðu hňs a hǔns ſiðurſtu Kvalaña Noktu med Sverdum og Stauñgū/ med Lyktum og Logbrondum/Matth.26. Vier ſkulū ei, paňeg leita Drottenſ ſm̄ medkieñū ad vorar Synder haþa kvaled hñ ſm̄ var þra ſkil- eñ Syndurunum/ Ebr.7. Hverneg ſkulum vier hňs þa leita? Med Harmþrungnum og Sundurknoſudum Anda/ þad er med ſañre Ydran. Vegeñ vitū vier ad ſoñu aller til Christum/ eñ þad fellur ecke ellū ſvo liett ad ganga hñ. Eina Christelega Ydran er hægt ad neſna/eñ þ veitet mørgum bægt ad giøra hana/ ſaþnvel þoott oſſ breſte allðrei Eþne þar til/ ſm̄ eru Synder vorar og Ranglætingar / er Dagliga ſtīga upp i Himeneñ þyrer Gud. Margur lætſt ydraſt og ſæta ſſinar Synder fyrer Gude/ Eñ eg Ottaſt ad þegar Gud lijtur aþ Himnum oþañ yþer Mañ- aña Sonu/ þa mune hñ þiña ſvo marga Pharaos/Exo.20. Sauls/ 1.Sam.24. Jeroboams/1.Reg.13. og Achabs/1.Reg.21. Ydrañ/ þad er Nytut þyrer utañ Kiarna/ Sky þyrer utañ Vatn / . Viſnadar Eykur Avoxtarlauſar tviſvarſiñum upprættar ſvo ſem Judas Poſtule ad Orde kiemſt i ſiñū Piſtle. Eñ Davids/ 2.Sam.12. Joſua/ Joſ.7. Ezechia/Eſa.38. & Peturs/Matth.26. Slíkar munu þarre vera/hvad Gud Nadarſamliga betre. Hvad er þ þa Brædur M. ſm̄ eins christ- ens Mañs Ydrañ a ad haþa til ad bera? Tvent er þ fierdeilis. 1. Ad hun ſie heil og alvarlig. 2. Ad hun ſie ecke oþſein. Hvad hinu þyrſta vidvikur/ þa veit eg ad ſoñu ad hiñ Naduge Gud þiggur opt aþ oſſ Viliañ fyrer Verked/ þvi hañ þecker vorn Vanmatt og Oþullkom- legleika/ Eñ i Ydranar Verkenu heimter hañ aþ oſſ ad vier þramleggiū allt þ vier tilhøþum og drøgū ecke aþ. Sa ſm̄ kiemur þram̄ þyrer Gud til ad ſæta ſſinar Synder/og ad bidia um̄ Kvittun a þm̄/og ecke ræheller ſſnu Hiarta af fremſta Megne þyrer þonum/ ecke lætur Sælar og Lijk- amañs Krapta verda Samtaka i þvi ad ſundurmeria ſitt Hiarta m z Jo- hugan ſiña Illgiorda og Guds Giæſku/ ſſns Toomlætis og hňs Riett- lætis/ ſiña Lijſta & Helvijtis Eldz ſm̄ þau haþa þorþienad. Eg veit ecke ſege eg/ hvad miklu bañ er betre eñ Ananias og Saphira ſm̄ leyndu af Verde Akurſins/ Act.5. þvi eins og þau lugu ad heiløgū Anda er ſkynbarliga bioo i Poſtulunum/ ſvo mætt þu og vita/ad nær þu kiem-

ur i þiñ Bænastad/ þa stendur þu i Guds Auglite sem alla Hlute sier/ og jafnvel hin iñstu Filsne þijns Hiarta rañsakar. Gabba þvi ecke Gud med toomre ytvortis Negdan/ þvi hañ lætur ecke ad sier hæda/Gal. 6. Og hafe þig sa Glæpur nockrñ siñu hendt/þa vit ad þad er ein hroopleg Synd i Guds Auglite/ ja stærre eñ allar þijnar Synder/ þvi hun apturhelldur øllñ hinñ er þu ætter ad afþvo med heitum Ydrunar Tarum. Giør þvi Ydran i Nafne Drottens/ giør Ydran sege eg/ og lat þig angra þ af Hiarta ad þu hafer kastad Hondunum til svo veglegar Guds Þioonustu. Villt þu vita hvad mikla Ydran ad Gud heimter af þier fyrer Syndena/ þa vill hañ ad Beiskia Ydranareñar skule samsvarast Stærd Syndareñar / þar fyrer/ nær þu med sialfum þier les þitt Synda Registur fyrer Gude/ þa hugleid hve miked Gaman edur Glede þu hafdet af sierhverre Stoor-Synd sem þig rekur Miñe til/ og bid Gud ad sla a Hiarta þitt med Moisis Sprota/ ad þu meiger hryggiast svo miked sem þu gladdest ædur/ og verder þu hier um Bænheyrdur/ sem an alls Efa verdur ef þu bidur heitt/ bidur Idulega/ Joh. 16. og bidur i JEsu Nafne/ þa munt þu einkis Imissa/ þvi sw Glede er þu af Syndsamligu Athæfe hafdet/ og ablade þier Hrygdar i Guds Auglite sidañ/hun mun þier med einñ ædre og meire Fognude endurgolldeñ verda/ nær þu fiñur ad þu ert koittur vid Gud/ eñ sloppeñ wr Diofulsins Nete. Þess gietur Paulus / 2. Cor. 7. Þier erud epter Gude hryggver vordner/ svo þier hafed eingañ Skada af oss feinged/ þvi sw Hrygd sem epter Gude er/ hun verkar Ydran til Hialpræðis/hverrar ei þarf ad ydrast. Þegar þier vilied ydrast Brædur miñer/ og þier setied ydur uppa Doomstool ydar Hiarta til ad dæma sialfa ydur svo þier verded ecke af Drottne dæmder/ 1. Cor. 11. þa ælsted ecke Syndena epter Mañligum Þanka/ Vier fyrergiefum oss alltijd nockud sialfer/ og fiñum eitthvad til Afsokunar. Konañ bar Søkina uppa Ormeñ/ eñ Madureñ gaf Konuñe Skulldena/ Gen. 3. Aaron seger/ Eg kastade Gullenu i Elldeñ og þar af vard þesse Kalfur/ Exo. 32. Eins erum vier aller Skape farner eñ nu i Dag ef vier lætum oss sialfrada/ og vilium ecke lata Guds Anda vid oss rada. Metum þvi ecke Synder vorar epter

vorum

vorum Þootto/ helldur epter hans Heilagleika/ hans Riettlæte mooft hverium þær giordar eru. Mefum þær epter JEsu saru Pyslu/epter þvi Lausnargiallde sem Gud heþur loked i voru Hollde/ þa munū vier sia hvad reidur Gud er þm̄ Syndunū sm̄ oss jaþnvel þyker lijted i-spun-ed a stundū/ Þoott allur Heimureñ plyte i Tarū um̄ allañ siñ Alldur/ þa megnade hañ ecke hina minstu Synd ad hreinsa i Guds Auglite/ ne-ma hñs Sonar Forþienusta giorde þau gylld. Svo stoor/svo aþskræmi-leg er Syndeñ fyrer hñs Doome eñ Christs Forþienusta verdur eing um til Lids/ nema þeim sm̄ aþ Hiarta lætur sig angra Syndena/ ætla þvi ecke ad þu muner komast aþ vid Gud m; einfoomis Jatningu Muñ sins/ nema Hugur fylge Mæle. Sa sem alleina jatar Syndena med Muñenum/ eñ angrar hana ecke i Hiartanu/ hñ er eins og sa er tekur Viñbudernar aþ Sarenu / eñ leggur ecke Plastureñ þar vid. Guds Sonur er ad soñu i Heimeñ komeñ til ad lækna þad sundurknosada/Esa. 61. Eñ hvernig a hñ ad lækna þig Barn mitt ef Hiarta þitt er heillt & Obroted. Þar er eiñ Gull-Kalþur nærre þvi i hvers Mañs Hiarta/ þ er Veröllð þesse sm̄ ad sierhver aþ oss hefur eiñhvern Atrunad a/ epter þvi sm̄ hver er Lyndur til/ og jaþnvel þeir sm̄ Gud elska vilia/þeim er eins hattad og þeim/ er ad soñu tilbadu Gud i Jerusalem eñ oþþrudu þo a Hædunum/ 1. Reg. 22. Svo er þ þyrer oss aumum Moñū/ vær segium̄st lata Gud ganga þyrer/eñ þlester aþ oss haþa þo einhveria Nia-Tru/ sumer Rijkdoom/ sumer Metord/ og sumer Munade sijna / og a medañ vier hoþum þa fram-hia Gude / þa er hætt vid ad vier ecke aþ Hiarta ydrūmst/ þvi eigum vier ad breita vid þa eins og Moises giorde vid Kalþeñ/ hañ brende hañ til Osku/ kastade henum i Vatn/ og liet allañ Jsrael drecka hañ i sig til Blygdunar sialfum þeim/ ad þeir hoþdu teked Egyptalands Sugvirdingar framhia hinū liþanda Gude/Exod. 32. Svo eigū vier ad hondla vid Rachels Skurgod þeim er hun situr a og leyner / Gen. 31. þad eru Heimuglegar Syrnder Salna vor-ra / sem ecke eru audsienar ollum. Vier eigum od lata Moisen breña þær til Osku m; Elldingunū aþ Sinai/ & kasta þm̄ i Flood vorrar Jdranar Tara/ og drecka þær sialþer upp svo þær hverþe/ Exo. 32.

Alldeilis/og verde ad eingu/ þ vardar ad litlu hvort vier stondū rauder eþ Hvitdingu i Guds Auglite med Ephraim/Jer. 31. Hvi hn̄ sier þær hvert stia er / Laban og Jacob kunnum vier ad pretta/ Gen. 31. Enn ecke Jacobs Gud/ Ps. 94. Hvi hn̄ er Hiartnaña og Nyrnaña Rañsakare/ og sier hvad i Myrkrunum er huled. Sundurrijfed ydar Hiortu / og ecke ydar Klæde seger DRottenn/Joel. 2. Gydingar plogudu aþ hm̄ Dog um ad rijfa sijn Klæde nær þm̄ rañi Skap / aññadhvert þegar þeim bar nockur Sorg til Handa/edur þr vandlættu i Guds Stad/eins z Hræsn arinn Caiphas lietst giora/ Matth. 26. Enn hver Sorg skyllde oss meire tilfalla enn sw ad vier hofum hinn gooda Gud stygdann/ um hvern skylldū vier meir vandlæta enn um sialfa oss / þvi eingum erum vier svo margs Jlls medvitande/eþ ecke i Verkunū og Ordunum / þa samt i Hugreññingunum. Eitt sundurrifed Fat gagnar til lijtils/sundurrijfū vor Hiortu med Ydraneñe/ og þa munum vier finna ad jafnvel vort Rietlæte er ecke betra enn nidlags Fat sem Esaias votkar /Es. 64. Þa munum vier hvad best wtlijta i Guds Auglite. Þegar vier athugum hvar fra vier erum fallner/ þa mun hann giefa oss eitt nijtt Klædnad / svo ad Nijnkun vors Fatleysis ecke sjaest. Nu er þad ecke noog ad Hiarta vort klædne fyrer Gude um Stundarsaker eþ vier hverfum so aptur til somu Synda/þa vill þad lijted gagna ad vier hofum audmykt oss fyrer Gude. Þeirre Ydran er illa vared sem leggur Mañenum alleina uppa Hrygdena enn ecke burt tekur Sektena. Enn vid þad er ecke ad dyliast Br. M. ad þre Ydran er svo hættad sum leyfer Mañenū ad vellta sier aptur i sama Saur. Sa hinn Ogudlige læte aþ sijnum vondū Vege/ og Jllvirkenn aþ sinne Hugsan og snwe sier til DRottens/seger Textenn. Hier er þad ad merkia Born mijn / ad Spamadurenn kallar ecke ad Menn hafe snwed sier til DRottens nema vier tokū vora Jllsku Breitne fra hns Auglite. Þad er alkunnugt hversu ad hinn Gudlause Amon Sonur Davids Konungs breytti skomarliga vid Systur sijna Thamar / ad hann rak hana wt aþ Hwsenu/ er hann hafde vanbrwkad hennar Lijkama/ 2. Sam. 13. Enn so eigum vier eins vid Syndena ad breyta/ þvi hun er ecke betra verd/ vier heckium ecke hennar Lijte fyrer Blindū Hollдsens/fyrr enn Guds Ande rid-

ur

ur Smyrslum Ydrarnnar eñar a Augu vors iñra Mañs / Apoc. 3. Eñ
nær hañ svo giort hefur / og vier fyrer Naad Guds fechium vora Blygd-
an/ þa eigū vier med ollu ad rydia Glæpunum burt wr Hiortum vorum/
og eingu ad leyna af þui Sathans Herfange sem Gud hefr belvad/ Jos.
6. Helldur breña þad upp til kalldra Kola/ ad svo miklu Leite sem mogu-
ligt er i þessum daudliga Lykama/og Guds Giæska fær i oss verkad. Og
fyrer þui ad þessu er soo vared/ þa eigum vier Daglega ad endurnyia vora
Ydran / þui Daglega a hiñ gamle Adam i oss ad dreckiast og deydast.
Ecke sege eg þad ad Meñ giete Syndlaust lifad / þad er Guds eins ad
syndga ecke/ eñ þ er Gudhræddz Mañs ad ydrast Syndareñar og ræda
Boot a heñe / eñ Gud tilreiknar ecke þeim sem eru i Christo þær Synd-
ernar sem ad Oviliaedur Mañligum Breiskleika kuña ad henda oss / Hitt
vill hañ ad Meñ skule daglega ydrast/ þui daglega syndgum vier og for-
þienum ecke añad eñ Strafs. Gud hiælpe oss/ ef vier segdum ad vier
hefdum ei Synd seger Johañes / 1. Pist. 1. Þa dregum vier oss siælfs
er a Tælar/og Guds Sañleike er ecke i oss/ Ja allt vort Lyf er ei nema
Synd være þad ecke bætt fyrer Guds Sonar Dauda/ þegar vier hugdū
ad lifa eiñ Tyma syndlaust æfram/og vier lytum aptur nær hñ lidcñ er/
þa mætte oss hrella vid þui sem vier hugdum best ad giera / og svo morgt
Augnablik s er þar i/ svo margur Þyrne Broddur munde stynga Sælu
vora nema Motteñs Forþienusta hefde giort Athafner vorar gylldar i
Auglite hiñs stranga Doomara. Gud Næde oss fa rædar Mañeskiur
hversu ad vier erū under Syndena sellder. Sa sem vill skoda Stiernu
nockra i eiñe Sioonar-Pypu/ hañ skal leita leinge ad heñe ædur eñ hañ
fær komed Auga a hana/og nær honū hefur þad tekest/ er hñ svo skiælfs
hendtur ad hñ varla fær vidhalldest / svo ad hañ ecke misse heñar aptur/
svo erum vier i andligum Efnum / vier skulum fyrst leinge þvinga hiñ
gamla Mañeñ/ ædur eñ vier faaū hlna blessudu Jacobs Stiernu / Num.
24. JEsum riett siena/og nær vier þ odlast hefū þa eru vorar Træ-
ar Hendr svo Ostyrkvar/ad þar er nærsta hætt vid ad hun kuñe ad hver-
fa oss aptur/ nema Gud styrke vora Armlegge. Ja hiner bestu af oss
eru eins og þylge spakur Hundur/hañ reñur ad señu Vegeñ epter synum

Hwsboonda nockra Stund/ eñ ef hñ sier eitt Dyr/eiñ Sand/eiñ Hest/
eiñ Titling / þa hleipur hañ epter þvi. Svo eru og vorar Hugreñ-
ingar/vier reñum þiñ til Guds i vorū Bænum under hñs Orda Heyrn/
a vorum Yorunar Tijnum/og kañ skie nockrer optlega þar fyrer utañ/
eñ strax sem þar flygur fyrer oss eitthvert Glis Veralldareñar / einhver
Abata Von / eitthvert Reide Efne / eitthvert broslegt sem oss þyker
Skiemtan ad/ jafnvel þoott þad a Stundū sie Naunganū til Hneisu
og Ohroodurs / þegar þetta edur añad þvilijkt sem Verolldeñ er full af
bregdur fyrer oss/þa bregdū vier opt af Vegenū/og hlaupū epter þessu/
og gixtum vier þa lijtt undañ fareña Synda er oss urdu svo beiskar i Yd-
raneñe ad þar var ecke Fridur i vorum Beinum fyrer Guds Ognan/Ps.
38. Ef vier lætū oss villa Ofblæugt epter slijkum Hiegooma. Nu er
þar þo eingeñ sm̄ kuñe ad vardveita svo vel sitt Hiarta/Ja eg mā segia
Miñ og Neudur ad ecke verde a fyrer hønum i þess Hattar Hlutum og
þad daglega/fyrer þvi siaum vier og/ ad vier hvern Dag/ Ja a hverre
Stundu hefū noog Ydranar Efne /og er þess betur þess optar/ þvi sa
er sier temur þad Hugarfar/ hañ lærer bæde ad sia gior epter Afhofn-
um sijnū / svo og er lijklegt ad hñ mune ecke hverfa aptur til Stoorglap-
aña/þvi ef hñ svo lærer ad ydrast Daglega þrra Bresta sm̄ hñ fær varla
edur ecke vidgiørt/ þa mun hønū i Hug koma/ hvad sart þ mune kvel-
ia hñs Samvitsku ef hñ skyllde rata i nockurn Ogiørning. Svo eigum
vier nu ad leitast vid ad afmæ Lijkama Syndareñ*/Rom.6. Þad er illa
byggt ad brioota eitt gamallt Hws nidur og tilla þvi upp aptur af somu
Rofum. Meñ skulu ecke einasta deyda hiñ gamla Mañeñ er sig fordiarf-
ar i Gyrndum Villudoomsins/ helldur a þar ad upprijsa eiñ nyr Mad-
ur sa ed life i Heilagleika & Riettlæte fyrer Gude Æfeñlega/añars geing-
ur hiñ aptur/ og eiñ Diøfull sm̄ einu Siñe er wtrekeñ hñ tekur sio ad-
ra Anda sier verre/ Luc. 11. Og hverfur aptur i þad Hws hvadañ hñ
wtfoor. Giætum ad hverneg þr hafa breytt sm̄ af Hiarta hafa yd-
rast. Petur var miklu Trwar sterkare epter þ hñ hafde til fulls grat-
ed þad hañ hafde Trwna mist/Matth. 26. Og fieck svo meire Nad eñ
hñ mist hafde/Act.2. Eiñ stoor Syndare sm̄ af Hiarta ydrast hefur/
hañ

hañ er miklu lÿklegri til ad standa stødugur helldur eñ eiñ sem meinar ad sier hafe eckert a vorded / og er af Meñum goodur halldeñ. Gude er og miklu þægre svoddañ Stoorbrota Mañs Ydran og Ellska til Guds sem optast mikel er / af þvi hõnum fyrergafst mikid / Luc. 7. Helldur eñ Ydrunarlaust Meinleise þff er lÿted edur eckert þiñur til Synda siña / þar fyrer sie Ydraneñ svo heit svo kröptug og svo alvarlig ad þad beisk-ast i vorre Saalu sem adur þootte sætt i Lÿkamenu / og ad þad kvelie oss i Hiartanu / er ædur gladde i Holldenu / svo opt sem vier miñumst a vorar eigeñ Synder / edur heyrum þær af ødrum drygdar / og þa munum vier sÿdur aptur a nÿ samþyckiast þm Glæpunum er Drotteñ hefur oss eitt Siñ kvitta giefed. Exo. 29. Stendur ritad um Breñefoornernar sm og voru Syndafoorner / ad þær ættu med heilu Lÿke ad uppbreñast. Lev. 1. Er Kieñemøñunum skipad ad þvo Iñible svoddañ Breñefoorna og svo Fæturnar. Nu bÿdur St. Pall oss Rom. 12. Ad vier skul-um Offra Gude Lÿkame vora / eina lifande Foorn heilaga / Gude þæge-liga / þad er sw Breñefoorn er hõnum lÿkar i hinu Nyia Testamentenu. Þvoum þvi Iñibleñ / þvoum Hiarta vort / bleytũ þad vel i heitum Ydrunar Taarum / þvoum Fætur vorar af þm Saurendum er þær hafa ofast i a hinum breida Vegenum sm liggur til Gløtunareñar / Matth. 7. Drotteñ sagde vid Petur Joh. 13. Sa sm þveigeñ er hañ þarf ecke ad þvo nema um Fæturnar. Frelsareñ droo hier Dæme af þm sm Laug edur Bad taka / þr þvo Fæturnar sÿdarst þegar Lÿkameñ er allur þveigeñ. O Guds Børn / vier erum ad søñu aller þvegner / i Skÿrnarlaugeñe i hveria JEsu dÿrmæta Blood er vtkruñed / eñ vorar Fætur hafa sÿdañ geinged a Vondum Vege / og daglega eigũ vier Leid i giegnũ Ien og Ovege þssarar Verralldar. Eingeñ er svo vel Skoofatadur / Eph. 6. Svo reidubweñ ad fram gilgia Evangelio Fridarens / ad ei flettest nockud uppa. Forgiefens erũ vier i Skÿrneñe af þvegner nema vor iñre Madur skÿrest daglega i Taara, Floode vorrar Ydranar. Þad er ecke noog ad vera skÿrdur i Jordan / vær skulum og skirast i Mora / Exo. 15. Þvoõ þvi Hiartad sm er Bruñur Illskuñar / af hveriũ fram koma vondar Hugsaner / Matth. 15. Med christeligri Ydran / hreinst

lausnare talar i þessa Dags Evangelio/ er hañ seger: Ad aller þr sm fyr er hañ ko,nu hafe vered Þiofar ꝫ Spillvirkiar/ Hvor hañ meinar eptir mögnu Fraffroodu Skilninge þa sm ꝥ hn komu ꝫ eignudu sier Nafn hins mikla Hyrders og villdu frelsa Gydinga af Vallde Romveria/ eñ bönudu ad giefa Keisaranum Skatt/ hvilker voru Theudas og Judas Galilæus/ um hveria Gamaliel talar i Postulaña Giorninga Book 5. Cap. Eñ hverneg sm þvi er vared/ þa talar Drottiñ hier ecke um Spamenena er voru Riettlæteſins Predikarar og spadu um hns Tilkomu/ og tøldu af hañs Anda / helldur añadhvert um þessa sm nu hefe eg nefnt/ edur einhveria þeirra Lyka/ þoott Søgurnar geinge ecke um þa/ Eñ fyrer þvi ad Drottiñ visse fyrer/ ad epter sijna Hiervist a Jordune mundu uppriisa Fals Christar ꝫ Fals Spamenn/ ecke sijdur eñ fyrer sijna Tilkomu i Heimeñ/ þeir ed koma mundu til Guds Barna i Saudaklæd, um/ eñ iñra voru þeir glepsande Vargar/ Matth. 7. Þa seger hañ hier i Gudspiallenu/ hvert ad sie Merke hins saña og mikla Hyrders Saudaña/ epter hverium adrer Hyrdarar eiga ad breyta/ er hañ sett hefur yfer Hiardernar/ Act. 20. svo og a sijna Saude/ er hns Raust alleina epterfylgia. Vier vilium af Gudspiallenu þetta tvent hugleida. 1. Hverneg Kieñendunum eige hættad ad vera. 2. Hverneg Tilheyrendurner eige ad skicka sier. O þu sem ert hiñ mikle Hyrder Saudaña fyrer Blood þess eylijfa Testamentis/ HErra JEsu Christe/ styrk oss hier til med Fullting þijns gooda Anda/ Bænheyr oss fyrer þijna Forþienustu/ AMEN.

## Utleggingeñ.

ÞAR Vor Endurlausnare nefner HYRDer i Gudspiallenu/ þa meinar hañ i fyrstu sialfañ sig/ þvi hañ er Hofdinge Hyrdaraña sem Petur vottar/ 1. Pet. 2. Aller adrer Hyrdarar hafa sitt Embætte af hönum/ þeir sm ad hañs Vilia eru setter yfer Hierdena/ þvi bryiar øllum þeim hns blessudu Dæme ad fylgia/ og er ꝥ sierdeilis þrent sm þetta hellaga Gudspiall vijsar oss til/ sem er. 1. Ad þeir sieu iñ um Dyrnar geingner/ þad er riettelega kallader. 2. Ad þeir læte Saudena heyra sijna Raust. 3. Ad þeir gange undañ þeim. Hvad hinu fyrsta vidvijkur/ þa seger

er

er Paulus ad seʃu/ Hebr. 5. Eingen take ser þeña Heidur til/ helldur sa sm̃ kalladur verdur af Gude svo sm̃ Aaron. Hvilikt Kallan brwkast ad seʃu ecke nu/ og jafnvel ecke i gamla Testamentenu epter þ Gud skip- ade Konungana yfer sitt Foolk. Spamenena kallade hañ ad seʃu/ eñ Kieñemeñerner voru af Konungunum setter. Svo skickade Salomon Kongur Zadoch Kieñeman i Stad Ebiathars/ 1. Reg. 2. og Josophat tilsette Prestana i Nyse Drottens/ 2. Chron. 17. Alle þ þvi ad a medañ Gud hafde sialfur Stioornena i Israel/ þa skipade hñ ollum Hlutum fyrer Medalgaungu Moysis og añara siña Þienara/ Sidañ hefur hañ feinged Konungunum hvilikt i Hendur/ og odru Valldstiettū/ epter þvi sm̃ hverin Lande hagar. Svo var ∓ Aaron bæde kalladur ∓ vijgdur fyr- er Medalgaungu Moysis/ Exod. 28. Drotteñ JEsus kallade ad seʃu siña Postula sialfur/ Matth. 10. eñ epter hañs Hyrdarfullu Himnafer voru hañs Kyrkiu-Þienarar af Meñum kallader / þvi Matthiam og Barnabam utvolldu Postularner/ jafnvel þoott Hlutureñ ad Guds Vil- ia fielle yfer Matthiam/ Act. 1. Biskuparner i Epheso voru af Meñū kallader/ ecke sidur eñ þeir sm̃ Titus Kritar Biskup nidurskipade um̃ Borgernar/ Tit. 1. og kallar St. Páll ad þeir sieu af H. Anda setter yfer Hiardernar/ Act. 20. Svo skickudu þr Paulus og Barnabas Ølldungana i Lystris ∓ Iconio/ Act. 14. og þsse Skickan hiellst allt þan- gad til Gud gaf siñū Sofnudū Christeñ Yfervolld. Þetta sege eg til þss ad eingeñ Guds Þienare efest um̃ siña Kallan/ þegar hñ er af Christe- legu Yfervallde kalladur sm̃ Gud hefur þtta umboded/ nema hañ hafe med Svikum og Prettum/ Gafum og Mwtum stolest iñ i Sauda- Nwsed/ þa er hñ eingu betre eñ Þioofur og Spillvirke / og hefur sier eingrar Guds Adstodar ad vænta i siñu Kalle og Embætte/ hversu vel sm̃ hañ þikest ad sier vera. Svo eru þr nu af Gude kallader sm̃ eru af Konungenum kallader edur þeim sm̃ hñ hefur þad Valld i Hendur fein- ged/ þvi hañ er Guds Umbodsmadur a Jorduñe/ eñ þr hañs sm̃ af hm̃ setter eru/ þo med þvi moote ad þr ecke brwke nein Oleyfeleg Med- ol hier til/ og er þ ecke lijtil Huggun fyrer þañ sm̃ a Doglega Moot- stodu ad veita Satan og vondū Meñū hñs Þienurū/ ad hñer af Guds

kalladur

kalladur i þa N. Stiett/ þvi mættugur er Gud ad vardveita sijna Þien-
ara er honu̅ treysta/ og er brestur han̄ Vilian̄ til þess/ þr eru skrifader
i hans Hondum/ Es. 49. Hver vill þeim granda fram̄ yfer þ hn̄ leyfe-
er. Eg vil um̄ þa segia eins ꝛ Bileam sagde um̄ Jsrael fordu̅/ þvi skyllda
eg bølva honu̅? Min̄ sterke Gud bølvar honu̅ ecke/ þvi skyllda eg stugga
vid honum? Jehova stuggar ecke vid honum/ Num. 23. En̄ hn̄ leyfer
ecker nema þad sm̄ er til hans mikla Nafns Dyrdar/ ꝛ þeim fyrer bestu
er honum af Trw og Dygd þioona/ og er Sæmd ad taka þvi af hans
Hende/ hveriu̅ sm̄ honu̅ lijkar þvi ad skipa/ þeir meiga ad vyssu tileikna
sier þ sm̄ Paulus um̄ sig skrifar/ er han̄ seger; Eg veit hveriu̅ eg hefe
trwad/ og eg em full-trwa ad han̄ er mættugur ad vardveita þad sem eg
hefe honum til-trwad/ 2. Tim. 1. Nu er þad ecke noog Br. M. ad
Men̄ sieu kallader/ nema Men̄ giøre og Guds Verk med allre Athygle.
Judas var kalladur/ Matth. 10. Og gieck i fyrstu in̄ um̄ Dyrnar/ þvi
han̄ hafde medteked þetta Embætte med þeim/ sagde Petur/ Act. 1. En̄
hans Setur vard i Eyde/ og hans Biskups-Doom medtook einn an̄ar.
Og þvi vil eg tala um̄ i ødru Lage/ hvetneg oss byrie ad foostra Guds
Saude. SA VDerner HEyra HAns Rødd/ seger i Textanum:
DRotten̄ talar hier epter Sidvenju Gydinga Lands og an̄ara Landa/
þar ed Hyrdararner brwkudu og en̄ nu brwka i Dag eina Hlioods-Pijpu
til ad kalla saman̄ Saudena/ svo ad þoott margar Hiarder sieu a Beit i
einu Haglende/ samt þecker hver ein Hiørd sijns Hyrders Must/ ꝛ skilur
sig wr ødru̅ Sauda-Flock nær hun lætur. Ef Rødden̄ skal heyrast/
þa skulu Men̄ hroopa/ Þetta Ord Rødd/ þijder optlega Kien̄ingu i
Ritningun̄e. Þar er Rødd eins Hroopanda i Eydemørku seger Esaias
40. Hvad Johan̄es Baptista þijder uppa sig og sijna Kien̄ingu/ Joh. 1.
Þvi skipar og Gud Kien̄imen̄unum ad upphefia sijnar Radder svo sem
adrar Basunur/ Es. 58. Þad er hin Andliga Hyrders Pijpa/ hvar ia
ad han̄ sem er hin̄ mikle Hyrder Saudan̄a/ Heb. 13. Hefur oss sijnum
Smala-Møn̄u̅ i Hend: feinged hvers Eign ad Sauderner eru/ en̄ til þssa
heyrer mikel Kostgiæfne og Astundan Br. M. ætled ecke ad þad mune
einu gyllda hvad þier hrooped/ noog Nærerste meiga Men̄ heyra a stund-

 um/

um/ þad hvtur um̃ Eyrun eins og añad Stoorvidre/ eñ þui er ecke svo hættad sem þytaunn er kom yfer Postulana/ Act. 2. J hverium ad bioo N. Arde/ þui þ er ecke Guds Ord sm̃ sumer Meñ tala i helgũ Stad/ eñ hiñ byrrer alltijd i sijnu Orde er hañ i fyrstu iñblies i Hiørtu Postulañar og añara Guds Mañã/ Þad er eins og Sterkvidred sm̃ Elias hañ i Hedrenũ a Guds Fialle Horeb/ 1. Reg. 19. Þad klauf i sundur Fiølleñ og braut Klettana/ eñ Gud var þo ecke i Vedrenu/ svo eru Kieñingar sumra Mañã/ þær skæpa iñañ Eyrun a Foolkenu/ eñ eckert kemst i Hiartad/ þui þar er eckert af Skynseme/ eckert af Rade/ og eckert af Guds Orde/ þad er Sky fyrer utan Regn/ svo sem Judas Postule talar um̃ Guds Dyrkan sumra Mañã. Hvad mun valda þessu Br. M.? Þui Mañ hyrdar svo litted um̃ ad safna þui i Kornhlødu Hiarta sijns/ er Guds Nyvum byriar ad gefa. DRottenn kallar þañ Þioon sælañ/ Luc. 12. er gefur þm̃ sijñ Verd i riettañ Tijma. Hier af ma sia hvad stoor Framsijne og Arvekne ad heimtest ad einũ Guds Ords Þienara/ sa sem a ad gefa hveriũ einum i riettañ Tijma þad hoñũ ber/ hñ ma ad giæteñ og ecke toomlaatur vera/ sie nockur sturladur/ sie hñ Ofroodur/ sie hañ hyrdulaus/ sie hañ þverbroteñ/ sie hañ Efasamur/ Ad øllu þessu a eiñ Guds Þioon ad giæta/ og læta eckert Verk/ einga Syslañ edur Vañsvis Tijmanligra Hluta sig hyndra fra/ ad gefa sierhveriũ af þessum i riettañ Tijma þad sem þm̃ ber/ ef hañ vill giera Verk DRottens Guds sijns trwlega. Og nema vier svo giorũ/ þa er ecke ad dyliast þar vid/ ad vier muñũ ecke einasta Launeñ missa/ helldur ꝛc. þar a ofañ straff ader verda svo sm̃ hiñ vonde Þioon er groof sitt Pund i Jørdu/ Matth. 25. Vered þui kostgiæfner og ætled ecke ad þad sie noog ad vier høfum Hroos af Mañũ/ þui ef vier leytũ epter þui/ þa erum vier ecke Christi Þienarar/ Gal. 1. Og um̃ allt fram̃ þa lærum sialfer Guds Vilia ad þeckia af hñs Orde/ þar t a eins Guds Þienara Kieñing foolgeñ ad vera/ ad kieña Møñunum ad þeckia Syndena/ ad fa hana kvitta og ad fordast hana. Hølldũ vier ecke svo i Bwskap vorũ/ ad þoott Foodred sie gott/ þa varde miked um̃ hverneg þui sie hagfært/ ætlum ecke ad þad mune vera odruvijs i Andligum Hlutum. Meñ segia ad Foolked skule ecke synd-

ga

ga/ eñ þo giøra Meñ a stundum ecke svo skilmerkelega Grein a millum Goods og Ills svo hiñ Fafroode lære ad þeckia Syndena/ og þ vælldur þvi ad margt þ sem lioott er verdur Dygd halldeð/ edur ad missa Koste eingeñ Kostur. Meñ segia þr skule ecke syndga/ eñ ei segia Meñ svo gløgt hverneg þr skule varast Syndena/edur leggia þm Raad af Guds Orde hverneg þeir skule sia sig vid þeirre edur þeirre Synd er einhver kañ ad vera hneigdur til. Meñ segia ad þr skule ecke syndga/ eñ tala næsta dauflega þar um̄ hvad hver Synd epter sig leide. Guds Reide nefna Meñ ad sønu/ eñ ræda ecke svo Skilmerkelega um̄ þad fyrer hver Verk hun opeñberast af Himnū ofan yfer Mañaña Born/jafnvel þoott Meñ siae þau Daglega fyrer Augum sier/ og nær Meñ þañeg breyta/ ætla sumer ad vel sie Predikad Guds Ord/ og ad þr sieu gooder Verkameñ i Christi Akre/ eins og hañ hafe ecke sialfur Merke sett uppa sitt Ord/ þar ed hañ seger ad þau sieu Lijf og Ande/ Joh. 6. Eñ sumra Mañna Kieñingar eru daudt Hiegooma Rugl/ og ablar meir Bana eñ Lijfs. Þegar St. Pall er ad tala Meale vorn/1.Cor.9. Ad Meñ skule hafa Vpphellde af Þioonustuñe/ þa færer hañ til sijns Maals þa Løgmaals Grein er stendur/Devt.25.Þu skallt ecke Mælbinda þ Naut sem þreskier/ eñ eg ætla ad ei þurfe ad Mælbinda oss suma þegar Guds Erende a ad tala/vær giørum þ sialfer a stundū /edur og Ottañ edr Feitindeñ/ eñ þegar eka skal tijfū vier Mæleñ af/og upprætum svo þ sem Drottiñ seger fyrer Muñ Ezechielis um̄ Voku Meñena i Juda / Aller eru þeir Mællauser Hundar og kuña ecke ad giellta/Ezech.56.Eñ slijker grædugu Hundar verda þo alldrei sadder. Þetta vil eg hafa sagt þeim ed kraka Nafn Evangelij til Abata alleina/og þ er þo allt aññad eñ Evangelium er þr tala. Ecke þañeg Brædur mijner / helldur fylgeð Bode Peturs er hañ seger / 1. Pet. 5. Fooftred Guds Hiørd sem ydur er a Hendur faleñ og gefed Giætur ad heñe / ecke af Naudung helldur frøslega/ verente ecke skieñeligs Avinings gyruger / helldur med frøsū Huga/ og ecke svo sem drottnande yfer Søfnudunū/ helldur svo sem þeir ed sieu Fyrermyndeñ Hiardareñar. Gud hefr sett oss yfer Hiørd sijna / þvi eigū vier Hyrdarar ad vera og ecke Drottnar/þvi eiñ er vor Drottiñ JEsus Christus

hiñ mikle Hyrder Sálnaña/ þad ma og eingeñ Afsokun vera þott sumer hafe lijtel Laun/ Hvad hafde Paulus & Barnabas/ &. hiner Postularner? Sá sem Þioonar Christo fyrer lijted/ hn̄ hefur stærra Lien af Gude þeig ed eñ hiñ sem hefur yfferfliootanlegt/ soo eg þore ad segia ad hañ mun fegur skijna i Dijrd sijns Herra eñ hiñ/ þott bader giøre þr eins vel Skyllda sijna. Giætum og i þridia Mata þss sem Petur miñer oss a ad vier sieum Fyrermyndan Hiardaña. Þad er Almeñeliga hallded/ ad af Oheilum Foreldrum kuñe ecke heilbrygdt Afkvæme gieted ad verda/ Nu eru Kieñemeñerner Andliger Fedur allra þra sm þm til=trwad er/ eñ ef þr eru lijtt vander ad Hlut sijnum/ og hyrda ecke um hverneg þeir lifa/ og eru i þañ Mata Andliga vanheiller/ hverneg meiga þr Gude Andlig Børn fæda. Sonakorn mijn seger Paulus vid þa i Galatia/ med hveria eg aptur ad nyiu þrongbweñ er þar til Christur myndast i ydur/ Gal. 4. Eñ hverneg gietur Christur vorded i þeim myndadur/ hverra Mooder/ þad er Kieñemañsins Sæl afneitar øllu christelegu Athæfe/ eñ hlijder Dioflenum i Ogudligu Framferde/ og þott ad Gud kuñe ad framkvæma sitt Verk i sumra Tilheyrenda Hiørtū fyrer Naad sijns Anda sem ad verkar i Ordenu / þa er þad ecke hinum Rangsnuna Kieñe-Fødur ad þacka/ Ad sønu hefur hn̄ med siñe Þioonustu vered Medal til ad hun er i Skijrneñe endurfædd/ Verda ma og ad hn̄ tale þeitthvad af Predikunarstoolnū er heyrer til Sæluhiælpar og Lifnadarens Betrunar/ eñ hvad gagnar þad? Þegar hañ hvad mest aminer og eggiar a hinar Andligu Dygder/ Kiærleikañ/ Myskunsemena/Hoogværdena/& i einu Orde ad segia a Deydingu sijns Hollds og Bloods / þa sijner hañ þo i Verkunū/ ad þm Hlutū sie Omøguligt af stad ad koma er hn̄ bijdr af Predikunarstoolnū / leggiande svo þ Ok a Herdar Læresveinaña er hañ ecke snerter med hinū minsta Fijngre/ Matth. 23. O vei/O vei/ Hversu Gudlastun er þad nær Embætte Forlijkunareñar er þañeg brwkad [illegible] til Þioonustu? Þetta er hin mesta Landrada Søk i giegn Gude/ þvi þ er ecke einasta hañs Þegna undañ hønum ad ræda/ helldur svijkja þa a moote hønū/ eñ giefa sig i Lid med Satan/ hver ad er svarteñ Ovinur hiñs alvalda Konungs. O hversu skielfeleg mun þrra

Pijna,

Þÿna verda um̃ alla Cylÿþd er þaneg vanbrwkad haþa Myndugleika sÿns Embættis / svo eg er viss um̃ ad hver sm̃ kyñe ad leggia Eyrad vid Hels vÿtis Muña og mætte heyra Oop og Taña Gnÿstran hiña Fordæmdu / þa mundu þo Kieñemañaña Hliood yþertaka / eg meina þeirra sm̃ haþa leidt hañs Hiord / sm̃ med Guds eigeñ Bloode er Endurkeypt / Act. 20. a Veg Glotunareñar / bañande svo Moñum iñ i Himnarÿke / og sialþer koma þeir þar ecke iñ / Matth. 23. Fyrer þvi Drotteñs Kieñemeñ / veriñ ecke eins og Vordur þær ed standa a Heidum uppe / og vÿsa ad señu Veg eñ / eñ ecke þara þær wr Stad svo þær leide hiñ Vegþarande til Hÿbyla / ecke eins og Klucka sw er hanger þyrer Kyrkiudyrum / hun kallar Folked til samans til Guds Orda Heyrnar / eñ sialþ heyrer hun eckert. Treyste ꝛc eingeñ þar uppa ad hñs Embætte sie Heidarligt edur ad hañ haþe Guds Vmbod a Hende / nema hañ gange verduglega þre Kallan hvar iñe hñ er kalladur / Eph. 4. Malmureñ i eiñe brosteñe Klucku kañ goodur ad ves ra / eñ samt er hun ecke miøg hæþ til Þioonustugiordareñar / svo er og Embættid jaþnañ Heidarligt / eñ þ lÿdur Vanvirdu a stundum þyrer O. skyckun og illa Breitne þss sm̃ þad Starþ er a Hendur faled. Edur seged mier / Hvad kuña Tilheyrendurner ad þeinkia añad um̃ hañ sm̃ ei giører nema bender med Fingrenum til Guds Vegar / eñ sialþur geing. ur hañ ecke / helldur eñ þad / ad añadhvert meine þesse Madur eckert aþ þvi hañ talar / edur ꝛc ad sa Gud / er hañ kieñer / mune ei vera svo miøg vandur ad Lÿþernis Hattum syndugra Maña sm̃ hañ seger? Late Meñ sier þvi ecke nægia þar med / ad þeirra Kieñingu er hroosad / ja / ecke þoott hun sie mikillrar Hroosunar verd i sialþre sier / nema Meñ þram̃. kvæme þad i Verkunum er tala med Muñenum. Eg vil hier um̃ vid. lÿkt segia og Endurlausnareñ þordum vid Læresveinana / Luc. 10. Fagna ed ecke aþ þvi ad Andarner eru ydur undergieþner / helldur aþ þvi ad yd. ar Noþn eru skriþud a Himnũ / Svo vil eg segia: Gledieſt ecke svo þar aþ ad hier haþed aþ Gude þeiged goodar Gaþur til ad kieña / helldur meir aþ þvi eþ ydar Goþnudur Leidriettest / geingur a Guds Vege / elsk. ar Gud og hañs Ord / eþ hañs Rÿke uppbyggest a medal ydar / eñ Ands stokans verdur nidurdreped. Gledieſt aþ þssu Br. M. ꝛc legged allt Kapp

 þat

þar a/ hvad ydr audvelldlega takast mun ef þier fylged Bode St. Pals/ er hañ skrifar til Timotheum: Vert Fyrermyndan hiña Truudu i Ordenu/ i Umgeingneñe/ i Kiærleikanum/ i Andanū / i Hreinlyfenu/ 1. Tim. 4. Og hefe eg nu nockud talad uṁ Skylldu Kieñemañaña. Epterfylger med þeim Ordū ad segia uṁ Tilheyrendaña Skylldu / Hun er Tvefolld / Ein vid Gud/ og øñur vid hañs Þienara / Hin skiòare hanger af hiñe fyrre/ og þvi vil eg fyrst þar uṁ tala.

Hier stendur i Gudspiallenu: SAuderner FYlgia HOnum EPter/ Þvi ÞEir ÞEckia HAñs RAust. Eg hefe nockrum siñū þar uṁ talad i Book þessare myner Elskanliger/ hvad oss eige ad knyia til þss ad heyra Raust DRottens sṁ er hñs Ord/ þvi vil eg þss færra þar uṁ tala i þssū Stad/ jafnvel þott alldrei sie good Vysa of opt kvedeñ. Hier stendur ad SAuderner FYlge HYRdernum EPTer / Af Þvi Ad ÞEir HEyra HAñs RAust: Hvad er þad hønū epter ad fylgia? Hyrdereñ er Christur/ þ er ad fylgia hønum epter/ ad lifa Christeliga. Hvad er ad lifa Christelega? þ er ad hallda Guds Bodord/ ef ecke fullkomlega sem Omøgulegt er/ þa þo ad þvi Leite sṁ oss er møguligt. Hañs Matur og Dryckur var ad giøra hañs Vilia sṁ hñ sende. Svo a oss eckert svo kiært ad vera sṁ ad giøra hñs Vilia/ Joh. 4. Elska skallt þu Drotteñ Gud þiñ/ þ er hid ædsta og mesta Bodord/ Matth. 22. Eñ hvad seger Christur? Joh. 14. Ef þier elsked mig þa vardveited myn Bodord. Hañ vegsamade Guds H. Nafn fyrer Møñunū/ ef vier viliū hønū epterfylgia/ þa lætū oss þad fiarlægt vera ad misbrwka hñs Nafn til ad leggia þad vid Hiegooma/ eñ þo mikiu sidur ad liwga vid þad/ sveria edr Fiølkynge fremia. J einu Orde ad segia/ Christur sṁ ecke var Løgmælenu undergiefeñ/ hañ uppfyllte allt Løgmaaled/ Svo eigum vier af fremsta Megne ad æfa oss i Hlydne allra Guds Bodorda/ og ecke skamta oss sialfer hvad miked edur lyted vier viliū hallda þar af. Ecke ad elska alleinasta Fødur og Moodr/ eñ hata alla adra/ Ecke ad vera einasta Meinlaus i Umgeingneñe/ og Goodvikeñ vid Naungañ/ eñ kreinkia hañs Hussfru edur Frændkonur/ Ecke alleina ad vakta syn Augu fyrer Lauslæte/ eñ stela þo Naungans Gotze og svikia hañ i Kaupū og Sølum.

Ecke

Ecke er þad nóog ad læta hns Jemune kyrra/ han Bakkala han þo og Oþrægia/ ja liwga upp a han Lÿstum og Skømum/ Vera Fals-Vitne a moote hønum/ edur neita hønu Sanleikans Vitnes / sm er allt hid sama. Ecke duger þetta Br.M. Ecke er þad Christo epter ad fylgia/ þui ja sem er sekur i einu af Bodordunum/ han er brotlegur i øllum/ Jac. 2. Þar hyrer ei ad þui vissu ad ganga/ad sa e lætur epter sier tiockud af Ïssu/ og drÿger þad vissulkande a moote Samvitskune/ han er ecke af Christi Sauda Hiwse. Hvad er han þa? Han er Braad Ulpfens/ sm er Andskotenn/ og mun hønum ad eylijfu Netþange verda/ nema han snwe aptur/ en hverneg vill han þa þad giørt/ nema han heyre Raust hins gooda Hyrders/nær hn kallar. Þvoed ydur/ hreinsed ydur/ taked ydar Illsku Breytne fra minu Auglite/lated af Illu & læred gott ad giøra/ Es. I. Þesse er hans Raust/ og ef þier af Hiarta ydrest ydar vondra Verka/ og lated ydur angra ad þier hafed Gud styggdan/ þa sætur hun enn þa hærra er hn seger: Komed til min aller þier sm erfided & Þwnga erud þiader/ eg vil Endurnæra ydur/ Taked a ydur mitt Ok og læred af mier/þviad eg em høgvær/og af Hiarta lijtelætur/og munud þier finna Hwijlld Saalum ydrum/Matth. II. Þesse er Raust hins gooda Hyrders i allre Ritningunne i øllu Guds Orde/ og þanneg a eins Hroopanda/ eins Predikara Raust ad vera i Eydemørku Verallдar þssarar. Þier vited Børn M. ad vier Daglega fyndgumst/ Lastanna Greiner spretta ydulega wt wr þre Molld sm vier erũ giørder af sijdan Fiandmadurenn sæde þar Illskunnar Sæde/ hær verdr af ad høggva/svo oft sm þær vaxa. Med hveriu þa? Med Guds Orde sm er eitt tvijeggiad Sverd og framgieck af hans Munne er Johannes sa ganga a mille Lioosastiakanna/ Apoc. 1. Guds Ord er einn Elldur sa ed brenner upp øll Saurende Gyrnda og Lasta sm oss eru medfædd/ þad er einn Hamar er sundur mer Hiørtu vor/ svo þau verde Bwstadur Guds/ og sundurknosar vorn Anda/ svo hn verde þad Offred sm Drottne lijkar/ Ps. 51. Hier um talar hn svo hia Jeremiam 23. Er ecke mitt Ord svo sm Elldur seger DRottenn/ og svo sem einn Hamar sa ed Kletten i sundur molar. Guds Ord er einn Elldur sm sagt er. Aaron sagde fordũ sier til Afbøtunar/ Minn Herra/eg kastade

ade Gullenu i Elldeñ/ og vard þar af þsse Kalfur/ Exod. 32. Kritka trwadads Maňs Hiarta er hveriu Gulle dyrmætara/ køstum þvi i þeña Elld/þar af mun sialfkrafa vaxa eiñ Kalfur/ecke Svyvirding Egypta lands svo sm̃ Aarons Kalfur/ helldur ein lifande Foorn og Gude þacknæmelig/ sm̃ eru Kalfar Vara vorra/ Os. 14. Þesse er sw Skylldañ er vier eigum Gude ad giallda/ og giølldum vier ef satt skal segia Vr. M. ecke i haňs/ helldur i vorar Parfer. Jarðneskir Hyrdarar fæda Saudena fyrer Vllena og Mioolkena/ eñ Drottiñ fæder sijna Saude fyrer alls eckert/ einkis krefur hañ af þm̃/ nema ad þr. skule Ottast sig og elska/ og ætti þad ecke ad vanta christner Meñ/ þvi ef vier elskum vara Lanar-Drottna fyrer þad þr giefa oss Føt og Fæde/ og viñu þm̃ alltiid þo nockud til Parfa. O þvi skylldū vier þa ecke elska hiñ gooda Allsheriar Drotteñ/er ecke einasta fæder og foostrar Lijkame vora/helldur og elur Sæler vorar a þssu himneska Manna/ Ja a sijns Eingietens Sonar Holde og Bloode/ sm̃ er Lijfsins Braud af Himnū ofañ komed/ Joh. 6. Verū þvi ecke svo Illgiarner a moote sialfum oss ad vier daufheyrumst vid þessa gooda Hyrders Raust / hver ed foostrar oss i lystelegum Grashaga/ og leider oss ad ferskum Vøtnum / Psalm.23. Oll syndugs Maňs Olucka kiemur þar af ad hañ liær ecke Guds Raustu Eyru/ Hverneg meiga þr. trwa nema þeim sie predikad? seger Pall/ Rom.10. Eñ eg mæ spyria/til hvers skulu þr predika nær eing eñ vill heyra? og hverneg a Guds Ord ad verka i Hiartanu nær þ kiemst ecke i giegnū Eyrun/sm̃ eru Dyr Hiartans. Lamparner voru fyrst kveikter i gamla Testamentenu ædur eñ Reykelsid var tendrad/Exod. 27. & svo verdur Skilningureñ fyrst ad upplijsast/ad Maňeskian þecke Gud. & sialfañ sig ædur eñ Girndeñ kviknar/og Audmykteñ lifnar til ad afneita sialfū sier/ eñ elska Gud. Eñ hvar er slijka Guds Gioff ad fæ nema i þss H. Orde/ þau eru Lampar þeir/ Ps. 119. sem Reykelse vorrar Ydranar/vorrar Trwar/ vorrar Bænar/ Reykelse Elskuñar til Guds og Naungans skal tendrast med/ svo þeirra Ilmur stijge upp fyrer Guds Náſæte og samteingest þar Drottens Forþienustu oss til Forlijkunar. Og er nu svo wttalad um Skylldu vora a mote Gude vorū i þssu.

Eñ hvad vora Skylldu ahrærer vid Kieñendurnar sm oss eru i Guds Stad setter / þa er hun nærsta mikel. Eg mun þykia bermæltur vered hafa um þra Skylldu i hinum fyrra Parte Radu miñar / eg vil eg þvi viked hafa til þra sm ecke taka Vara a sijnu Embætte / og lijted hyrda um hverneg þr kieña edur lifa / Eñ Gude er Packer ad kuña / ad hñ hefr giefed oss marga sijns Ords Kieñendur / þa ed bæde Predika þad hreint og klært / og svo prijda Kieñijnguna med Lastvøtu framferde. Þesser hafa stooran Myndugleika af Gude Bern mijn. Nia þm a þ heima sm Drotteñ seger / Luc. 10. Hver hñ forsmaer ydur hñ forsmaer mig. Ecke er oss ad þeim ad leita sm ecke finest Mañlegur Breiskleike hia / Gud hefr nærsta Vægdarsamlega høndlad vid oss i þvi svo sm øllu ødru / ad hñ hefur ecke sendt oss Eingla af Himnum til ad kieña oss / þvi vier mundū ecke standast þra Nalægd / helldur Synduga Meñ eins og vier erū / og hefur prijdt þa med Englaña Nafne / Malach. 2. Til ad læra oss vita ad þeir sieu hñs Sendebodar til vor / hveria hñ vill lata medtaka i sijnu Nafne. Hverke Petur nie Pall / edur nockur añar af Postulunū voru an Mañligs Veikleika. O hvad munū vier þa vera sm eingañ vegeñ erum þra Lijkar. Keñemeñerner i gamla Testamentenu ættu ad forlijka fyrer sijnar eigeñ ædur eñ þr Offrudu fyrer Foolksins Synder / Neb. 7. Eñ ei ad sijdur villde DRotteñ ad Foolked skyllde þm hlijded og under giefed vera / svo ad hñ seger: Hver ꝥ ecke vill Kieñemañenū hlijda / hañ skal deyia / Deut. 16. Nu þott ad þtta Løgmaal sie afteked / ad svo miklu Leite sm Lijkamans Straffe vidvijkur / þa er þ samt og ædur vijst ad hver sm ecke hlijder einū Drottens Kieñemañe i øllu þvi sm hñ høvū i Guds Nafne rietteliga bijdur / hañ deyr Andligum Dauda / hñ er ecke christeligrar Kyrkiu lifande Limur / hañ er doudur i Synd þre er hañ vill ecke taka Boot æ / og nema hañ hlijdnest Drottens Þienora / og ydrest af Hiarta ædur eñ hañ deyr / mun hañ eylijfum Dauda deyia. Þier vited hvad DRotteñ sagde fordum Daga um Pharisæos og Skriftlærda / Matth. 23. Ad Meñ skylldu giora epter þvi sm þr segdu / eñ ecke epter þvi sm þr giorde / af þvi þr sæte a Moisis Stoole. Hversu miklu framar byriar oss þa ad hlijda Raadvøndum Kieñemøñum er undan oss


ganga

ganga i Vita Drottens/ z eru Ostraffanliger sem Paulus ad Orde kiemst/ 1. Tim. 3. Þad er hveria Meñ ei kuña ad straffa fyrer nockurn Glæp edur Hneixlissama Vñgeingne/ þott ei sieu þr fyrer Gude Syndlauser. Soo eigum vier nu vorum Kieñefedrum ad hlyda i þvi þeir oss biooda Guds og sijns Embættis vegna/ eins og sialfum Gude/ þvi þeir eru Verka Nautar Christi/ og Radsmeñ hñs Leyndardooma sem Paulus votkar/ 1. Cor. 4. Þar fyrer seger og sialfur Christur/ Luc. 10. Hver ydur heyrer hañ heyrer mier. J ødru Lage eigum vier ad heydra og elska vora Kieñefedur. Þad byder Paulus oss/ 1. Tim. 5. segiande: Þeir Ølldungar sem vel forstanda halldest tvefalldligs (þad er mikels) Heidurs verduger/ allra helldst þr sem erfida i Ordenu og Lærdomenum/ svo sem eru Trwlynder Kieñefedur medal vor Br. M. Og þvi skylldum vier ecke heydra Guds Sendeboda/ ef vier hañ heydrum. Hvilijkt er þa Nanuleyse sumra Maña er þeir hatast vid sijna Kieñefedur af þvi þr straffa þa þm Synder og Leste/ og vilia hafa Salu þra hoolped wr Glotuneñe. Þar finast Ogudliger Skalkar er ecke sijfiast ad leggia Hendur a sin Salusorgara/ þr ed skiema hañ wt i Ordum sijnum leynt og lioost. Hvad er ad giallda Jllu gott ef þvilijkt er ecke? Hvad er ad giøra Vpreist a moote Gude ef ecke er þetta? Og eru þr eingu betre sem Maztena hafa/ og svoddañ Glæpe ecke einasta Ohegnda læta/ helldur og taka slijka Ohæfu i Forsvar/ sem Dæme munu til giefast. Vel er þ satt ad Guds Þienare a alla Hlute ad lijda fyrer hañs Saker/ eñ þo ma hñ beidast Riettar sijns nær svo vidber/ þvi ecke einasta hañ/ helldur og hñs Herra er i slijku vanvirdtur. O hvilijkt Nidurdrep er þ Christi Rijke þegar svoddan Gudleyse er ecke straffad af þeim sem þar til Valld hafa af Gude og Koninngenu. Ægyptsker strøffudu þañ a Lijfenu sem ecke hialpade einum Ferdamañe wr Ræningians Høndum ef hañ kyñe/ Giæse þr ad þvi sem Magt hafa til ad straffa þa sem Guds Þienurum Ofbiooda med Orde edur Verke/ hvilijk Guds Reidefer þm hanger/ i hverin Fare fra Lijf og Sal vera mune þegar hñs Hefnd vaknar ein hvern Tijma/ ner þr ecke hialpa þm i riettre Søk sem af Gude eru sette er til ad hialpa Salu Olukvandra Maña wr Kverku Satans/ sem er

Ræninge

Køninge Salnanã. Svo eru þr og nockrer sm̃ Andskoten̄ hefur svo blyndad med Foolskun̄e / ad nær ein̄ Christi Þienare seger þm̃ til Syndañã / vilia þr ecke þiggia Guds Lykama af hans Hende / þr giøra sier Þusund Mein fyrr en̄ þ skule a þa ganga / og sæta giarnañ þm̃ Tijma nær ein̄hver añar þlytur Guds Þioonustu i Kyrkiun̄e. Þessa eru mørg Dæme þvi vert / og þetta giøra sumer af þm̃ ed segiast vera nockud / þoott ei kun̄e þr Prestenu̅m nockra Sok ad klaga / og nefna þetta Samvitsku Veike synna / hvar i þr fara ei miøg villt / þvi Dioefullen̄ plagar Saler þra mz Neipten̄e sm̃ þr leggia a þañ er þr ættu næst Gude ꝛ Konunge nu̅ ad elska. Seged mier / Mun ecke Satan hlæia ad slyku Dæraskap ꝛc. mun ecke Drottens Lykame fordæma, þa merkelega nær þeir stelast til ad medtaka hañ med svoddañ Niartalage moote synum Kien̄efødur ꝛ Mun ecke hn̄s dyra Blood med hveriu Syndaren̄ er endurkeyptur hroopa Bølvan i Himenen̄ yfer þeim. Þad Auga sm̃ spottar sin̄ Fedur edur forsmaer Hlydne Moodur sin̄ar / þ munu Hrafnarner utkroppa seger Salomon. En̄ seged mier / Eru ecke riettsin̄ader Kien̄endur Fedur vorer ꝛ Prov. 30. Seger ecke Paulus / 1. Cor. 4. Eg hefe giefed ydur i JEsu Christo fyrer Evangelium. Þeir eru og riettkalladir þessu Nafne sem gooda Forstødu veita / þvi svo sem vorer Lykamleger Foreldrar eru Medal til ad framkvæma Naatturun̄ar Verk / svo eru og hiner Andlegu sm̃ eru riettsin̄ader Ordsins Þienarar / Medal til þess ad framkvæma Guds Verk i oss sem er øllu ædra / þvi a þa eingu sydur ad elska og virda. En̄ þ kalla eg ad hin̄ grædduge Hrafn Dioefullen̄ hafe alla reidu þeirra Salar Augu utkroppad / sm̃ hata svo nockurn Guds Ords Þienara sem er hn̄s Fader / ad hn̄ vill ecke þiggia af henu̅ þa Guds Þioonustu er hañ a øllum Christi Limum ad veita / og gierer sig þañeg Guds Rykis Overdugañ. Heyred þvi St. Pals Ord af Pistlenum til Hebr. Cap. 13. Hlyded ydar Leidtogurum og heyred þeim / þeir ed vaka yfer ydar Salum / svo sm̃ þeir ed þar fyrer eiga Reikningskap ad giøra / svo þeir giøre þad med Fognude og ecke med Andvarpan / þvi þad er ydur Obarflegt. Þad er hin̄ ædste Fognudur Guds Ords Þienara / sm̃ vilia fegner finnast / ad þeir fæe nockud æorkad med synu Erfide / og þvi kalla

 ad

ar Paulus þa i Philippis siñ Fognud og syna Coronu/ Phil. 4. þui sezest hañ ecke þurfa Nools Brefaña vid/ er hñ skrifar Corinthiis til/ þviad þeir sieu sitt Bref skrifad i Niarta synu sm̃ skiled og lesed verde af øllum Møñum/2. Cor. 3. Aptur er þad hin mesta Sorg/ nær þeir þa einu til Leidar komed vid suma Meñ/nær þeir sia fyrer fram ad þeirra Synder vegna Ofvermoodsku siñar deyia wt af fra þui heilnæma Foodre Guds Orda/ ecke Tymanlegum/ helldur Eylyfu Dauda. Augustus Keisare sagde um̃ Børn syn er skickudu sier illa/ og midur eñ hñs Tign soomde/ ad þau være synar þriar Akomur. Svo meiga trwer Guds Þienarar segia um̃ þ Illgresed er Diøfullen̄ sær nidur i Guds Akre sm̃ þeir eru yfersetter. Þad eru þeirra Akomur/ þeirra Meinsemder/ þad eru Illkukyle og Skaptarmein sem eta i kryngum sig med vondum Dæmum/ og eitt Surdeig sem spiller øllu Deigenu ef til vill/ nema þau læknud sieu. I þridia Mata eigum vier Salusorgurum vorū ærlegt Vppheldе ad veita/ þad baud sialfur DRottenn̄ hia Matth. Cap. 10. er hañ sende þa wt ad predika/ Verdur er Verkamadureñ siña Lau na sagde hañ. Þad hefur hñ Itrekad fyrer Muñ St. Pals/ hver þo erfidade sialfur med synū eigen̄ Nondū/svo hañ ecke legde Þyngsle a Søfnuden̄ i Corintho/Nañ seger i hinu fyrra Sendebrefetil þeirra/Cap. 9. Nver fer no kurn Tyma i Nernad uppa sin̄ eigen̄ Kostnad? Nver plantar Wyngard og etur ecke af hñs Avexte? Nver fæder Niørdena og etur ecke af Miolk Niardaren̄ar? Þier seged vel Br. M. vier giørū svo/ vier giølldum Kien̄efedrum þad Løgen̄ oss tilsegia/ þad er satt/ mørgum fer vel i þvi/ þeir eru og sumer er meira giøra eñ Løgskylldan byodur/ og hafa þeir hia Gude Launa ad vænta sem ecke vill lata eiñ Vatnsdryck Olaunadañ vera sem gefen̄ er i Læresveins Nafne/ Matth. 10. Þad er samvel hid minsta sm̃ hañs Þienurū er til Gooda giørt/ um̃ hveria hañ sier i Lagetalar i þessum Stad/ þoott þad og meige til Fatækra heimfærast. Eī svo munu aptur a moot finnast þeir sem ecke eru svo miøg adgiæfner i slyku/ þeir ed greida þad þm̃ greida byriar med Illu/ med Eptertølu/med Rangsleitne i þvi er syst hagar/og a hinū Ohentugasta Tyma/og þyker þad nærre þvi verst allra Skullda loked/ sem golldeð er

Drottens

DRottens Þienurum/ og kalla ad Prestur hafe ecke miked fyrer sÿnu Braude. Ecke giet eg sagt ad þvilÿkar Manneskiur elske miøg Sæler sÿnar/ þvi annars mundu þeir hyrda meir um sinn Sælusorgara. Lijted vita þier af hvad Kiennemannligu Embætte fylger/ hver Mæda/ hver Umhyggia/ hver Astundan/ ef þad af Alvøru nockurre giort er. Seged mier/ mun þad lijtil Mæda ad þier vaka yfer ydar Sælum med Bænenne til Guds? Med Kostgiæfne i hans heiløgu Orde sem ydur skal Predikast? Munu þeir hrista þad Foodur wt af Ermenne er sierhverium ydar giefa skal i riettann Tijma? Mun ei þurfa Omak og Aðgiætne til ad þeckia svo hvern einn af þeim sem Guds Þienara er tiltrwad/ ad hann giæte boded þad hveriumm einu sem honum er Naganlegast? Leggia ydar Kiennefedur ecke optlega sitt Lijf i Hættu fyrer ydar Velferdar Skulld? Meiga þier ecke taka a sig þa Þyckiu og Ovilld vondra Manna/ nær þier segia þeim til Syndanna? Byriar þeim ecke ad þvinga sinn eiginn Lijkama ad ecke Predike þier ødrum/ og verde sialfer ræker? 1. Cor. 9. Og hvad allra þÿngst er ad þier skulu giøra hinum Alvallda Doomara Himens og Jardar Reikningskap fyrer Sæler ydar a Dege alls Holds og svara til ef nockur tapast/ hvert þad er af hans sialfs Vijsum edur Kiennemannsens Vanrækt. Vilied þier segia mier þa ad einn Prestur vinne ecke fyrer sÿnu Braude? Edur hønnum sie Ofgiefed þad hann nÿtur. Þier segest gialda þvi þier eruð skylduger/ svo er þad fyrer Mønnum/ eingenn kann meira wt ad heimta/ eg sege ecke helldur ad þier skulud giefa þeim fram yfer Skylldurnar sem noog Upphellde hafa/ og sialfer ættu helldur ad leggia af vid adra enn taka fra þeim. Enn hina er vinna þurfa Bake brotnu/ þier og þra Børn og Kvinnur fyrer Lijfs Næringu sinne Søkum lijtels Upphelldis sem vijda er/ þa ættu Menn ad þeckia framar ødrum svo sem Paulus bijdur/ 1. Tess. 5. segiande: Eg bid ad þier þecked þa sem erfida a medal ydar/ og ydur Forstødu veita/ og kienna ydur/ og ad þier hafed þa yfer Mæta kiæra fyrer þeirra Verks Skulld. Ad þeckia/ merker hier ad elska/ svo sem Postulenn leggur þad sialfur wt/ ecke einasta med Orde og Tungu helldur med Verke og Sannleika/ 1. Joh. 3. Eg þecke mÿna Saude/ og eg þeckest af mÿnum seger JEsus/ Joh. 10. Svo sem

Gud þecker oss/ þad er elskar /svo eigum vier ad þeckia vora Kieñefedur/ Eñ hvernegþ þecker Gud ossk þañeg /ad hañ giefur oss alla Hlute ænæg-lanlega til Notkunar/ 1. Tim. 6. Svo eigũ vier ad meddeila þeim ollũ Glæsum sem oss uppfræda i Ordenu/ Gal. 6. Hvad medtøkum vier af Guds Nende fyrer þeirra Medalgøngu? Andligt Foodur Saalna vorra. Neyred þa hvad Paulus seger hier um̃/ 1. Cor. 9. Ef vier høfum saad fyrer hid Andliga/ er þad þa mikid ad vier uppskierum ydvart hid Lijkamleiga? Þu gielldur allar Skylldur Prestenũ/ þad er gott/ hñ kañ ei mel-ra ad heimta / eñ ef þu sier þiñ Saalusorgara Naud lijda / Hwngra/ Þyrsta edur Klædlijteñ vera/ og þu hialpar hønũ ecke ef þu hefur Raad þar til / þa hefur þu eingañ vegeñ loked þijna Skylldu Gude/ sem er bæde þiñ og hñs Drotteñ/ þvi ef Postuleñ seger ad Guds Kiærleike sie ecke i þeim ed svo breyter vid eiñhvern añañ sem Naudstaddur er/ 1. Joh. 3. Hverneg mæ hañ vera i þeim er svo giører vid siñ Kieñefødur / sem hønum er framar ødrum Vanda bundeñ. Hugsa þvi ecke med þier ef þu att fratækañ Saalusorgara þañ er ræker sitt Embætte/ Hvad er mier vandara eñ þeim sem lifa i ødrum Søfnudum? Þegar eg giælld og gief eins og þeir/ þa hefe eg afloked Skylldu miñe / þvi Gud hefur giørt betur til þijn eñ hañs sem eckert þarf af ad leggia vid siñ Kieñefødur/ þar hñ hefur giefid þier Orsøk til ad leggia Skulld iñ hia sialfum sier/ ecke þess vegna ad hañ kuñe nockrum skulldugur ad verda/ helldur søker siña Fyrerheita. Eg Paall hefe skrifad med miñe eigeñ Nende/ eg skal be-tala sagde hñ fordum i Sendebrefenu til Philemonem/ Eñ eg er Gud alleina rijkur/ Eg hefe talad fyrer Muñ mijns Eingietens Sonar/ ad eiñ Vatns-Dryckur i Lærésveins Nafne skule ei Olaunadur vera/ seger Drotteñ/ Matth. 10. Sa sem vill sialfum sier vel/ hañ giøre vel vid siñ Kieñefødur/ Sa sem sialfañ sig elskar/ hñ elskar Saalu sijna/ Hver ed Saalu sijna elskar/ hñ elskar Gud sem hana skapad og frelsad hefur/ Sa ed Gud elskar/ hñ elskar hñs Þienara/ Sa ed hñs Þienara elskar/ hañ sier Ogiarnañ ad þeir Naud lijde / ef hañ fær vid þvi giørt/ Þar fyrer/ sa sem vill sialfum sier vel/ hañ vilie under eins sijnum Saalu-sorgara/ sem hønum er i Guds Stad settur. Eñ Gud Allsheriar sa ad

er Fader vor allra/ hañ styrke oss svo hier i Nꜳdeñe/ bæde Yfirbodnum og Undergiefnum/ ad vier þeckium svo hver añañ/ ad vier um sijder af hinum ædsta Biskupe ꝛ Hyrder Sꜳlna vorra mættum þeckter verda og inleidder a Land lifande Maña/ svo þar verde eitt Sauda-Hws og eiñ Hyrder. Þad Bænheyre hiñ Nꜳduge Gud fyrer JEsum Christum/

AMEN.

# Til Lesarans.

J Title þessrar Bookar stendur/ ad þeñar fyrre Partur sie frꜳ fyrsta Suñudeige i Adventu/ til fyrsta Suñudags epter Pꜳska/ Og þo þeñar Vel-Edla og Vel-Ehruverdugur Author Hr: Biskupeñ Mag: Jon Thorkelsson Vidalin, ætlade til ad fyrre Partur Bookareñar/ være frꜳ Adventu til Trinitatis Suñudags/ gat þad ecke skied a fyrerfarande Are/ ad hun yrde svo afþryckt i þad siñ vegna Papphirs Ecklu: Eñ nu hefur Vinsamlegur Lesare þeñañ Bookar-Part epter Autorsins Fyrerætlan fullkomeñ. Jeg befala oss alla Guds Fødurs Nꜳd og Heilags Anda Upplysingu i JEsu Nafne/ Hoolum d. 27. Februarii Anno 1719.

Steinn Jonsson.



# ERRATA.

Pag. 2. Lin. 5. les til. pag. 19. Lin. 29. les Blood. Pag. 24. L. 26. les skulur. Pag. 27. L. 9. les Gudlastarar. pag. 28. L. 19. les Upphafe. pag. eadem L. 24. les Gudsplallcd. pag. 29. L. 19. les Vitnisburdar. pag. 33. L. 27. les Act. pag. 35. L. 28. les fiiebinda. pag. 37. L. 20. les predikande. pag. 39. L. 3. les miklu. pag. ead. L. 15. les Guddoomsens. pag. 40. L. 29. les synum. pag. 44. L. 16. les helldur. pag. 45. L. 20. les hvi fyrer þetta. pag. 54. L. 27. les Anglit. pag. 59. L. 7. les høfdu. pag. 76. L. 19. les Faderen. pag. 79. L. 7. les Sonur. pag. 86. L. 3. les JEsus. pag. 89. L. 32. les Christendoomur. pag. 91. L. 21. les Drottne. pag. 104. L. 15. les Vinar. pag. 107. L. 8. les Jw. pag. 108. L. 22. les sie. pag. 112. L. 20. les Fødursens. pag. 113. L. 16. les þarfaste. pag. 136. L. 27. les Dyrdarennar. pag. 140. L. 33. les Kiærleikuren. pag. 145. L. 3. les Pukum. pag. 171. L. 2. les Umgiungne. pag. 184. L. 12. les Ecktaskaparens. pag. 186. L. 26. les [illegible]. pag. 203. L. 19. les Høfringe. pag. 209. L. 2. les Pisþullen. pag. 211. L. 23. les hvad. pag. 214. L. 5. les han. pag. 225. L. 20. les Augun. pag. 236. L. 16. les Manne. pag. 264. L. 31. les Brlooste. pag. 271. L. 5. les sk[illegible]lde. pag. 273. L. 3. les Egyptalande. pag. 276. L. 9. les Styrnene. pag. 282. L. ult. les mign. pag. 297. L. 12. les kiemur. pag. 305. L. 21. les Høfdingia. pag. 310. L. 11. les sia. pag. 323. L. 23. les fyrer. pag. 335. L. 6. les hønum. pag. 360. L. 3. vantar þetta Ord/ Hefe. pag. eadem. L. 24. les Mixla. pag. 364. L. 23. les Overdugur. pag. 423. L. 25. les. ad. pag. 429. L. 26. les hus. pag. 437. L. 21. les hende. pag. 451. L. 11. les alleina. pag. 455. L. 3. les lijttlogande. pag. 463. L. 2. les Stundum. pag. 478. L. 5. les lagt. Ibid. L. 24. les Moodsfødu. pag. 481. L. 8. les Ungdoomenu. pag. 484. L. 15. les Skyrnene. pag. 494. L. 3. les gisrdest. Ibid. L. 4. les Bølvan. pag. 505. L. 18. les vonder. Ibid. L. 19. les Astunvan. pag. 507. L. 18. les Endurlausnare. pag. 510. L. 13. les Vonene. pag. 576. L. 3. les Trwudu. pag. 578. L. 3. les rietttrwada.

Og hvad fleira hefur mætt yfersiäst i Pryckingunne/ er vinsamlegur Lesare umbeden ad Lagfæra og lesa i Maaled.



